# KVÖLDVÖKURNAR

# 1794.



samanteknar af

**Dr. Hannesi Finnssyni.**



FYRRI PARTUR.

Önnur útgáfa.



**Reykjavík, 1848.**

Prentaðar á kostnað prentsmiðju landsins,

af H. Helgasyni.

Fyrri partur bókar þeirrar, er hjer kemur fyrir almeníngs sjónir, mismunar nokkuð frá hinni fyrstu útgáfunni, sem prentuð var árið 1796, því þykir hlýða að þess sje getið, í hverju sá mismunur er fólginn millum hinnar fyrstu útgáfu og þessarar.

Það er þá fyrst, að á einstöku stað hefur orðfærinu verið breytt, þar sem orðin þóktu vera annaðhvert um of útlenzkuleg, ellegar eiga heima í hinu lakara orðavali daglega málsins, en fullyrða má, að allstaðar hefur orðabreytíngin verið gjörð með mestu varkárni, til þess að orðfæri og orðaskipan yrði sjálfu sjer nokkurnveginn samkvæmt, og svo til þess, að efnið haggaðist hvergi.

Annað er það, að þrennt hefur verið undanfellt: formálinn, um orðið trú og útleggíng sendibrjefsins til Galata. Var þetta gjört fyrir þá sök, að tilgángur stiptsyfirvaldanna var sá, að alþýðan feingi í hendur ljetta og auðskilda bók til fróðleiks og skemtunar handa börnum og únglíngum, þess vegna urðu þær ritgjörðir úr að fellast (þótt í sjálfu sjer góðar væru), sem ekki gátu samsvarað þessum tilgángi.

Prentun þessa parts hefur orðið mjög tafsamt, því hún var byrjuð undir árslokin 1846, en varð að hætta meir enn eins árs tíma, af því önnur rit bárust þá að höndum, sem urðu að sitja í fyrirrúmi. t. a. m. sálmabókin og alþíngistíðindin. Að líkindum verður síðari parturinn búinn frá prentsmiðjunni í haust undir veturnætur.

Reykjavík 28. Apr. 1848.

# YFIRLIT EFNISINS.



# I. ÍSLANDS KULDA-VEÐRÁTTA.

Sálm. 147, v. 12. 15—18.

*Lofa þinn guð, Síon! — Hann sendir sinn boðskap til jarðar, með hraða fer hans orð. Hann gefur snjó sem ull, útdreifir hrími sem ösku. Hann sendir niður klaka í molum, hver stendst hans kulda? Hann sendir sitt orð og bræðir hann; hann lætur sinn vind blása og vatnið rennur.*

Þegar jeg í rökkrinu kom uppá pallinn, varð mjer að orðum, eins og opt kann að verða, að jeg spurði: hvað væri frjetta? Litla stund gegndi mjer einginn, því nýlega hafði ekkert frjett-næmt heyrst, en er einginn svaraði, sagði Sigurður, svo sem til að láta það eitthvað heita: kominn er kaldur vetur! hvað eð gaf efni til eptirfylgjandi samtals:

Prestur. Satt er, eptir sem nú er kallað, að vetur kom í dag; þó hefur hinn lærði lögmaður Páll Vidalín skrifað og sannað, að hitt sje rjettara að byrja veturinn á laugardegi, það er að skilja, svo sem á morgun. En því sagðir þú, Sigurður minn! að kaldur vetur væri kominn, þar eð í dag hefur verið blíðviðri?

Sigurður. Því veturinn færir ætíð kulda með sjer, og það er ekki minnsta bölið okkar kuldinn, snjórinn og vetrar-harkan hjerna á Íslandi.

Prestur. Þá heldur þú kannske, að hvergi sjeu illviðri nema á Íslandi, og ekki sje nema bölið eitt af snjó og kulda?

Sigurður. Lángtum heitara held jeg sje annarstaðar enn hjerna, helzt sunnast á jörðunni, því sólin er fyrir sunnan heiminn, og við erum hjerna í norðrinu leingst frá henni.

Prestur. Skjátlast þjer nokkuð í því; jörðin er sköpuð eins og hnöttur eða hnoða, sem veltist í kríng, og er miðbik hennar ætíð undir eður skamt frá sólar-línunni. Þar af kemur að heitast er á miðri jörðunni, hvar sólar-geislarnir falla beinast niður, en kaldast til beggja endanna, það er að skilja, norðast og sunnast; samt er miklu kaldara á suðurendanum enn til norðurs, því þegar hálfri jarðar-leingdinni frá miðjunni til suðurs, er skipt í 90 jafna parta, sem kallast mælistig, og hinum helmíngnum frá sömu miðju til norðurs í aðra jafn-stóra 90 parta, þá hafa skip ekki getað komizt fyrir ísum leingra til suðurs, enn freka 60 slíka parta, en til norðurs lángt yfir 80, og því nær 90 mælistig. Ein 3 skip hafa komizt suður fyrir sextugasta, og leingst burtu rak eitt þeirra í ísa til 64. mælistigs, sem er til suðurs jafnt við það, sem Ísland er til norðurs*). Á Nýársdag 1739, sem er um hásumar-tímann í suðurálfu heimsins, fanst Umskurnar-oddi, sem er á 54. mælistigi, góðum mun nær miðjarðar-línunni, enn Kaupmannahöfn, eins og sjest á hverju prentuðu almanaki. Þó var hvergi að sjá nema hafís yfir 100 álna háan, skipið var í 12 daga að leita lags, að koma báti í land, en gat eigi vegna ísa og óveðurs, sigldi það 200 vikur sjáfar með ísnum til aust-

*) Nú hafa menn fyrir fáum árum komizt allt suður að 74. mælistigi, og fundið þar land mikið, snjóþakið, með eldfjöllum. Viðbætt 1846.

urs, en fann hvergi hlið, svo það 25. dag janúarí varð að snúa aptur. Bouvet fann líka um hásumars-tímann hafís á 47°, sem svarar viðlíka lángt frá miðjarðar-línu til suðurs, eins og París á Frakklandi er til norðurs; Suður-Georgien og Sandvíksland eru nær miðjarðar-línunni enn svari 60°, og eru þó þau syðstu lönd, sem menn vita til að byggð sjeu. En þar var sumar-hitinn við 54°, 5 hita stig, og opt minna, verður það eins og hjá oss um há-vetur í hráslaga veðri; jafnaðarlega fjell þar um há-sumarið snjór og hagl, og þess á milli fraus vatnið á næturnar á skips-þilfarinu, en fjöllin þar á sumrum voru snjóþakin ofan að sjóar-flæðarmáli, og allar hafnir fullar af haf-ís. Þar á mót er það alvenja að á sumarmálum vorum er úr norðurhafinu allur ís burtu norður fyrir Ísland eður til 67. mælistigs. Norðustu löndin hafa mikinn sólarhita, af því sólin skín þar nótt og dag margar vikur og mánuði í sífellu; þaraf, en einna mest af innvortis jarðar-hita, má það koma, að Hudson hinn enski fann vel heitt við 80½ mælistig; tjaran bráðnaði á skipum enskra 21. jún 1608 við 75°, og Martens hinn hollenzki segir það sama beri opt við hjá Spitsbergen við 71°, hvað þó ei hefur annarstaðar heyrst, og ekki að við hafi borið undir sjálfri miðjarðar-línunni. Sje nú það líka aðgætt, að norðantil á Grænlandi er meiri hiti, fleiri dýr og betri hagar enn sunnantil, því það er móts við Ameríku; að á Spitsbergen og á Íslandi eru brunnar og uppsprettur, sem aldrei botnfrjósa, þar sem þó á Siberíalandi hjá Jakusk á 62. mælistigi klaki aldrei fer úr jörðu, og skipherra nokkur hollenzkur hefur sagzt fundið hafa íslaust haf við 89. mælistig til norðurs, líka eins heitt við 85. mælist. þar, eins og á Hollandi á sumardegi, þá er auðráðið, að ekki er það nóg, Sigurður minn, til að dæma hvort land

1*

nokkurt sé heitt eður kaldt, hvað lángt það liggur til suðurs eða norðurs á jarðarhnettinum. Þetta er meðal annars vel skiljanlegt af því, að veturinn hjá þeim sunnantil á jörðunni er sumar hjá oss, sem búum norðanvert á henni, og okkar vetur er þeirra sumar, en vjer erum næst sólunni á okkar vetri, þeir aptur á mót fjærst henni á sínum, er þá líka okkar sumar viku leingra enn veturinn, þar á mót er á suðurparti jarðarinnar veturinn viku leingri enn þeirra sumar. Hjer við bætist að í Norðurálfunni er þess mildara veðurlag, sem vestar er, af þeim löndum, sem jafn-norðarlega liggja; nú erum vjer Íslendíngar allra vestast í Norðurálfunni, og þar til er land vort eitt af eylöndum á hverjum vant er að vera miklu frostminna enn á fasta-landi, svo hjer eru margar röksemdir til, að á Íslandi er mildara veðuráttufar enn víða annarstaðar á jörðunni; þar með kennir reynslan þetta sama; því til dæmis: svo jeg sleppi þeim yfrið köldu suðurlöndum, semjeg áður nefndi, þá er norðast í Ameríku, eður vesturálfu heimsins, sem þó er sunnar enn vjer, stundum svo kaldt, að hversu mjög sem kindtur er ofninn, verður ei hrím þíðt á gluggum, allir veggir eru samt hjelaðir, og hrímið ofaná rúmunum verður fíngurs þykkt; gott brennuvín botnfrýs, og villudýr eður fuglar gagnfrjósa jafnskjótt sem þeir eru skotnir, geymast svo freðnir óskemmdir í fullt misseri. Þegar drukkið er af gler-staupi, verða menn þar að hafa mestu varúð, að láta ei varirnar eða túnguna koma við það, annars fylgir skinnið staupinu. Samt tekur yfir sá náttúrlegi kuldi, sem 12. jan. 1785 fannst við Hudsons-flóa, sem liggur sunnar enn Ísland, hann var 42 rimum neðan 0, það er 12 rimum meir enn þegar kvikasilfur fyrst verður að klaka. Á Grænlandi hefur það borið til, að menn hafa sett te-bolla með

sjóðandi vatni á borðið, hefur hann verið að vörmu spori lagður með ís; gler- og trje-ílát hafa af eintómu frosti sprúngið, og tunnur hafa menn orðið að slá utan af söltuðu kjöti, sem í þeim var frosið saman í kökk. Þetta eru samt byggð lönd í norðurparti heimsins; í óbyggðum löndum, t. a. m. Spitsbergen, er þó miklu kaldara, þar fúna hvorki lík nje rotna, svo að eptir 20 ár eru líkamarnir með klæðnaði, mynd og yfirlit, eins og þeir voru daginn eptir að maðurinn andaðist. Gætum þar að auki að þeim löndum, sem liggja sunnar í norðurparti heimsins enn Ísland, og þá ætti þar að vera eptir líkindum heitara enn hjá oss; samt er, þó í fyrstu ótrúlegt sýnist, í Astrakan í Austurálfunni nokkrum og 40 mælistigum, og í Pensylvanien í Ameríku einum 40 mælistigum frá miðjarðar-línunni, lángtum harðari kuldi enn á Íslandi; í Síberíalandi hljóta landsmenn að taka úr húsum glergluggana á haustin, svo þeir sprýngi ekki af frosti, en setja þar í aptur ís-stykki, sem þeir hafa í stað glugga, og ekki bráðna allan veturinn; þar verður þrettán faðma (í Noregi hefur fundizt átta faðma) djúpur klaki, og þegar heitu húsi er þar upplokið, þá er kuldinn svo bitur, að suddinn, sem jafnan er í hverju húsi nokkur, verður að snjó allt í einu, og fellur niður inní húsinu. Í Jakusk á 62. mælist., sem jeg áður hef nefnt, þiðnar ei um hásumarið leingra enn 1 alin ofan að klaka. Þar var 1685 og 1686 reynt til að grafa brunn; bæði þau sumur var með mestu fyrirhöfn verið að grafa gegnum klakann, en til einkis, því eptir að búið var að grafa 45½ al. eða 15 faðma, var samt ekki klakalaust orðið. 1772 var þar svo ógnarlegur kuldi, að kvikasilfur varð að frost-hellu, hvað annars var dæmalaust, og einginn hjelt mögulegt að skeð gæti, fyr enn árið 1760, þegar menn fyrsta sinni komu t

uppá, að gjöra slíkt með konst. Fleiri dæmi hirði jeg ei um að upptelja, en vanvitska eður óþakklæti eður hvorttveggja væri, ef vjer segðum, að meiri vetrar-harka væri hjá oss, enn öllum öðrum þjóðum, þar vjer þvert á mót höfum haft milda vetur, sem í tempruðu löndunum voru hinir hörðustu, t. a. m. 1709, 1740, 1766 og fl.

Sigurður. Jeg skal þá hjeðan af muna til þess að norðast, þó enn meir syðst á jörðunni, er kaldast, heitast á miðjunni, en vestarlega í Norðurálfunni mest temprað veðráttufar. En hvað hjálpar mjer það þó aðrir sjeu ver farnir enn jeg? er hjer samt ekki mikill kuldi á Íslandi, snjór og stormar? jeg skil ekki að neitt gott standi af þeim, en það þykist jeg vita, að þó mikill hiti sje kannske eins skaðlegur og kuldinn, að makinda-veðrátta með blíðviðri væri samt bezt.

Prestur. Jeg verð fyrst að svara því, sem þú fyrst spurðir, nefnilega: hvert ei sjeu hjer á Íslandi miklir kuldar, snjór og stormar, get jeg því ei svarað nema með að bera það saman við annara nálægra landa veðráttufar, verð jeg þá líka áður að upplýsa spurnínguna nokkuð. Þegar jeg tala um veðráttufar Íslands að þessu sinni, þá meina jeg suðurland, sem við báðir þekkjum, en hinna fjórðúnganna veðurlag þekki jeg ekki, þó jeg hafi stór líkindi til, og nokkra sögusögn um, að víða í austfirðínga fjórðúngi sje veðursælt. Þar að auki eru einstöku sveitir einskyns óveðráttu, vegna sjerlegrar afstöðu, undirorpnar t. a. m. að sterkviðri koma stundum á Kjalarnesi, á Hvalfjarðarströnd eður í Leirársveit, sumir dalir og afdrep eru eins og fannkista, o. fl., en hjer verð jeg að skilja spurnínguna um það, sem almennast er hjer í byggð, og þá segi jeg hjer sje ei illviðrasamt, hvað jeg get sannað með uppskriptum á veðr-

áttu, sem hjer á Íslandi hefur verið samanborin við önnur norðurálfunnar lönd. En það þú sagðist ei skilja, að neitt gott standi af kulda, snjó eður stormi, lái jeg þjer eigi, því einatt veitir bágt að sjá hvaða gagn það gjörir, sem í fyrstu er skaðvænlegt, og á lángan tíma í að sýna hvað gott það eptirá verkar. Jeg skal þá á morgun að eins nefna eitt eður annað gagn, sem hvert af þessu fyrnefndu færir með sjer, því jeg vil ekki gjöra þjer leiðindi með, að vera oflángorður í einu. En til að fá ykkur öllum nokkuð umhugsunar efni þángað til, ber jeg upp þessar

## II. GÁTUR:

1) Jeg dreg yfir mig skýlu, svo að sem fæstir þekki mig; ef þú þekkir mig ekki, þá þykir þjer miður, en þekktir þú mig strax, þá þætti þjer ekkert til mín koma.

2) Hversu lítils, sem þú virðir mig, svo vernda jeg þó þann bezta part af þjer; samt lætur þú fyrir höfðíngjunum eins og jeg sje þjer til einkis gagns, og kastar mjer stundum út í horn.

3) Frá móðurlifi kom jeg höfuðlaus og fótavani, fjell jeg þannig mörgum vel. Með höfði og fótum er jeg líka góður maga þínum, en þá verður þú að bíða og hafa meira fyrir.

## III. Á MISJÖFNU ÞRÍFAST BÖRNIN BEZT.

Jeg hætti þar við í gærkvöldi, sem þjer, Sigurður minn, sýndist, að sífeld makinda-veðrátta mundi vera bezt, en kuldi, snjór og stormar væru til eintóms böls og mæðu. Eitt af því, sem guð hefur af mildi sinni og speki gefið mönnunum er, að þeirra yndi eru umskipti og tilbreytíng á hlutunum; án þeirra væru sífeld leiðindi og deyfð hjá þeim. Þessum tilbreytíngum hefur guð þar að auk svo dá-

samlega hagað, að þær sjaldan koma allt í einu og undirbúníngslaust, heldur svo að tala fjara smásaman út, og falla að, hvar af umbreytíngin verður hvorttveggja þægileg og óskaðnæm. Skáldin, sem diktað hafa um Gyllini-aldurinn og sagt, að þá hafi verið sífeldur hlýr vestanblær, stöðugt vor og ævarandi blómstur, hafa ekki rjett þekkt eðli mannsins. Einginn veit hvað hiti eða hlýindi eru, nema hann geti samanborið þau við kulda, og það er eigi lítil ánægja, að fá stundum línun og hressíngu með náttúrlegum hita eptir nokkurn kulda. Sífeldt blíðviðri gjörir hvern einn limpíulegan, dáðlausan til alls og tilfinníngarlítinn, en þeir menn sem svo eru, geta hvorki ánægðir verið nje nokkurt fjör haft, eða fellt sig við annara samkvæmi, þeir þurfa eitthvað skarpt til að vakna og rakna við af, og þar á vetrarkuldinn bezt við. Allteins og vetrartíðin er hentugust til lærdóms og umhugsana, sem allir játa, svo er hún það líka til innan-húss vinnu. Það þarf jeg ekki þjer að segja, Sigurður minn, því þú ert sjálfur smiður, sem hefur reynt það, en ef þú efaðist um það, mundi jeg vísa þjer til kvennfólksins, að spyrja það, hvenær á árinu því geingur bezt á vinnu sína í sessi. Jeg hef svo drepið á, að sífeldt blíðviðri mundi spilla ánægju, tilfinníngarsemi, fjöri, athygli og iðni manna, en það tæki yfir, að einginn gæti með því náð kröptum, haft heilsu eða lifað helmíng eðlislegrar æfi sinnar. Að kraptarnir vaxi við kulda, er almenn meiníng. Eins og kaldara er til fjalla enn til sjáfar, svo eru og margir þeir, sem á hálendi uppalast sterkari enn hinir, sem eiga heima á láglendi. Norðmenn höfðu í Kaupmannahöfn í minni tíð, almennt orð fyrir að vera sterkari enn Danir, og Íslendíngar voru þar álitnir eins og Norðmenn, svo sem sýslumaðurinn í Dalasýslu Sigurður Vigfússon

var, meðan hann þar dvaldi, almennt kallaður hinn sterki Íslendíngur, og einkum naut þeirra burða að hjá prófessore *Dr.* Hans Bartholin. Sveizerskir eru á Frakklandi og Vallandi vegna hraustleika nafntogaðir, enda eiga þeir heima á köldu hálendi. Fjallaskottar, eður hálendismenn á Skotlandi eru ennfremur þessu til sönnunar ef þess viðþyrfti. Í sífeldu blíðviðri yrði loptið fullt af fúa dömpum, því grös, jurtir, dýra-andi, kjöt, fiskar og vatn rotnar við hita, en gufan af því blandast við loptið, sem menn eiga að lifa í, og draga með andardrættinum í sig. Til að sýna mismun á ils og frosts verkunum í þessu, þarf ei annað enn á vetrardag leggja kjötstykki í baðstofu eða fjós, en annað eins í hjall; að þriggja daga fresti er það, sem við ilinn var, orðið úldið og rotið með slæmri lykt og óhollri gufu, en hitt skemmist aldrei, meðan það náir í kulda að vera. Nú ollir fúagufan í loptinu brjóstveiki, hún blandast saman við blóðið, skemmir það, og veldur margskyns næmum sóttum. Þaraf kemur líka, að þeir, sem köldu hreinu lopti venjast, eru bragðbetri enn aðrir. Í kulda smakkar matur og meltist betur enn í molluveðri, sú er meðfram orsökin, að fólk þarf meira til viðurværis í köldum löndum enn heitum. Og loksins vil jeg geta þess, að kuldi hreinsar loptið, svo aldrei hefur drepsótt komið upp í köldu landi, en þar á mót er þess vís von í heitu löndunum, að drepsóttin hættir þar, þegar kulda gjörir, og almenn reynsla kennir, að í hreinni kulda veðráttu gánga minnstar og fæstar sóttir. Lánglífi er almennast í köldum löndum, einkum fjallbyggðum þeirra. Í heitum, jafnvel ei nema tempruðum löndum, eldist fólk mjög snemma, svo þar er útlit margra, sem ei eru fertugir eins ellilegt, og almennt hjá oss er um sextugs

aldur og þar yfir. Jeg veit varla neitt, sem sannar betur hvað jeg nú hef sagt, enn það, sem *Dr.* Ackèrmann skrifar um jöklamenn í Sveiz: „allir,“ segir hann, „sem ferðast hafa yfir fjöllin þar, hafa full-„komna orsök til að dáðst að þeirra, sem þar búa, „stærð, þreki, rjetta vaxtarlagi, glaðsinni, stóru sál-„arkröptum, gæflyndi og óskemmda hjartaþeli, hvað „eð ætíð fylgir heilbrygði líkamans, en því neðar, „sem menn koma niður úr hlíðunum, því meir minka „bæði sálar og líkamans kraptar, svo herra Saus-„sure heldur, að þegar útlit og skapnaður einhvers „þaðan sjáist, sje hægt að segja, hvað hátt eða lágt „hann eigi heima í sömu fjallbyggð. Allir, sem „búa þar í djúpustu dölunum, eru auðþekktir af ein-„hverjum líkamans vanskapnaði, ófríðleika andlitis-„ins, skelfilegu dáðleysi og þýngslum í líkamanum, „með sljófustu sálarkröptum. Þar að auki eru nokkr-„ir undarlega vanskapaðir og ófríðir, með skekkju í „líkamanum, aðrir með umsnúnum augnalokum, stór-„um æxlum á hálsinum og þesskáttar; samt eru „eingir svo ílla vaxnir og aumlega farnir, eins og „þeir er þar kallast Kretínar, og eru þannig í hátt: „andlits liturinn er viðbjóðslegur, svo grátt, blátt og „eyrlitur hjálpast allt til að gjöra andlitið, sem allra „ljótast. Undir augunum eru stórir og þúngir pokar, „sem hánga niður, og draga neðra augnalokið svo „frá auganu, að allt það rauða innaní er bert. Þess-„ir vesælíngar eru svo vanfærir, að þeir naumast „geta dregið sig, sitja þess vegna dögum saman, „eins og líflausir drumbar, fyrir utan bæardyr sínar, „og hugsa ekki eptir að hræra sig þaðan á kvöldin, „ef náúngar þeirra minntu þá ei á það, og drægu „þá inn. Allir aðrir, sem eiga heima neðst í jökla-„dölunum í Sveiz, eru að sönnu dáðlitlir og sljóf-„ir, en hjá þessum Kretínum finnst ekki spor til, að

„þeir hugsi neitt, það sýnist ekki eins og minni eða „greind förlist þeim, heldur að það sje orðið að „eingu. Skelfilegt æxli á hálsinum, sem nær ofan á „miðja bríngu, tekur þar að auk allt manneskju út„lit frá þeim. Tilfinníngarleysið er svo mikið, að þá „einn þeirra var eptir andlátið krufinn, hafði enda„görnin fundist skelfilega víð og útþanin af saurind„unum, því það hafði orðið hans dauðamein, að hann „hafði setið leingi, án þess að leita sjer hægða. Nátt„úrlegur hiti er hjá þessum vesælíngum lítill, og „blóðshræríngin sein, er kemur af sífeldum hita, sem „þeir eru í, og þola meir enn aðrir. Neðst í dölun„um, þar sem þessir vesælíngar eru, er ógnarlegur hiti, „með mikilli vatnsgufu, sem ekki hreinsast burt af „stormum, þar fjöll halda að á allar hliðar, sitja svo „Kretínar allan daginn á steini fyrir utan bæar„dyr sínar í brennandi sólskininu, góna og gapa „skakkir uppí sólina, Ekkert túngumál kunna þeir, „því þeir hugsa svo lítið, að þeir þurfa þess ekki „með, en í stað orða brúka þeir sín á milli holgóma „dymma rödd, sem þeir tala ofaní sig. Þessir eru „neðst í dölunum, þar sem loptið er af hita og vind„leysu óhreinast, en eptir því, sem leingra kemur „upp í hlíðarnar og hálendið, verður loptið smám„saman svalara og hreinna, en mennirnir fríðari og „skarpari. Orsökin er, að í fjallahlíðunum er loptið „kaldara, ljettara, og þar er stormasamt, en í djúp„um dölum er það heitt, þjett, þúngt og gufumagn„að.“ Þegar jeg nú þannig eigna kuldanum heilsusamlegar verkanir, þá bið jeg þig svo að skilja það, að hann kann ei einnsaman heldur að vera þess orsök, enn hreint lopt, mátuleg vinna, og holl fæða hvert fyrir sig einsömul eru það, því ekkert af þessu útaf fyrir sig getur heilsunni viðhaldið, þó það sje með öðru samverkandi og gott. Líka er í þessu, sem öllu

öðru, að hvorki van nje of fær gott lof. Svo sem sífeldt blíðviðri eður stillt lopt er skaðlegt, svo ekki síður sífeldur hiti eður óaflátanlegur kuldi. Þetta, sem nú hef jeg talað, er manninum sjálfum viðvíkjandi, en sama er á blaðinu, þegar aðrar skepnur eiga í hlut, að þeim hagar ei heldur ævarandi blíðviðri. Dæmisagan er alkunnug um bóndann, sem hjá himnaguðinum Júpíter fekk að ráða veðrinu á sinni landareign, en að ári liðnu hafði miklu minna úr bítum borið enn nágrannar hans, sem reynt höfðu súrt og sætt, vetrar harðindi og annað, svo bóndinn varð að biðja Júpíter, að taka aptur við stjórninni á veðurlaginu, ef bóndinn ætti ei aldeilis að flosna upp. Jörðin þarf hvíldar við, allt eins og lifandi skepnurnar svefns. Í Valencia á Spáni er ekki nafntogaður megn hiti, en jafnviðri er þar mikið og lítið vetrarríki. Þar má sumstaðar slá hey áttasinnum á ári, og optar, svo er þar fljótsprottið, en aptur er allt kraptalítið, sem þar vex, hvar af komið hefur máltækið: „Í Valencia er kjötið gras, og grasið vatn, „kallmennirnir kvennfólk, en kvennfólkið ekkert“*). Og hvað þarf svo lángt að fara? við vitum sjálfir, að eptir frostleysu vetur, og þá snjór hefur skamma stund á jörðu legið, vex næsta sumar kjarnlítið gras, sem hvorki gefur mikinn kost eður smjör um sumarið, nje kraptagott fóður um veturinn. Þar á mót eru opt vetrar-ríkis jarðir, helzt fjallahlíðir, sem vita til norðurs, bestu landkosta og sumar-haggaungu jarðir. Fleira að tala um nytsemi af kulda og stormum, verður að bíða þángað til einhverntíma seinna.

*) Þetta hefur skáld eitt þannig sett í hendíngar:

Kjöt í Valenz greinist gras,
grasið líkt sem vatnið eitt;
kallar hafa konu fas,
kvennfólkið er ekki neitt.

## IV. FYRRI GÁTURNAR ÞÝÐA:
1). Gátu. 2). Húfu 3.) Egg.

## AÐRAR GÁTUR.

4) Við erum dæmdir til að standa dag og nótt til þjenustu, en aldrei að meiga sitja eða leggjast fyrir, og ef við eigum að fara úr stað, þá þarf tvo fætur, fyrir utan okkar fjóra til þess við getum geingið.

5) Við systkinin erum mjög ólík, jeg er bjartleitur, en hún systir mín er dökk á brún og brá. Hún ætíð kaldari, en jeg heitari. Hvert okkar flýr fyrir öðru, svo jeg fylgi henni, en hún elltir mig, þess vegna erum við aldrei bæði undir eins undir sama þaki.

6) Jafnvel konúngarnir ljá mjer eyru sín, en undarlegast er, að eingin öfundar mig samt.

## V. ALLT VERÐUR ÞEIM TIL GÓÐS, SEM GUÐ ELSKA.

Forðum var höfðíngs kona nokkur, sem átti 2 dætur, hjet sú eldri Rósa, dáfríð og sæmilega lunderni góð, en hin ýngri Ástríður, sem var allteins fríð og systir hennar, en íllskufull, svo hún brúkaði skarpleikann til einkis annars, enn að koma fram vondsku sinni. Móðirin hafði verið fríðleiks kvennmaður, en þá var hún farin nokkuð að eldast, þegar hèr var komið sögunni, hvað henni fjell mikið illa. Rósa var þá 16 vetra en Ástríður 12 ára gömul, hvers vegna móðirin var hrædd um, að hún sjálf mundi verða haldin öldruð, fór þessvegna burt úr því landi, hvar hún vissi að hvert mannsbarnið þekkti sig, en sendi eldri dóttur sína í fjarska frá sèr, svo að eingin skyldi vita, að hún ætti svo gamla dótt-

ur. Ýngri dóttur sinni hjelt hún að sönnu hjá sjer, en sagði hún væri ei eldri enn 10 vetra, og sagðist hafa átt hana áður hún hefði verið fullra 15 ára. Svo að þessi ósannindi aldrei skyldu uppkomast, hafði hún eins og fyr var getið sendt hana Rósu í fjarlægt land, og lagt svo undir við fylgdarmann hennar, að hann skyldi skilja hana eptir í mjög stórum skógi, meðan hún svæfi, og væri þar að hvíla sig. Þegar Rósa vaknaði, og varð vör við, að hún var alein í skóginum, fór hún að gráta, var þá mjög liðið af degi, hún fór samt af stað, og ætlaði að bera sig að komast útúr skóginum, en það var henni ei til annars, enn að hún villtist því leingra inní hann. Seinast sá hún ljós, og gekk eptir því, þar til fyrir henni varð hús eitt lítið; Rósa barði að dyrum, kom þar út bóndakona nokkur, sem spurði hana, hvaða erinda hún færi. Heillin mín góð! svaraði Rósa henni, jeg bið yður í guðs nafni, að lofa mjer að vera hjer í nótt, því ef jeg ætti að vera úti í skóginum, þá eta villudýrin mig upp. Þjer er velkomið að vera dóttir sæl, svaraði bóndakonan, en segðu mjer hvernig þú ert svo seint á ferð í þessum skógi. Rósa sagði henni þá alla söguna svo sem hún var, og sagði: er jeg ekki ílla farin, sem á svo harðhjartaða móður? og væri ei betra jeg hefði dáið strax og jeg kom í heiminn, heldur enn að lifa til þess, að láta fara svo ílla með mig? hvað hef jeg barnúnginn minn, til þess unnið af góðum guði, að hann lætur mig rata í svo stóra ógæfu? Elskubarn mitt! svaraði bóndakonan: aldrei má mögla móti guði, hann er almáttugur, hann er alvís, hann elskar þig, og þú átt að fulltreysta því, að hann því að eins hefur leyft, að þú skyldir verða fyrir þessu óláni, að hann veit að þjer er það fyrir beztu; treystú honum og haf það sífeldlega þjer í huga, að

guð verndar þá hina góðu, svo hvað helzt mótdrægt, sem þeim að höndum ber, er eingin mæða; vertú hjerna hjá mjer; jeg skal vera þjer í móðurstað, og elska þig eins og þú værir dóttir mín. Rósa tók þessu með þökkum, og daginn eptir sagði bóndakonan við hana: jeg er hrædd um þjer muni leiðast dóttir góð! taktú snældu og farðú að spinna, til að hafa af fyrir þjer. Móðir mín! svaraði Rósa, jeg er ríkra manna og af háum ættum, þessvegna kann jeg ekki að vinna. Taktú þá bók elskan mín, svaraði bóndakonan. Jeg er ekki mikið fyrir að lesa svaraði Rósa, og roðnaði við, en það kom af því, að hún skammaðist sín að játa, að hún var ekki vel læs. Samt varð hún að gánga til samleíksins viðurkenníngar, og sagði bóndakonunni, að hún aldrei hefði viljað læra neitt gott, meðan hún var úng, en hefði aldrei haft tíma til þess eptir það hún elltist. Þú hefur þá haft mikið að gjöra? sagði bóndakonan. Ójá! móðir mín, svaraði Rósa. Framan af deginum fór jeg að finna vinur mínar, eptir máltíð var jeg að búa mig, en á kvöldin og næturnar var jeg hjá gleðileikum, hljóðfæraslætti eða var í dansi. Nú, satt er það, svaraði bóndakonan, mikið hefur þú haft að gjöra og það er jeg viss um, að ekki hefur þjer leiðst. Þar verð jeg að segja nei til, móðir mín góð! svaraði Rósa, því ef jeg var einsömul svo leingi, sem hálfan matmálstíma, sem endur og sinnum bar til, svo vissi jeg ei hvað jeg átti af mjer að gjöra af leiðindum, en þá jeg var úti á landsbygðinni, var samt enn verra, jeg gat þá ei verið annað að gjöra enn búa mig, og taka af mjer aptur, til að hafa af fyrir mjer. Mjer skilst þá þú hafir ekki verið lukkuleg eða ánægð á landsbygðinni? svaraði bóndakonan; jeg var ei betur farin í kaupstaðnum, svaraði Rósa; þegar jeg spilaði, þá

tapaði jeg peníngum mínum; þegar jeg var í samkvæmum, þá var ein eður önnur af stallsystrum mínum betur búin enn jeg, og það sveið mjer sárra enn frá megi segja; þegar jeg fór til dansleika, var jeg að bera mig að finna að einhverju á þeim, sem dönsuðu betur enn jeg; í einu orði: sá dagur kom aldrei yfir mig, að eitthvað væri mjer ekki mótsnúið. Möglaðu þá ekki, sagði bóndakonan, yfir guðs forsjón, sem hefur leiðt þig í þenna afkima. Hún hefur ei þar með gjört annað enn leyst þig frá mæðu, og gefið þjer aptur ánægju. Þó er ei þar með búið: þegar stundir hefðu liðið fram, hefðir þú orðið enn vesælli, því æskan tekur líka einhverntíma enda. Þeir sem eldast, en vilja þó sífeldlega vera í samkvæmum og trana sjer fram, verða að spotti hjá hinum úngu, geta þá ei leingur dansað, þora ekki að halda sjer til í státsi, geta þess vegna ei á sjer tekið fyrir leiðindum, eira eingu og eru mjög vesælir. En, móðir mín góð? svaraði Rósa: einginn getur þó verið aleinn; manni mætti finnast hver dagur eins lángur og ár, þegar hann hefði eingan hjá sjer. Ekki er því svo varið, elskan mín! svaraði bóndakonan. Jeg er hjer alein, og mjer sýnist hvert ár eins stutt, eins og það væri einn dagur. Ef þú villt, þá skal jeg kenna þjer þá mennt, að þjer skal aldrei leiðast. Það vil jeg feigin, sagði Rósa, þjer megið stjórna mjer, sem þjer viljið, jeg skal hlýða yður. Bóndakonan nýtti sjer þessa viljasemi Rósu, og skrifaði uppá blað allt það, sem hún átti að gjöra. Öllum degiñum var skipt í vissa parta, til bæna, lesturs, vinnu og hvíldar. Þar var ekkert sigurverk í kotinu, svo Rósa vissi ei hvað tímanum leið, en bóndakonan vissi af sólunni hvað framorðið var. Hún kallaði að fara að borða. Þjer borðið snemma, móðir mín! svaraði hún. Það er þó góð

stund af miðmunda, sagði bóndakonan, og brosti við, og við fórum á fætur fyrir miðjanmorgun; en, dóttir mín góð! tíminn líður fljótt þegar eitthvað er verið þarft að vinna, og þá leiðist manni aldrei. Rósu þótti nú vænt um, að hún fann ekkert til leiðindanna, og lagði sig alla eptir að lesa og vinna, varð hún af því þúsundsinnum sælli enn hún hafði verið í kaupstaðnum. Nú sje jeg, sagði hún við bóndakonuna, að guð gjörir allt oss til hins bezta. Hefði hún móðir mín ekki verið hörð og vond við mig, þá hefði jeg alið allan minn aldur í kunnáttuleysi; ofmetnaður, yðjuleysi og eptirsókn að sýnast góð, þó ekki væri jeg það, hefðu gjört mig vonda, og steypt mjer í ólukku. Rósa hafði verið eitt ár hjá bóndakonunni, þegar bróðir konúngsins í því landi var að dýraveiðum nálægt kotinu, sem hún var í; hann hjet Ásmundur, og var einn hinn bezti konúngsson, sem verða kunni, en konúngurinn bróðir hans, sem hjet Ráðúlfur, var honum næsta ólíkur, því hann gjörði sjer að skemtan að svíkja nágrannana en kúga þegna sína. Ásmundur kom þar að, sem Rósa var, sá að hún var hin fríðasta sýnum, og hóf bónorð sitt til hennar. Rósu fjell hann vel í geð, en hún vissi að hver ein skynsöm og kurteys stúlka á ekki að gefa gaum að þeim karlmönnum, sem byrja slíkt tal. Herra góður! sagði hún við Ásmund: ef það er alhugamál yðar, sem þjer talið, þá farið til hennar móður minnar, sem á heima þarna í kotinu; ef hún vill að þjer verðið maðurinn minn, þá skal það ekki vera mjer á móti, hún er svo skynsöm og greind, að jeg ætíð skal hlýða henni. Stúlkan mín fríða! svaraði Ásmundur, jeg skal feginn fara til hennar, og biðja hana að gipta yður mjer, en jeg vil ekki eiga yður móti yðar vilja. Ef hún samþykkir, að þjer verðið konan mín, þá kannske

að yður þætti það illa fara, en jeg vil heldur deyja enn gjöra yður mæðu. Sá karlmaður, sem hugsar svo, sagði Rósa, er dygðugur, en eingin stúlka er ólánssöm með dygðugum manni. Ásmundur skildi þá við hana og fór til bóndakonunnar, sem þekkti hans dygðageð, gaf því glaðlega sitt samþykki til hjónabandsins. Hann lofaði að koma aptur að þriggja daga fresti, og finna þær báðar, fór svo burt vel ánægður, eptir að hann hafði gefið Rósu sinni fingurgull til trygðapants. Meðan á þessu stóð, lángaði Rósu til að komast sem fyrst heim aptur til kotsins; henni hafði sýnst Ásmundur elskuverður, og var hrædd um að sú, sem hún nú kallaði móður sína, mundi kannske hafa vikið honum á bug. En bóndakonan svaraði henni: það er ekki af því að Ásmundur er konúngs son að jeg samþykkti hjónaband ykkar, heldur af því hann er í raun og veru mesta góðmenni. Rósa beið með nokkurskonar óþolinmæði eptir því að elskhugi sinn konúngssonurinn kæmi aptur, en daginn eptir, þá hún var skammt eitt frá kotinu á ferð heim, datt hún fram á þyrnirunna, svo að allt andlit hennar krassaðist í sundur; hún hljóp strax að lækjarpolli, sem var þar nærri, og varð hrædd þá hún sá, að blóðið lagaði alstaðar úr andlitinu. Er jeg ekki óláns skepna, sagði hún við bóndakonuna, í því hún gekk inní kotið? hann Ásmundur minn kemur híngað á morgun, og þá elskar hann mig ekki leingur, þegar hann sjer hvað afskræmisleg jeg er orðin. Bóndakonan brosti við, og sagði: þar eð góður guð hefur leyft, að þú skyldir detta svo skaðsamlega, þá hefur hann sjeð, að það mundi verða þjer til bezta, því þú veitst að hann elskar þig, og hann veit betur enn þú hvað þjer bezt hentar. Rósa þekkti þá sína ávirðíngu að mögla móti guðs forsjón; og ef hann Ásmundur

minn vill ekki eiga mig, sagði hún, vegna þess jeg er orðin ófríðari enn jeg var, þá er auðsjeð að jeg ekki hefði orðið lukkuleg með honum. Bóndakonan þvoði upp andlit hennar, og dró út marga þyrnibrodda, sem höfðu stúngizt inní það. Morguninn eptir var Rósa hryllileg orðin ásýndar, því allt andlitið var stokkbólgið, svo ekki sást nema í augun.

Jafn nærri báðum hádegi og dagmálum heyrðu menn að ekið var vagni að kotdyrunum, en í staðinn fyrir Ásmund konúngs son, stje úr vagninum sjálfur Ráðúlfur konúngur. Einn af hirðmönnum hans, sem verið hafði að dýraveiðum með konúngssyni hafði sagt konúngi frá að bróðir hans hefði þar fundið þá fríðustu stúlku, sem verða mætti, og ætlaði að eiga hana. Þú hefur verið furðu djarfur að ætla þjer að giptast án míns leyfis, sagði Ráðúlfur konúngur við bróður sinn, en þjer til refsíngar vil jeg sjálfur eiga þessa stúlku, ef hún er eins fríð og af henni er sagt. Þegar Ráðúlfur konúngur kom í kotið spurði hann bóndakonuna hvar dóttir hennar væri? þarna er hún, sagði bóndakonan, og bendti til hennar Rósu Hvað? afskræmið þetta? svaraði konúngur. Eða áttú ei aðra dóttur, sem hann bróðir minn gaf fíngurgullið? hjerna er það á fíngri mínum svaraði Rósa Þegar konúngurinn heyrði það, skelldi hann uppyfir sig af hlátri, og sagði: aldrei hugsaði jeg, að hann bróðir minn mundi vera slík hjáræna, en það fer vel, að jeg get nú straffað hann. Strax skipaði hann bóndakonunni, að breiða skýlu yfir andlit hennar Rósu, ljet undir eins sækja Ásmund bróður sinn, og sagði til hans: bróðir minn! þareð þú elskar þá dáfríðu Rósu, svo er minn vilji, að þú eigir hana nú þegar í stað. Jeg vil eingan mann svíkja, sagði hún Rósa, og í því sama reif af sjer skýluna. Skoðaðu andlitið á mjer Ásmundur minn; jeg er orð

in afskræmisleg síðan í fyrradag, villtu enn nú eiga mig? þú ert fyrir mínum augum enn þá elskuverðari en nokkurntíma áður, svaraði konúngssonurinn, því nú þekkti jeg, að þú ert miklu dygðauðugri enn jeg gat eptirvænt, og í því sama rjetti hann að henni höndina, en Ráðúlfur konúngur hló, sem mest hann gat að þessu. Hann skipaði þá að gefa þau saman í hjónaband á sama augabragði, þar eptir sagði hann við Ásmund bróður sinn: vegna þess mjer er ekki mikið um skrímsli, svo vertu hjerna kyr í kotinu hjá konu þinni, jeg banna þjer, að láta hana nokkurntíma koma til hirðar minnar, og í því sama vetfángi stje hann í vagn sinn, en skildi Ásmund eptir yfrið glaðan yfir sínum kosti. Hana nú! sagði bóndakonan við hana Rósu: þykist þú nú ólukkuleg af því þú dattst? hefði það ekki viljað til þá hefði konúngurinn feingið elsku til þín, og ef þú hefðir ei viljað eiga hann, þá hefði hann látið aflífa hann Ásmund þinn. Þjer segið satt, svaraði Rósa, en samt er jeg nú orðin svo ljót, að öllum má ofbjóða að horfa á mig, og jeg er hrædd um að maðurinn minn muni iðrast eptir að hann átti mig. Nei þar er lángt frá, svaraði Ásmundur henni, hægt er að venjast við að sjá ófríða ásjónu en aldrei getur neinn vanið sig á, að búa við vondt lunderni. Mjer þykir vænt um þetta yðar sinnislag, svaraði bóndakonan, en hún Rósa getur feingið fríðleikann sinn aptur, jeg á þau smyrsli, sem að fullu lækna andlit hennar, það varð líka orð og að sönnu, því innan þriggja daga varð andlit hennar eins og það hafði áður verið. Eptir þetta beiddi Ásmundur konúngsson hana samt að brúka skýluna, því hann var annars hræddur um, að sinn vondskufulli bróðir kynni að nema hana burt, ef hann sæi hana huldulausa. Á meðan þessu fór fram, sendi

Ráðúlfur konúngur í allar áttir, að leita upp handa sjer einhverja hina fríðustu mey til konfángs, varð fyrir því Ástríður systir hennar Rósu, svo hún varð drottníng. Rósa varð mjög kvíðandi þá hún frjetti það, því hún vissi hvað vond systir hennar var, og það að hún hataði sig af öllu hjarta. Að ári liðnu átti Rósa son, sem kallaður var Dagbjartur, og hún unni honum mikið. Strax sem hann fjekk málið, var hann skýr og efnilegur, svo foreldrar hans elskuðu hann umfram allt. Einusinni þá hann var með móður sinni úti hjá bæarveggnum, sofnaði hún, en þegar hún vaknaði, fann hún hvergi son sinn. Hún hljóðaði og fór um allan skóginn að leita að honum, en fann hann hvergi. Hvað sem bóndakonan sagði, til að minna hana á, að allt hvað skeður sje oss til bezta, tjáði ekkert, hún gat með eingu móti huggað hana. En daginn eptir varð hún að viðurkenna að bóndakonan hefði sagt satt. Ráðúlfur konúngur og kona hans þoldu ei við af íllmennsku, að þeim sjálfum varð ei barna auðið, sendu því stríðsmenn út að myrða þenna bróðurson sinn, en þá þessir sáu að barnið fannst hvergi, tóku þeir Ásmund, konu hans og bóndakonuna, ljetu þau öll útá áralausan bát, og hrundu honum síðan útá sjó, svo að einginn skyldi nokkurntíma frjetta, hvað af þeim hefði orðið. Í þetta sinn hjelt Rósa, að nú mætti hún óhikað kalla sig og álíta ólukkulega, en bóndakonan var sífeldlega að minna hana á, að allt hvað guð gjörir sje hið bezta. Vegna þess að þá geingu góðviðri, rak bátinn hægt og hægt í þrjá daga, þar til hann bar að borg einni, sem lá nálægt sjó. Konúngurinn í því landi átti í miklu stríði við útlendan her, sem sat um borgina. Ásmundur var kappi hraustur, og bað konúng fá sjer lið í hendur; það fjekk hann, gjörði með því margt áhlaup óvinunum,

og gat loksins að velli lagt foríngja þeirra. Þegar þessi her var orðinn forustulaus, flúði hann, en konúngur borgarinnar, sem var barnlaus, launaði Ásmundi hans trúa þjónustu, með því að taka hann sjer í sonar stað. Fjórum árum þareptir frjettist að Ráðúlfur var dáinn af hugarángri yfir því, að hafa átt svo vonda konu, sem Ástríður var, en líðurinn, sem hataði hana vegna hennar íllmennsku, rak hana með smán úr landi, og gjörði sendimenn á fund Ásmundar til að bjóða honum ríkið. Hann stje á skip með konu sinni og bóndakonunni, en í stormi og óveðri hraktist skipið afvega, og braut í spón við eyðihólma nokkurn. Rósa var nú orðin reynd og greind af öllu því, sem við hana hafði framkomið, henni mætti þá ekkert mótlæti, sem á hana beit, því hugsaði hún: að guð mundi hafa leyft skipbrot þetta sjer og manni sínum til bezta. Þau settu upp háfa staung á einn hól, og þar uppá traf bóndakonunnar, til að gefa þarmeð vísbendingu þeim skipum, sem framhjá sigldu, að koma þeim til hjálpar. Mót aptni kom til þeirra kona, sem bar barn, en strax sem Rósa sá það, þekkti hún þar Dagbjart son sinn. Hún spurði konuna: hvernig hún hefði komizt að þessu barni? hún svaraði, að maður sinn hefði verið víkíngur, og feingið barnið að herfángi, en nú hefði hann fyrir skömmu drukknað af skipbroti hjer við eyjuna, og einginn hefði þar lífs af komizt, nema hún og barn þetta, sem hún hefði haft í fánginu. Tveimur dögum seinna komu að eyjunni skip þau, sem send vóru að leita eptir líkum þeirra Ásmundar og Rósu, því allir töldu víst, að þau hefðu drukknað í storminum; þeir sáu staungina með hvítu ljerepti á, lögðu því til eyjarinnar, að vita hverju það gegndi, þar fundu þeir konúng sinn með drottníngu og syni, og fluttu þau öll með mesta fagnaði

heim í ríki sitt. — Hvað sem Rósu síðan bar til handa, möglaði hún aldrei, því hún vissi af reynslunni, að það, sem sýnist vera ógæfa, er opt og tíðum orsök til vorrar gæfu.

## VI. ÝMISLEG SANNMÆLI.

I. Gamlir menn sem ætíð eru að lofa fyrri tímana, bera sig að sömu, að telja okkur trú um, að einginn hafi verið heimskur í þeirra tíð, en til allrar ógæfu, lifa þeir hinir sömu enn til að sýna það, sem er þvert á móti.

II. Þeir eiga síst skilið að fá bón sína, sem biðja jarganlegast, og um mest.

III. Skarpleiki er það nafn, er margir bræður eiga, sem þó eru ólíkir að lunderni og háttalagi. Greindar-kraptur og hugar-ímyndun giptust saman og áttu fjölda barna, sem lýktust ýmist meir föður eða móður, og þó báðum nokkuð; þaraf urðu systkynin svo ólík sín á milli.

IV. Heimskum verður að halda til góða, þó þeir tali nokkra heimsku; því það væri hart, að lofa þeim aldrei að tala eitt orð.

V. Það er ætíð óráðlegt, að láta mikið yfir sjer. Sá sem er lítill á lopti, lifir rósömu lífi; en grobbarinn þar á móti verður sífeldlega að sitja á sjálfum sjer, til að sýnast vera öðruvísi og annar, enn hann raunar er. Sjeum vjer fróðir, lærðir, fjölhæfir, þá sjá aðrir það bezt, ef vjer látum lítið yfir sjálfum oss; allteins dylst það þannig bezt, ef vjer höfum skort á skarpleika og lærdómi, því eins og blygðan getur stundum komið því til leiðar, að skækja sje álitin skírlíf stúlka, eins getur lítillæti á stundum sett þann lit á heimskíngja, eins og væri hann velgáfaður maður.

VI. Steinar í vatnsföllum sljettast og verða hnöttóttir, eins verða menn vel-siðaðir af umgeingni við aðra.

VII. Margir eiga hægra með að áfella vin, enn afsaka óvin.

VIII. Ekki tjáir að spyrja mennina hvað þeir hugsi um sitt eigið ástand, því vjer þorum ei að skoða vort eigið hjarta; vjer eigum ei von á fallegri sjón i því, og þar fyrir forðumst vjer að skoða það. Alla eptirgrenslan brúkum vjer til að gæta að annara högum, og finna þeirra bresti; þar fyrir er bakmælgi og frjettaburður svo algeing.

IX. Góð bók og góð kona lagfæra margan brest; slæm bók og slæm kona skemma margt gott hjartalag. Margir gæta ekki að öðru á báðum þeim, en hvernig þær eru utan. Fer þeim þá að kvarta yfir hvernig hið innra seinna reynist?

## VII. DÆMI-SÖGUR.

### 1). *Farsælt er frómlyndið.*

Fátæklíngur nokkur var að fella trje í skógi á árbakka, þegar öxin hraut úr hendi honum af vanvara útí ána. Hann sá að velferð sín var þar burtu, fór því sárlega að gráta og vola. Merkúríus, sem þar var staddur í sendiferðum guðanna, heyrði þetta, aumkaðist yfir hann, tók upp úr ánni gull-öxi, og spurði hvort hann ætti hana? maðurinn svaraði frómlega, nei. Síðan tók Merkúríus uppúr ánni silfur-öxi, og spurði hvort þessi væri sú, sem hefði dottið fyrir honum? hinn svaraði eins frómlega, ekki væri hún það. Loksins kom Merkúríus með trjeskepta járn-öxi, við hverja maðurinn, sem var trjesmiður kannaðist, að hún væri sín. Merkúríus ljet hann njóta frómleikans, og gaf honum allar 3 axirn-

ar. Trjesmiðurinn sagði lagsmönnum sínum frá, hvernig allt hefði tilgeingið, hugsaði einn þeirra sjer þá að reyna lukku sína á sama hátt, fór því daginn eptir að fella trje í sama stað, ljet öxina með vilja detta í ána, grjet síðan og æpti með há-hljóðum. Merkúríus kom, spurði hvað að honum geingi, og, þá hann hafði feingið svar, kafaði ofaní ána, tók þar upp gull-öxi, og spurði hvort þessi væri sú, sem dottið hefði fyrir honum? hinn svaraði já! og varð mjög glaður. Af þessari hans óskammfeilni reiddist Merkúríus, og sagði, hann skyldi hvorki fá gull-öxina nje hina, sem hann hefði mist.

2). *Svo eru lög, sem hafa tog.*

Hundurinn Strútur vildi fá nokkuð undir sig til að liggja á, mætti sauð, slóst strax uppá hann með illyrðum og sagði: „jeg á hjá þjer tvær merkur ullar, svikarinn þinn! gjaldtú mjer þær strax í stað!“ „vin minn!“ svaraði sauðurinn, „jeg kannast ekki við þá skuld. Jeg á hana hjá þjer, þú skalt út með hana!“ sagði hinn, og í því sama bar þar að melrakka, sem vanur er að vilja koma sjer inn hjá þeim sem mega sjer mikils, hefur ætíð beig af hundunum, og legst jafnan á þá, sem eru minni máttar. Hundurinn sagði við hann: „við höfum mál saman, sauðurinn þarna og jeg; jeg tek ekki til gjörðar annan enn þig, bróðir minn! dæmdú á milli okkar.“ Hver einn annar, heldur enn sauður, hefði strax mótmælt þeim dómara, en hann var ekki löglesinn, og ljet tóu dæma, varð þar ekki af stefnufresti, því sauðskepnan var ekki heyrð, en strax rúin. „Þjer er sýnd ofmikil vorkunsemi, þrjóturinn þinn,“ sagði tóa, „að ekki eru heimtaðar af þjer meir enn tvær merkur. „Þjer munið, ef til vill, ekki núna til þess herra Strútur, en jeg er vitni til, og var við, þegar

kaup ykkar gjörðust; þjer eigið hjá honum átta merkur. Jeg dæmi, að sauðurinn skuli láta þær strax til, og svara þeim upp í topp.“

3). *Svo eru hyggindi, sem í hag koma.*

Úlfur og tóa tóku sig einusinni saman, að útvega sjer bráð, og lofuðu hvert öðru áður trúrri fylgd, aðstoð og jafnaðar-skiptum þegar til þess kæmi. Fyrst hittu þau fallegan fola, sem var að bíta í haganum. Þeim þótti vænt um svo gott búsílag, sem duga mundi í marga daga, en vóru þó hrædd um þau næðu eigi hestinum, nema brögð væru viðhöfð, fóru því að leita lags. Tóa stóð fyrir svörunum, heilsaði fola hæversklega, og fór að hæla honum. „Hvað heitir þessi tíguglega hetja,“ sagði hún? „það er auðsjeð, að þjer eruð stór-ættaður; svipurinn segir til þess og útlitið, sem í allan máta er veglegt! hverrar ættar eruð þjer?“ Þegar hesturinn heyrði þetta hól, fór hann að vara sig, og svaraði: „Því er ver og miður, að jeg get ekki frætt þig á því Jeg var úngur þegar jeg missti hana móður mína, var ekki heldur kominn til vits eða ára, þegar jeg varð að skilja við náúnga mína. En þó hefur mjer verið sagt, að hann faðir minn heitinn hafi látið skrifa undir hófinn á hægra apturfætinum á mjer nafn mitt, og hverjir mínir foreldrar hafi verið, svo ef þjer er umhugað að vita það, þá þarftu ekki annað enn lesa það þar“. „Jeg er með öllu ólæs,“ sagði tóa. En úlfurinn, sem hugsaði að þar með feingi hann gott tækifæri til að komast að hestinum þar, sem hann sæi minnst til sín, gall strax við og sagðist geta lesið það, með hvaða letri, sem það væri. En í því hesturinn tók upp fótinn til að sýna honum letrið, sló hann úlfinn svo hart, að hann lá lángan tíma í roti, en folinn tók

undir sig stökk og hljóp burtu. Tóa stumraði yfir lagsmanni sínum, og spottaði hann, hversu vel lærdómurinn kæmi honum að gagni, en úlfurinn gat með naumheitum, vegna eymsla, dregið sig aptur inn í skóginn, og hjet því, að hann aldrei optar skyldi þykjast kunna það, sem hann skildi ekkert í.

### 4.) *Fár veit hverju fagna skal.*

Þegar himnaguðinn Júpíter skapaði dýr og menn á jörðunni, sem skyldu á henni lifa, úthlutaði hann sjerhverju þeirra stand, lífernismáta, tíð, kjör, störf og mæðu.

Við asnann sagði hann. „Jeg legg á þig byrði og harðan þrældóm, þistla skaltú hafa til fæðis, þú skalt þrælka og lifa eins mörg ár og dagar eru í mánuðinum; það er þitt hlutskipti.“ Asninn hrein og skrækti uppyfir sig: „þú leggur ofmikið á mig! hvað? þrjátýgi ár! æ! Júpíter! taktú tuttugu ár burt af þeim, annars kvelst jeg ofleingi; jeg er nú þegar orðinn grár af hærum *)“ Hinn mikli guð Júpíter heyrði hans hrínandi ósk.

Við hundinn sagði hann: „vak þú trúlega, og gættu vel húsa og túna; þjer gef jeg dyrfsku, trygð, lagkænsku, og þar með tíð til að lifa í þrjátýgi og fimm ár.“ Hundurinn talaði framm í: „æ! vaktara embættið er þúngt! jeg bið þig, herra! að hafa meðaumkvan með mjer, og stytta þessa mæðu nokkuð, og gefa mjer upp tuttugu og fimm ár.“ Júpíter veitti honum þá bæn.

Síðan sagði hann við apann: „þú hálfmennið **)! svipurinn þinn og allt útlit getur ekki verið til ann-

---

*) Asninn er ætíð grár á lít. **) Apinn eður; sem hann stundum kallast, apaköttur, er það dýr, sem manninum er líkast að öllum skapnaði, almennt er hann festur við band, og þar hann hermir allt eptir, er hann hafður að athlátri.

ars enn gamans. Vertú nakinn, bundinn, fátækur, börnum að spje, og hjúum að spotti, í þrjátýgi ár.“ „Þrjátýgi!“ sagði apinn. „Æ! af náð þinni, láttú það ekki vera meir enn tuttugu! þau eru nóg, því ekki þarf lángan tíma til að vera að aðhlátri.“ Júpíter ljet honum eptir þá tíð.

Þá kom maðurinn. Júpíter sagði: „þú mín gleði! þú ert mesta prýðin í minni nýju veröldu, þú ert mitt meistaraverk! jörðin skal vera þín! þjer til góða skal hún vera fögur, ávaxtarsöm og rík af fjársjóðum, láttú ekki hjálíða að nýta þjer þetta, og gleðja þig, því líf þitt skal ekki vara leingur enn þrjátýgi ár.“ Manninum varð svo íllt við, eins og þegar hann fyrst sá eldíngu, en heyrði þá fyrstu reiðarþrumu, og sagði: „æ Júpíter! á þessum mínum sköpunardegi hefur þú gefið mjer þær beztu gáfur, sem til eru; en — á jeg að njóta þeirra svo stuttan tíma? það er kvöl til þess að hugsa! megi jeg óska mjer nokkurs, svo bið jeg í viðbót við líf mitt um allan þann tíma, sem asninn, hundurinn og apinn feingu uppgefinn af þeirra lífstíð.“ „Hana! sje svo!“ sagði Júpíter, „en það skal fylgja því, að sá aldur, sem þú fær fram yfir þrjátýgi ár, skal hafa þess dýrs kjör, sem jeg gaf tíðina upp, og sem þú nú fær í viðbót.“

Þetta hefur síðan rætst; einúngis vort úngdæmi er gleðialdur. Í þrjátýgi ár höfum vjer gaman og yndi án sorgar eður leiðinda; þekkjum ekki hversu erfiðt lífið verður eptirleiðis, svo þá er sannkallað að vjer njótum þess. Júpíter vildi ekki gefa oss leingri aldur. Æ! að vjer hefðum ekki feingið þá bæn, og maðurinn hefði ekki hugsað til leingra lífs! varla er mannanna vor, gamantíðin, á enda, fyr enn vjer leggjum á oss þúngar byrðir, svo sem húsbónda- og hjúskapar-stjett, umsvif, skyldu, embætti, þángað til herra dýranna er orðinn líkur því latasta vinnu-

dýri. Fimtugi maðurinn er búinn að eignast góz og auðæfi, tímir ekki að brúka þau, dregur af sjálfum sjer, en hleður þeim upp, reiknar, telur, lokar niður, er hræddur við þjófnað og svik, er eins svefnlaus og gætir eins vel og hundurinn. Bæklaða, karlæga gamalmennið, sem ekki getur leingur dregið sig á hækjunum, situr eins og hlekkjabundinn api, og væri sæll, ef hann hefði ekki líka apans kjör, að börn og hjú hendi gaman að honum.

## VIII. GÁTUR.

Þær fyrri ráðast þannig: 4). Stólar. 5), Dagur og nótt. 6). Eyrnaskefill.

7) Þú finnur mig nótt og dag á alfaravegi; stundum er jeg á undan þjer, stundum á eptir, og vísa þjer til vegar, samt fer jeg aldrei heiman frá mjer.

8) Við erum tuttugu alls, jafnaldra systur, vöxum eins og eik, en erum ekki jafnstórar. Þegar við verðum lángar, erum við kallaðar ljótar, og strax farið að stytta okkur, en sjeum við gjörðar ofstuttar þá svíður rótinni.

9) Sífeldlega er jeg stúnginn, því það á svo fyrir mjer að liggja, en til allrar hamíngju eru sárin mjer ekki hættuleg, hversu djúp, sem þau eru, og ekkert ör verður eptir þau.

10) Hann þekkir mig og þekkir mig ekki, heldur mjer ætíð fast, en nýtir mig ekki.

## IX. SÁ HEFUR NÓG SJER NÆGJA LÆTUR.

Skammt frá Túnsbergi í Noregi bjó einsetumaður nokkur Sigvarður að nafni á fjalli einu, hvaðan sjá mátti til borgarinnar. Einusinni á kvöldtíma fann hann skammt frá hreysi sínu mann aleinan, er sat þar mjög áhyggjufullur. Sigvarður gætti ná-

kvæmlega að honum, og sá að augna tillit hans var kvikult, örvæntíngarfullt og ráðleysislegt, en líkaminn magur af sorg og uppdrætti. Hann blíndi og á einsetumanninn, var þó svo órór í huga, að hann tók ekkert eptir því, sem fyrir augun bar, en strax sem hann áttaði sig, og sá einsetumanninn, stökk hann upp, eins og hann vaknaði af draumi, velti sjer um á jörðunni, og grúfði sig niður af blygðan. Seg mjer hver ert þú hinn sorgbitni maður, sagði Sigvarður, og hvað geingur að þjer? jeg heiti Hákon, svaraði komumaður, jeg á heima og er borinn og barnfæddur hjerna í borginni: jeg er eymdum hlaðinn, og þó þú hafir meðaumkan með mjer, þá getur þú samt ekki hjálpað mjer. Það er einkis annars að hjálpa þjer svaraði Sigvarður, enn þess sem sendir blíðt eða stríðt, og af hvers gæðsku vjer með auðmýkt eigum að taka því, sem hann lætur að höndum berast; en láttú mig samt vita, hvernig ástatt er fyrir þjer, því þó ei geti jeg ljett byrði þinni af þjer, þá má samt vera jeg geti kennt þjer að bera hana. Hákon starði niður á jörðina, stundi þúngan, en eptir að hann hafði þagað litla stund leit hann uppá einsetumanninn, og tók svo til orða:

Það eru nú sex ár síðan, að Magnús konúngur hinn góði var staddur hjer í borginni. Hann hafði í kufli sínum yztum klæða hlýðt messu og beðizt fyrir í kirkjunni, þá hann gekk út þaðan hjet hann fyrir sjer, að þar hann nú hefði beðið guð um blessan sjálfum sjer til handa, og um marga og mikla velgjörnínga, skyldi hann einnig gjöra aumum og ángráðum gott, en styrkja litilmagnann til rjettar síns; það var líka satt bezt að segja, að ekkjurnar nutu hans verndar, en gamalmenni og fátæk börn örlætis hans. Í þessum erindum var Magnús konúngur eitt sinn á ferð í dularklæðum, þegar hann kom inn

til mín í hús mitt, en jeg var að sýngja við vinnu mína, og hvorki kveið fyrir neinu, nema sóttum, nje festi von mína á nokkru öðru happi, enn að fá verk mitt borgað. Konúngur leit augum yfir allt sem inni var, og varð hýr við, því honum líkaði að allt var innanstokks hjá mjer hreint og þrifalegt, þó fátæklegt væri. Jeg þekkti hann ei í kuflinum, en hugsaði þessi væri einhver ferðamaður, og gjörði honum greiða eptir efnum mínum, kæti mín óx líka en mínkaði ekki við það, að gestur var kominn í hús mitt. Eptir að hann hafði smakkað lítið af öli, spurði hann mig að mörgu, og þó jeg í svörum mínum reyndi til að slá uppá gaman, sá jeg samt að honum bjó eitthvað þýngra fyrir brjósti, og horfði alvarlega en undir eins blíðlega á mig. Jeg hugsaði þaraf að hann mundi þekkja eitthvað til mín, spurði hann því að heiti, og hvaðan hann væri? Hákon sagði hann, jeg sje að jeg hef vakið forvitni þína, jeg skal þá líka seðja hana; jeg er Magnús konúngur Ólafsson. Mig rak í ramma stans, svo jeg kom ekki einu orði út, efaðist þó ei um, að það væri satt, sem hann sagði, en konúngurinn sló frá sjer kuflinum, svo jeg sá kirtil hans og treyju og hann dró konúngs fíngurgullið á hönd sjer. Jeg spratt upp til að lúta honum, en hann stöðvaði mig og sagði: láttú þetta vera! þú ert sælli enn jeg, því síðan jeg kom híngað inn til þín hef jeg lært bæði auðmýkt og sanna speki. Jeg svaraði: spottið mig ekki herra! ef okkur ætti saman að jafna, þá er jeg ei annað enn ormur og aumíngi, þar sem þjer eruð tveggja þjóða konúngur, og alvaldur bæði Danmerkur og Noregs ríkja. Hamíngja og óhamíngja allra þegna yðar stendur í yðar valdi. Hákon! svaraði hann, jeg ræð ei fyrir neins manns hamíngju, nema jeg get varast að taka hana ekki

burtu, það er svo ástatt fyrir þjer, að þú þarft ei minna góðgjörða við, og ert svo hamíngjusamur, að jeg hvorki get sjálfur orðið eins, nje veitt það öðrum. Það vald, sem jeg hef yfir öðrum, fyllir hjarta mitt með sífeldri áhyggju og sorg, samt nær það ei leingra enn til lasta og misgjörða, því með öxi minni get jeg kúgað ofbeldi og pretti, líka get jeg, með því að gefa lendum mönnum embætti, flutt ofmetnað og ágirnd frá einum þeirra til annars. En yfir dygðinni hef jeg lítið vald, gæti jeg launað hana, þá skyldi jeg láta þig verða fyrir því. Þú ert ánægður, og hefur þess vegna hvorki ofmetnað nje ágirni. Ef jeg setti þig hærra, þá væri þín lífernis einfeldni á enda, gæfa þín mínkuð, en að auka hana eður halda henni við stendur ei í mínu valdi. Síðan stóð hann upp, bannaði mjer að segja frá fundi okkar eða samtali, og gekk á burt. Jeg var eins og utan við mig, meðan konúngurinn var að tala við mig, en strax eptirá fór jeg að yðrast þess, að jeg hefði setið sjálfum mjer í ljósi, að hafa ekki haft nein not af náð hans og örlæti. Jeg hugsaði að kæti mín hefði verið flónsháttur, sem þó raunar kom af iðni minni og bjarglegum efnum að eins. Jeg var nú ekki í hýrri há, af því jeg ekki væri æðri stjettar, nje gæti hærra komizt, þar jeg hefði verið svo dáðlaus, að sleppa þessu góða tækifæri. Jeg fór þá að vanrækja vinnu mína, því mjer þótti ekkert til þess koma, sem jeg fjekk fyrir hana. Jeg fór að sitja mestan part af deginum iðjulaus, og var að hugsa mig um, hvernig jeg ætti að ná þeirri lukku, er jeg hafði farið á mis við, og í staðinn fyrir að detta, eptir mátulega þreytu, í sætan endurnærandi svefn, af hverjum jeg var vanur að standa upp með nýrri heilbrygði, gleði og kröptum, var mig að dreyma á næturnar um borðalagða klæðnaði,

stórar tjaldaðar hallir, sífeldar kræsíngar, stórdrykkjur, skutulsveina, sem mjer þjónuðu, og lendra manna dætur í faðmi mjer; en jeg vaknaði til að vita, að allt þetta var ei nema draumur. Af þessari sinnis órósemi og iðjuleysi varð jeg heilsulaus, og seldi allt, sem innanstokks var, mjer til lífsbjargar, svo jeg átti ekki seinast eptir nema eina sæng, sem jeg stundum lúrði á mörgum dægrunum saman. Að ári liðnu kom Magnús konúngur aptur til borgarinnar í dularklæðum, því hann ætlaði að koma á óvart og vita hvað borgarliðurinn aðhafðist; undir eins var honum forvitni á, að sjá þann mann að nýju, sem eptir konúngsins áliti útvegaði sjer lukku og ánægju af sjálfs síns dáðum. En þá fann hann mig ekki sýngjandi við vinnu mína, ekki bragðlegan af heilbrygði, ekki hýran af ánægju, heldur fölan og stúrinn, sitjandi á gólfinu rjettum beinum, hángandi með höndur og höfuð ofan milli knjánna, og hugsandi úti þá tign og sælu, sem jeg óskaði mjer að fá, en ekki náði. Þegar kónúngur kom inn, var auðsjeð á andlitsfari hans, að hann með gleði vænti sjer að finna ánægju, en í því hann sá mig breyttist sá svipur til undrunar og meðaumkunar. Jeg hafði opt óskað mjer, að geta enn einusinni feingið kónúnginn í tal, en þegar jeg rjett í einu sá hann hjá mjer, kastaði jeg mjer fram fyrir fætur hans, lagði höndina á munn mjer, og gat eingu orði uppkomið. Hákon! sagði hann, hvað getur þú hafa misst, því vinna þín var þjer nóg auðlegð, og hvaða sorg getur þú hafa ratað í, þareð gleðinnar uppspretta var í sjálfs þíns brjósti? hvað íllt hefur hendt þig? seg mjer það! Geti jeg hjálpað þjer, þá skaltú verða ánægður. Af þessu gladdist jeg, leit upp og sagði: fyrirgef þjóni þínum, herra! dirfskuna, en heldur skyldi jeg setja lás fyrir munn minn enn tala ósann

indi. Jeg er orðinn auðnuleysíngi, af því jeg missti það, sem jeg átta aldrei. Þjer vöktuð hjá mjer eptlaungun eptir því, sem jeg aldrei var verðugur til að fá hjá yður. En það var samt eðlilegt að hugsa, sá mundi verða enn lukkulegri í tign og auðlegð, sem í lágri stjett og fátækt var áður farsæll. Eptir að jeg hafði talað þetta, stóð Magnús konúngur litla stund í hugsan, en svaraði síðan: Hákon! jeg sje, ekki með reiði, en samt fellur mjer það ílla, að jeg hef ekki rjett þekkt þitt hugarfar. Nú sje jeg, að ofmetnaður og ágirnd búa í hjarta þínu, en þau lágu áður í dái, af því þeir hlutir, sem þú girntist, vóru þá of-fjærri, svo þeir gátu ei vakið þau upp. Jeg má ei setja þig til valda, því jeg vil ei láta undiroka þegna mína, og vil ei heldur neyðast til að refsa þjer fyrir þær misgjörðir, sem jeg hefði veitt þjer völd til að drýgja. En þareð jeg hef tekið frá þjer það, sem jeg get ekki gefið þjer aptur, svo vil jeg að minnsta kosti uppfylla þá eptirlaungun, sem jeg uppvakti hjá þjer, svo þú getir ei skuldað mig fyrir órjettvísi, og líka til þess að þú getir lært að þekkja sjálfan þig. Stattu þá upp, og fylgðu mjer! Jeg stökk upp af gólfinu, eins og jeg hefði haft arnar vængi, hneigði mig af gleði og þakklæti ofan að jörðu, og þá jeg gekk út úr húsi mínu, hoppaði hjartað af feginsemd í mjer, eins og jeg hefði sloppið út úr ljóns bæli. Magnús konúngur tók mig heim til sín, ljet kertissveina sína þjóna mjer, sendi mjer rjetti og vín af sínum eigin diski og borði, en gaf mjer í hverri viku meira skotsilfur enn jeg kunni eptir að vænta. Jeg varð þá innan skamms þess áskynja, að eingir rjettir eður dýrindis drykkir eru eins vel smakkandi og sú fæða, sem vinnan kryddar; einginn svefn svo sætur, sem sá, er þreytan kallar oss til; og einginn tími líður burt með

slíkri ánægju, sem sá, á hverjum iðnin er að vinna til kaups. Jeg mundi til þeirra fyrri tímanna, þegar svo hafði verið ástatt fyrir mjer, og saknaði þeirra sárlega, en meðan jeg var ánægjulaus í alls nægtum, gat jeg allt fyrir það ei skilið mig frá þeim, þó þær væru mjer til leiðinda; jeg varð samt að missa þær nauðugur, þegar mig varði sem minnst.

Að Magnúsi konúngi liðnum varð Haraldur hinn harðráði konúngur yfir öllu Noregs-ríki. Þeir sem bæði sáu ofsjónum yfir mjer, og fyrirlitu mig, komu inn hatri hjá konúnginum til mín, svo hann bannaði fjehirði sínum, að láta mig fá nokkurt fje þaðan í frá, en ljet reka mig strax frá hirðinni. Þeirri skipan hlýddu líka óvinir mínir dyggilega, svo jeg, að tveimur dags eiktum liðnum, átti ekkert hæli, var villuráfandi, hjálpar - og vonar - laus, forsmáður, svángur, og þó orðinn vanur að lifa í allskonar sælgæti og virðingu. Svo var jeg þá, því miður! búinn að reyna hvað sárt er að missa það, sem í sjálfu sjer er eingin lukka að eiga. Jeg hafði reynt meðlæti og mótlæti, lifað í ýmsu og mjög ólíku standi, og nú kvelst jeg af að hugsa til þess því jeg er vonlaus um að geta nokkurntíma feingið aptur það góða, sem fylgði því hvorutveggja, Æ! mikið vildi jeg það hefði aldrei átt fyrir mjer að liggja, að læra þetta af eigin reynslu! þá Hákon hafði þetta talað, fórnaði hann höndunum upp, leit til himins, og táraflóð rann niður af kinnum hans.

Einsetumaðurinn beið á meðan umbrotin vóru sem mest í huga hans Hákonar, en þegar þau fóru að mínka tók hann í hönd honum og sagði: enn þá stendur meira, sonur sæll! í þínu valdi, enn bæði Magnús konúngur hinn góði gat gefið þjer, eða Haraldur hinn harðráði tekið frá þjer; taktu eptir því, sem jeg ætla að segja þjer, kannskje mjer tak

ist það, sem jeg strax í fyrstu drap á, að jeg geti sýnt þjer hvernig þú átt að bera mótlæti þitt, þó ekki geti jeg hjálpað þjer til, að ljetta því af þjer. Sú var tíðin fyrir þjer, að þú varst ánægður með vinnusemi, og að eiga lítið, einasta af því þú varst vanur við það, og vegna þess þú þá varst lángt frá, að geta vænt þjer að lifa í iðjuleysi og alls nægtum. Því þegar þú gatst farið að hafa von um þær, þá fórstu að hafa andstygð á vinnu og fátækt; þú öðlaðist þá ekki það, sem þú fórst að festa von þína á, en það fellur öllum sárt, að fara þess á mis, sem þeir gjöra sjer vissa von um. Hefðir þú fest von þína á því að vinna svo, og lifa í þessum heimi, að þú síðan ættir víst að komast í himnaríki, þá hefðir þú aldrei getað vænt neins betra, og þjer hefði ekki þótt lítið tilkoma að öðlast það, því þá hefðir þú ekki getað kvalið hugskot þitt með þeirri hugsan: „jeg hugsaði þetta væri svo gott, en nú finn jeg að mjer leiðist það, því ekki er nærri svo mikið í það varið, sem jeg átti von á.“ Sú ánægja, sem þú við vinnu þína hafðir í fyrstu, var ei annað enn sálarinnar mók, og sú gleði, sem þú af sælgætisins nýja brumi fjekkst hjá Magnúsi konúngi, var eins og áfeings drykkjar rugl, hvorugt þetta getur nú huggað þig í andstreymi þínu, heldur gjörir þjer það þúngbærra, og æsir upp sára tilfinníngu hjá þjer. Mitt ráð er þess vegna þetta: elskaðu guð yfir alla hluti, og vonaðu á hann! þakkaðu honum fyrir hvað, sem hann lætur fram við þig koma, og vendu þig til að vera öruggur við þá hugsan, að allt verði þeim að góðu, sem guð elska! treystú honum, að hann geti uppfyllt allar þínar óskir, sem skynsamlegar eru, og mettað sálu þína með sannarlegum gæðum! stundaðu hið allrabezta, og haltú

stefnunni á það, sem er svo mikilsvert að öll veröldin er ei meiri hjá því enn einn dropi í hafinu, eða eitt duptkorn í metaskálinni. Farðu nú, sonur sæll! aptur til vinnu þinnar; þá mun fæða þín smakka þjer vel, og svefninn verða sætur; þá mun ánægja þín verða stöðug, því hún er þá ekki undir því komin, sem þú átt á jörðunni, heldur því, sem þú væntir þjer að fá á himnum!

Hákon hugfesti sjer þessi heilræði, þakkaði guði fyrir þá huggun, sem hann hafði sent honum, varð vel stiltur í geði, snjeri aptur til vinnu sinnar, og fann í henni sifelda ánægju; guðhræðsla hans var alvarleg og staðföst, og hans efstu æfidagar urðu miklu sælli, enn hinir fyrstu.

## X. ÖL ER INNRI MAÐUR,

Tyrkja keisarinn, eður eins og þá var kallað Kalífinn, Mahadi var einn af þeim stjórnendum, sem voru sofandi á konúngshásætinu, og feingu ágjörnum ráðherrum taumhaldið í hendur. Einusinni þá hann á dýraveiðum var að elta steingeit, viltist hann frá förunautum sínum, og nóttin fjell á hann. Þegar hann var þreyttur orðinn, kom hann í rjóður eitt, hvar hann sá tjald eitt, úr hverju serkneskur maður kom út, og beiddi gest sinn að vera velkominn. Kalífinn ljet ekki á bera, hver hann væri, annaðhvort til þess að sjá seinna hvernig bónda yrði við, þegar hann feingi að vita, hver kominn væri, ellegar og hann ætlaði einusinni á lífstíð sinni að njóta þess yndis, að umgángast við jafníngja sinn. Meðan þessi ráðvandi maður gjörði allt hvað hann gat til að taka vel á móti komumanni, spurði Kalífinn hann að, því hann byggi í slíkum eyði-skógi. Það, sem þjer með svo miklum rjetti kallið eyði-skóg, svaraði

hinn Serkneski, var fyrrum fjölbyggt af Serkjum og Tyrkjum, sem höfðu nóg viðurværi af kaupverzlun og akuryrkju, og með ánægju guldu þolanlegan skatt Kalífanum Almansor. Sá góði herra lagði alúð á að stjórna sínum löndum, og gjöra þegna sína lukkusæla; en hans eptirkomara og núverandi stjórnara leti og hirðuleysi hefur feingið hirðstjórunum í hendur þegna hans, svo að vegna þeirra ágirni eru hinir tvístraðir víðs vegar, sem hjer bjuggu áður. Kalífinn, sem nú í fyrsta sinni heyrði sannleikann, firtist ekki af því, heldur ásetti sjer að verða aðgætnari í embættis-skyldu sinni framvegis, en ljet ekki húsbóndann á sjer sjá, hvað sjer bjó í brjósti. Hinn Serkneski vildi gjöra komumanni til góða allt hvað hann gat, og þó var undir eins hræddur um, að hann kynni hneixla hann, dró leingi tímann, áður enn hann talaði til þess, að hann ætti eina vínflösku, sem hann gjarna skyldi gefa honum að drekka úr, ef gestur þyrði að taka það uppá sína samvitsku, því eptir Tyrkja trú er ekki leyfilegt að drekka vín, eður neitt, sem áfeingt er. Kalífinn, sem var óvanur þessum drykk, vildi nýta sjer tækifærið til að njóta þeirrar ánægju, sem honum var því yndislegri, af því hún var fyrirboðin, og hann vissi að sitt misbrot mundi hjer ei komast upp. Eptir að hann var búinn að drekka hið fyrsta staup, sagði hann með hýru bragði við hinn Serkneska: vin minn! jeg er einn af hirðsveinum Kalífans, og þú skalt ei þurfa að iðrast eptir þann greiða, sem þú hefur gjört mjer. Tjaldbúinn ljet aptur á móti í tje gleði og þakklæti fyrir þessa alúð, og sýndi komumanni þess meiri virðingu. Þessi sem sagðist vera Kalífans embættismaður, tók fljótt til flöskunnar aptur, en við hvert eitt staup óx hans ánægja og viðfeldni. Jeg vil ekki leyna þig neinu,

sagði hann við húsbóndann, jeg er Kalífans einka vin, sem hann hefur mestar mætur á. Sá vinskapur, sem hann virðist að hafa til mín, skal innan skamms gefa mjer tækifæri að útvega þjer velgjörðir af hans hendi. Þegar hinn Serkneski heyrði þetta, þóttist hann ekki nógsamlega geta veitt gesti sínum lotníngu, en kyssti hans klæðafald, og beiddi hann fyrir alla muni að spara ekki þetta vín, sem gjörði hann svo glaðan. Mahadi kom sjer betur og betur í gæti hjá víninu, svo hann þurfti ekki að taka nærri sjer að drekka það fyrir húsbóndans bón. Jeg sje sagði hann, „að öl segir allan vilja“. Jeg er hvorki hirðmaður nje einka vinur Kalífans, heldur er jeg Kalífinn sjálfur, og nú staðfesti jeg og ítreka allt það loforð, sem jeg áður hef gjört þjer. Serkneski maðurinn tók strax í kyrrðum frá honum flöskuna, og ætlaði að bera hana burt. Hvað ertu að gjöra? spurði Kalífinn, sem hugsaði að hinn mundi nú sýna sjer lángtum meiri lotníngu enn áður. Þjer megið vera hver helzt, sem þjer viljið, svaraði húsbóndinn, þá læt jeg yður samt ekki drekka meira. Við fyrsta staupið sögðuzt þjer vera stórmenni, og því gat jeg vel trúað; við það annað voruð þjer orðinn mesta uppáhald Kalífans, og þá hafði jeg stóra virðíngu fyrir yður; við hið þriðja sögðuzt þjer vera Kalífinn sjálfur, og það getur skjeð, að það sje satt; en hætt er við, að þjer við fjórða staupið segist vera okkar stóri spámaður Mahometh, og kannskje við fimmta staupið almáttugur guð; en því á jeg bágt með að trúa. Mahadi hló að þessu einfaldlega, en þó ekki heimskulega svari; og þar vínið var farið að stíga uppí höfuðið, lagði hann sig niður á ábreiðuna, sem tjaldbúinn hafði ætlað honum til sængur um nóttina. Daginn eptir reið hann af stað, tók með sjer hinn serkneska svo

sem leiðsögumann, og gaf honum stórgjafir, þegar þeir komu til Bagdad.

## XI. GÁTUR.

7) Varða. 8) Nöglur. 9) Prjónakoddi. 10) Peníngar hins ágjarna.

11) Tvisvar 5 eru 10, og þá læt jeg alla sjá. Tvisvar 5 eru 10., þar af læt jeg sjá 2, en ekki 10.

12) Fjórir konúngar stjórna hjer undir eins, og þá má nærri geta hvaða órói sje í því ríki. Að sönnu eru þeir latir, en í hvort sinn, sem þeir hræra sig, þá er það til að heyja bardaga.

13) Jeg er ekki utan dupt. Eitt litið fljúgandi dýr gjörir sjer buxur og brjóstadúk úr mjer, og það sem meira er, hentugan bæ handa sjer. En þá kemur maðurinn, brýzt inn með járni og reyk, og neyðir mig til að lýsa sjer.

## XII. UM BÍFLUGUR.

Hunángsflugur eru tvennskonar, útiflugur og heimaflugur. Útiflugur hafa bú sitt ofan' á eður í jörðu, í vængjum þeirra sýngur mikið, þá þær fljúga, og þær safna nokkuð svo litlu hunángi; þær eru hjer á Íslandi. En heimaflugur eru þær, sem almennt, og með rjettu, heita hunángsflugur eða bíflugur. Allt þángað til fyrir mjög fáum árum hafa menn ætlað að þær væru þrennskonar, kvennkyns, karlkyns og hvorugs kyns. Í hverju hunángsflugnabúi eður stokk, er ei nema ein kvennkyns fluga, er kallast drottníng, mikla leingri og gildari enn nokkur hinna flugnanna, en hefur þó styttri vængi, brodd hefur hún eins og vinnuflugur; frjófsemi hennar er svo stór, að þó hún frá sjer stýi hópum tvisvar á sumri 12 eða 15000 í hverjum, er samt stokkurinn fullur að haustnóttum. Hvatar eður karlkyns eru aðrar flugur, sem eru leingri og stærri enn vinnuflugur,

dökkari á lit, hafa eingan brodd, höfuð þeirra er hnöttóttara og harðara, og raninn styttri enn á vinnuflugunum, eru sífelldlega heima og safna ekki hunángi. Í hverju búi eru 1 til 700 af slíkum, eptir sem búið er stórt til; þeir gjöra eggin frjófsöm með því að stökkva yfir þau hvítleitri glætu, eptir að drottníngin er búin að verpa þeim í herbergin. Þeir fá gott viðurværi allt sumarið. En þegar hún er búin að verpa eggjum sínum, fer að líða undir haustið, og flugurnar sjá, að ekki er nógur hiti til að útklekja nýjum úngum, þá eru hvötu flugurnar útreknar, og illa með þær farið, því þær eru þá ei álitnar að vera annað enn ómagar og búinu til þýngsla, þar þær gjöra ei annað enn eta. Vinnuflugurnar vilja þá ei líða þær leingur í stokknum, nema fáeinar, sem eru settar á vetur til næsta árs. Hvernig sem hvötu flugurnar þá vilja þrjótskast, og sitja kyrrar í þrái, þá hjálpar það ei, hinar setjast að þeim, taka í vængina á þeim, bóga og útlimi, hrekja þær burt eður stínga í hel, hrista og snara þeim burt úr stokknum án meðaumkunar, ráfa þær svo húsnæðislausar, viltar og hjálparlausar, þángað til regn eða fuglar eða húngur tekur af þeim lífið. Vinnuflugurnar eru minnstar, ljettar á sjer og fljótar. Munnur þeirra er konstuglega samsettur rani, lángur og hvass, mjúkur og liðugur til allra snúnínga, svo að flugan geti komið honum niður í botn á blómstrunum, hvernig sem blöð og blómstur - staunglar hindra það; en væri sá rani stífur, og stæði alltaf út, þá yrði hann óhentugur; hann er samsettur af tveimur pörtum eins og sjálfskeiðíngur, svo flugunni er hægt að leingja hann og stytta, eins og á þarf að halda. Þar að auki er hann styrktur með fjórum sterkum skjel - skeiðum, af hverjum tvær eru utan um sjálfan ranann, en

aðrar tvær víðari og holstærri ná utan yfir alltsaman. Með þessu verkfæri safnar ein hunángsfluga meiru hunángi á dag enn 100 Apóthekarar geta gjört í 100 ár. Þessu hunángi safna þær í gagnsæran sarp, bera það heim, og hella því út í hunángsbárin. Á epturstu fótunum hafa þær nokkra hvylft á hverjum, sem eru eins og karfir; í þessar láta þær vaxið, sem þær safna, og sje það meira enn þar í liggur, líma þær það við miðfæturna og brjóstið á sjer, og flytja það þannig heim. Brodd hafa þær aptur úr sjer til að verja sig með; hann er samsettur af þremur pörtum, nefnilega, hulstri og tveimur spjótum. Hulstrið er hvasst í oddinn, með rifu skammt fyrir ofan hann, út um hverja eitrið getur farið. Bæði spjótin fara út um aðra rifu; þau eru tennt með smá hökum eins og agnúar væru, er standa uppávið á spjóta eggjunum, og gjöra stínginn sárari; hindra líka hunángsfluguna í að draga aptur til sín spjótin, sem hún á bágt með. Hún getur aldrei losað sig aptur, þegar limurinn, sem stúnginn var er hristur, eða flugan hindruð í því, en hafi sá stúngni þolinmæði, og sje kyr, þá beygir hún sig til baka, legst á ská niður á spjótin, svo agnúarnir leggjast niður með egginni, og þannig getur hún hæglega dregið þau inn aptur, stíngurinn verður þá ekki heldur svo sár. Hulstrið sjálft er mjög hvasst, og gjörir fyrsta sárið, þar fylgja strax á eptir spjótastíngirnir og rjett í sama úthellist eitrið í sárið. Þetta ollir bólgu, sem varir nokkra daga, en hverja mínka má með að draga broddinn strax úr sárinu og víðka það, svo eitrið geti runnið út úr því; á sumrin hafa þær meira eitur enn á veturna. Þessar vinnuflugur eru lángflestar, því þær eru stundum 40 til 50000 í einu búi. Þær vinna allt, sem gjörast þarf. Þær hafa leingst af verið haldnar að vera

hvorugs kyns, en nú vita menn að þær eru allar blauðar, eg einginn munur þeirra er í fyrstu og drottníngarinnar, nema einasta í uppeldinu, að hún fær sjerlegan rýmri bústað og betri næríngu, hvar af hún verður frjófsöm og miklu stærri.

Í hverjum einum bíflugnastokki eður körfu eru þrjár byggíngar hver hjá annari. Í einni þeirra er fjöldi smá-herbergja, sem úngar bíflugur eru uppaldar í, í annari er geymt vax, þángað til á því þarf að halda, en sú þriðja er ætlað til að geyma í hunáng; milli bygginganna er ætíð svo mikið gángrúm, að tvær bíflugur geta á víxl geingið þar um. Uppeldis herbergin eru þrennskonar, þau smæztu handa vinnubíflugunum, þau stærri handa hvötu flugunum, og það stærsta, sem er að álíta eins og slot, handa drottníngunni. Öll eru þau sexhyrnd, því þá regluleg bygging á að gjörast, er bezt að brúka þríhyrndt, eða ferhyrndt form, en það sexhyrnda er þó hjer hentast. Því: 1) þarf minnst efni í það; 2) má byggja há og stór herbergi í því formi; 3) er það hentugast fyrir flugurnar að skríða út og innum; 4) tekur meira af hunángi en hin formin; 5) þarf ekkert auðt rúm að vera neinstaðar á milli; 6) er sterkara; og loksins 7) er hver veggur ætíð undir tveimur herbergjum, svo að við hver sex herbergi sem byggð eru, mega reiknast 10 fullbyggð, hafa jafnvel þeir mestu mælifræðis-meistarar, ekki upphugsað aðra hentugri lögun en þessi er. Drottníngin geingur í kríng, og skoðar öll þessi herbergi. Hún finnur á sjer hvaða eggi hún verpa skuli í hvert þeirra, því aldrei verður henni á, að leggja hvatrar flugu egg í vinnuflugu herbergi, eður vinnuflugu egg í stærri herbergin, með henni gánga 10 eða 12 hvatar flugur, sem eru til taks, að gjöra eggin frjófsöm. Þegar bíflugurnar hafa nýsett bú, og ekki

eru nóg herbergi til, þá leggur hún tvö eða þrjú egg í sama herbergi. En þar slíkt herbergi yrði ofþraungt handa tveimur eða þremur úngum, sem skriðnir væru úr eggjunum, þá sækir hún aptur hin, sem ofmörg eru, strax sem herbergin eru búin handa þeim, því hún þekkir fullvel þau, sem ofmörg egg eru í. Vinnuflugurnar, sem strax búa til lok yfir herbergin, sem eggin eru í, láta alitíð með vilja þau vera opin, sem fleiri enn eitt er í. En í drottníngar slotið er aldrei lagt nema eitt egg, sýnist það að vera þess vegna, að ekki sje svo mikils umvarðandi persónu líf sett í hættu með að flytja eggið, sem hún á að kvikna úr. Menn hafa sjeð, að 5696 flugur bygðu 3392 herbergi á sex dögum, og eitt nýbýli var frá fardögum til Mikaelismessu búið að byggja 22574 herbergi, líka að í einu búi hafa byggð verið 4000 herbergi á einum degi. Drottníngin er svo forsjál, að hún leggur ei eggin á gólfið í herbergjunum, vegna þess að maðkurinn, sem úr eggjunum kemur, ætti þá bágt með að skríða uppúr, heldur límir hún eggið fast við efri barminn, klekst það síðan út innan tveggja eður þriggja daga, af þeim hita, sem svo mörg þúsund innbyggjarar í stokknum af sjer gefa. Vinnuflugurnar vita strax af, þegar maðkurinn fer útúr egginu, gefa honum þá fyrst einskonar smekklaust hlaup, og að nokkurra daga fresti, þegar hann er orðinn eldri og stálpaðri, eina annarskonar fæðu, sem er mjög lík hunángi. Þegar þær þannig hafa nákvæmlega fóðrað og annast þessa maðka í 10 eður 12 daga, og komið er undir að þeir verði að hýð - ormum (púpum), fá þeir ekki leingur mat, en það sýnist eins og þeir stirðni upp og detti í dauða svefn. Þá loka vinnu - flugurnar herbergjunum aptur með vaxi, og þegar hýðormarnir hafa þannig legið 15 daga í dái, brjótast þeir útúr

hýðinu, og fljúga út, því þá eru þeir orðnir fullkomnar býflugur. Verði ofmargar úngar flugur í einu búi, sem skjeður nálægt sumar-sólstöðum eða fyr, svo skilur sig einn eða fleiri hópar frá þeim, leita sjer upp annan bústað og fjölga þar afkvæmi sitt. Í slíkum nýbýlínga hóp eru nokkur þúsund flugna, en flokksforíngi er ein drottníng, sem er dóttir þeirrar gömlu, úr hverrar búi jafnan hópurinn hefur farið. Þessi hópur flýgur út með miklum ys og hvin, sem sýnist að vera gleðilæti, á hverjum eigandinn hefur gætur, til að láta þetta nýbýli ekki fara sjer úr hendi. Þegar únga drottníngin þreytist á þessu flugi, setur hún sig á eik, stein, eða hvað sem fyrir verður, en allur hópurinn staðnæmist þar, sem hún hefst fyrir, þángað kemur eigandinn, sem fyrst hann getur, með körfu eður stokk, og lætur hópinn þar í. Síðan þegar allar þessar flugur eru komnar til kyrrðar, og drottníngin í sæti sitt, fara allar strax að vinna, og innan 4 eða 5 daga er hún búin að verpa nokkrum þúsundum eggja. Hafi hunángsflugurnar feingið góða körfu eður stokk, sem þó kynni að leka, eður súgur væri í gegnum, þá bera þær í rifuna límkynjaða saft, og undir eins hindra þarmeð illyrmi að komast til sín og gjöra skaða. Kynni svo til að bera, að aðkomandi ormur eða fluga kæmi inní stokkinn, þá er allt á tjá og tundri. Þesskonar upphlaup varð einusinni þá snígill hafði skriðið inní býflugna stokk, og flugurnar vissu ekki hvernig þær ættu að koma honum út aptur; loksins komu þær sjer saman um, að steypa utanum hann þykku vaxi, svo eingin ólykt eða óhollusta skyldi af honum verða, og það gjörðu þær án tafar.

Strax, sem nýbýli er byrjað, skipta vinnuflugurnar sjer til vinnu í fjóra hópa. Einn flýgur út til

að sækja efni í bygginguna, annar leggur grundvöllinn, þriðji setur byggíngar efnið saman eins og vera á, og fjórði hópurinn safnar mat handa þeim, sem eru að vinna heima; þó fá þær ei mat, sem leggja grundvöllinn, jafnvel þó þær standi í harðri vinnu, þareð þær þurfa að hnoða, breiða út, þrýsta saman, og skera í sundur vaxið með kjálkunum, þar á mót mega þær fara frá vinnu sinni, þegar þær vilja, og fljúga sjer til bráðar, þá aðrar eru settar í þeirra stað. Það er yndi að sjá þessar smáflugur að vinnu sinni, þegar sumar eru að byggja herbergi úr vaxi, aðrar að sljetta og jafna allt á eptir, sumar að smíða herbergi til að geyma í hunángið, aðrar að gjöra lok ofanyfir þau, sem eiga að geymast til vetrarforða, en aðrar að gefa möðkunum mat, og sumar hreinsa stokkinn, og bera út líkami þeirra, sem deyja, svo eingin rotnan eða ólykt verði í bænum, og sýnist eins og þær gefi hver annari teikn, svo reglulega geingur öll vinnan hjá þeim. Á milli hunángskakanna eður hverrar byggíngar eru dyr og stræti,[3] sem flugurnar geta farið ígegnum, án þess að fara mjög krókótt. Drottníngin uppörfar þær alvarlega til vinnu, og allir sýna henni virðíngu, en þegar drottníngin deyr, fellur þeim allur ketill í eld, þær hætta öllum tökum, og allt búið er í einu tapað, ef því er ekki strax útvegað aptur nýtt yfirvald — allt þetta er rjett undrunarvert og dásamlegt.

Bíflugurnar þekkja blóm og sjá veður fyrir; þegar þær vita á sig slæmt veður um daginn, eru þær kyrrar heima, en verði gott veður og heiðríkja, sem bezt á við þær, fljúga þær til að safna öllu, sem búið þarf á að halda, gamlar og úngar, og jafnvel þær, sem einasta fyrir fáum klukkustundum voru komnar í fullkomið stand. Þær þekkja hvern sjer hentugan stað og hvert blóm, eins og þeim

væri vísað á það. Á sum blóm setjast þær aldrei fyr enn viku eptir það þau eru útsprúngin, við önnur skilja þær laungu áður en þau fölna, og á enn öðrum hafa þær lyst í heilan mánuð. Sum ilmgóð blóm hræra þær aldrei. Vind geta þær ekki fellt sig við, en þegar hvessir, fara þær í skógana, til að vinna þar í hlje. Á morgnana safna þær saman gulleita duptinu, sem finnst á blómkólfunum, fyr enn það þornar upp af sólarhitanum; úr því dupti hnoða hunángsflugurnar saman smá-bita, svo hægra sje að flytja það, festa þá svo við apturfæturna á sjer, hvar til hárin, sem á fótunum eru, mikið hjálpa, fljúga síðan með feinginn heim, hvar aðrar flugur taka við því af þeim, og láta það í vaxbúrið. Hunánginu safna þær þegar heitast er dagsins.

Þegar vetur er harður, skríða þær allar svo nærri hver annari, sem mögulegt er, til að hafa hita, en falla þá þó í lángan svefn og dofa, svo þær vita ekki af sjer. En sje kuldinn tempraður, svo eru þær síteldlega á kreiki, og lifa á sumarsafni sínu til annars sumars. Eigandinn er þess vegna vanur á haustin að drepa með reykjarsvælu þær hunángsflugur, sem hann vill ekki setja á, en tekur eptir þær allt hunángið og vaxið, sem til er, ellegar og svo hann sker burtu og tekur frá þeim svo mikið af hunángi og vaxi, sem hann heldur þær geti misst, ber það þá stundum við, þegar vetur verður linur, að þeim er oflítið eptirskilið, hvers vegna eigandinn verður þá að halda lífinu í þeim með hunángi eða sikurvatni. Margur hússfaðir utanlands kann að hafa 20, 50 eða fleiri bíflugnastokka, hvar af ábatinn af hverjum einum reiknast fyrir nokkra ríkisdali, og þá vel fellur, við eina kú. Allt vax, sem til er í veröldunni, er gjört af bíflug-

um; það er brúkað í ljós, lakk, plástra og til ótal annara gagnsemda.

## XIII. G Á T U R.

11) Fíngravetlíngar og sokkar. 12) Spilakonúngar. 13) Vax.

## XIV. GÓÐMENNSKA OG GOTT UPPELDI ERU AFFARAGÓÐ.

Konúngur nokkur ríkti forðum í ríki sínu mjög ágjarn, er hjet Hjörvarður. Þá hann vildi leita sjer konfángs, gaf hann ei um, að fá neina fríða konúngsdóttur, heldur sókti hann eptir, að eiga einhverja, sem væri vellauðug, og væri enn ágjarnari enn sjálfur hann. Hann fann líka þá, sem var honum rjett að óskum. Hún átti fyrst son, er kallaður var Trausti, og að ári liðnu ól hún annan son, er nefndist Auðun. Trausti var fríðari enn bróðir hans, en konúngur og drottníng unnu honum ekki, því hann vildi útbíta hverju, sem honum var gefið milli annara barna, sem voru að leik með honum. Auðun þar á móti vildi heldur láta sætabrauð sitt skemmast, heldur enn gefa nokkrum neitt af því; hann læsti niður gull sín, sem honum voru feingin til að leika sjer að, svo þau skyldu ei slitna, og þegar hann hafði eitthvað í hendinni, hjelt hann því svo fast, að einginn gat náð því, og ekki þó hann svæfi. Konúngur og drottníng sáu ei sólina fyrir þessu barni, svo vænt þótti þeim um það, þareð það líktist þeim svo mjög. Konúngs synirnir uxu upp með hirð föður síns; en Trausta var aldrei feinginn nokkur peníngur til umráða, því foreldrar hans voru hræddir um hann mundi sóa hverju, sem hann undir höndum hefði. Einusinni þá Trausti var að dýraveiðum, reið einn skjaldsveinn hans svo nærri kerlíngu nokkurri, að hún fjell í saurinn, hljóðaði, og

sagði: lærbeinið væri brotið í sjer, en skjaldsveinninn gjörði ei annað enn hló að því. Trausti, sem var hjartagóður, ávítaði skjaldsveininn, en ásamt með smásveini sínum, er hann unni mest og hjet Vakur, fór til kerlíngarinnar og hjálpaði henni að standa upp, síðan tóku þeir sinn undir hverja hönd hennar, og leiddu hana til kofans, sem þar var nærri og hún átti heima í. Konúngssyninum sveið mjög, að hann átti ekkert að gefa kerlíngunni. Til hvers er mjer, sagði hann: að vera konúngs son, þar jeg get ekkert gott gjört af mjer; bágt er að vera stórhöfðíngi, en hafa ei efni til að hjálpa þeim, sem nauðstaddir eru. Þá Vakur heyrði að konúngs sonurinn talaði þannig, sagði hann: jeg hef á mjer einn sljettan dal, og er hann yður velkominn! hafðu þökk fyrir, sagði Trausti, jeg skal borga þjer hann, þegar jeg verð konúngur, gaf svo kerlíngunni penínginn. Þá Trausti kom heim til hirðarinnar, ávítaði móðir hans hann harðlega, að hann hefði verið að reísa upp förukerlínguna. Stór ólukka hefði skeð, þó ein kerlíng hefði stokkið af! sagði hún við son sinn, (því ágjarnir eru einnig optast miskunarlausir). Það er dáfallegt að sjá konúngsson gjöra svo lítið úr sjer, að stumra yfir betlara-kerlíngu! Móðir mín góð! sagði Trausti, jeg hugsaði að höfðíngjarnir væru þá mestir mennirnir, þegar þeir gjöra gott af sjer. Snáfaðu burt! sagði drottníngin. Þú ert heimskíngi, hversu sem þjer sýnist aðferð þín sæmileg! daginn eptir fór Trausti aptur til dýraveiða, en raunar var það einúngis til að vitja um kerlínguna, og sjá hvernig henni liði. Hún var þá orðin alheil, og þakkaði honum fyrir þá velgjörð, er hann auðsýndi henni, en lofaði að vera honum innanhandar, og til góðra ráða ef hann seinna viðþirfti; en nú, sagði hún, vil jeg segja yður að ætt okkar kemur saman. Þeir voru

þrír synir Heiðreks konúngs, Ángantýr, Alrekur og Hjörvarður. Ángantýr var þeirra elztur, en Hjörvarður faðir yðar var þeirra lángýngstur, og ekki sammæðra við hina báða eldri bræður sína, Ángantýr faðir minn tók ríki að föður sínum liðnum, kvongaðist og átti mig eina barna, og er nafn mitt Borghildur. En er Alreki bróður hans fór að vaxa fiskur um hrygg, gjörðist hann víkíngur mikill, herjaði á ríki bróður síns, og höfðu þá ýmsir í fyrstu sigur; en svo fór að lyktum að þeir Alrekur og Sigurgeir jarl, er Hjörvarður konúngsson var að fóstri hjá, dróu saman óvígan her og fóru þar með á hendur föður mínum, þóttist hann ei hafa magn við slíkt ofurefli að stríða, fjekk mig þess vegna í hendur fulltrúa sínum einum, er Ásgautur hjet, og ásamt með honum gróf hann á næturþeli niður í jörð alla fjársjóðu sína, sem hann bæði hafði að erfðum tekið eptir föður sinn, og líka á æsku árum sínum í hernaði aflað. Að þessu gjörðu slóst í bardaga með þeim bræðrum, þarf þar ei frá vopnaskiptum að segja, nema sá var endir orustunnar, að þeir fjellu báðir Ángantýr og Álrekur, en Sigurgeir jarl ljet allstaðar að mjer leita, hvað þó var forgefins, því fóstri minn hafði strax fyrir bardagann farið úr landi í dularklæðum, og eins skipt um búnað minn og nafn, svo eingin fregn gat af okkur geingið. Nokkuð af fje því, sem faðir minn hafði niðurgrafið, sókti Ásgautur fóstri minn, hjelt mig af því ríkmannlega og sagði faðir minn hefði verið jarl nokkur, sem fallið hefði í hernaði, urðu því margir ríkir höfðíngjar til að biðja mín, en þar jeg sjálf vissi að jeg var konúngsdóttir, þó ei þyrði jeg að gjöra það opinskátt vegna ofsókna Sigurgeirs jarls og Hjörvarðar konúngs föðurbróður míns, sem hræddir vóru um að landslýðurinn mundi kalla mig til ríkis, af því þeir

sjálfir vegna harðýðgis síns og ágirndar vóru af öllum hataðir, neitaði jeg öllum ráðahag, sem mjer bauðst, en nam speki og allskonar fræði, svo jeg í því landi var ekki minna metin en þó jeg konúngs dóttir væri. Nú fyrir skömmu er fóstri minn andaður, sagði hann mjer áður allt með merkjum hvar fjársjóðir föður míns væru faldir, og það að svo vondir, sem föðurbræður mínir hefðu verið, svo góður væri eldri sonur Hjörvarðar konúngs, og skyldi jeg í föðurland mitt aptur hverfa, þá hann væri að ríkjum seztur. Fór jeg nú í dularklæðum híngað, að njósnast um hvernig ástatt væri, og undir eins sækja nokkuð af niðurgröfnu gripum mínum. Hef jeg heyrt allt hið sama um ástsæld yðar hjá öllum, og reynt meðaumkan yðar við sjálfa mig þegar jeg slasaðist, hvað þó var eigi nærri svo mikið, sem jeg gjörði orð á, því jeg ætlaði sjálf að komast að raun um, hvort geðgæðska yðar væri svo stór, sem orð hafði af farið. Nú skal jeg þá að nokkru launa yður góð atlot, og er hjer kistill með dýrgripi og gimsteina, sem jeg hef uppgrafið, og nú gef yður. Skal þetta vera upphaf vináttu okkar, sem vara skal meðan þjer fylgið dygðanna vegi, en slitið skal henni, ef þjer látið yður af íllmennsku og rángsleytni til ílls tæla. Trausti fór nú heim aptur með gjafir þessar, býtti hann strax út nokkru af þeim til þeirra, er hann þekti sèr holla og velviljaða, hvar af fljótt barst til drottníngar, að Trausti konúngsson hefði eignast stórar gersemar og gimsteina, hljóp hún strax til herbergja hans og varð svo glöð af að sjá gimsteinana, að hún faðmaði hann að sjer, og í fyrsta sinni á hennar lífstíð, kallaði hann sinn elsku son. Viltu gefa mjer dýrgripina þá arna? sagði hún við son sinn. Allt hvað jeg á, er yður velkomið, svaraði hann. Alltíð ertu gott barn, sagði drottníngin, jeg

skal borga þjer þá. Hún fór svo burt með allan þenna fjesjóð, en sendi syni sínum aptur fjóra ríkisdali, sem voru nett vafðir inn í pappírsblað. Þeir, sem sáu þenna skeink, fóru að spottast að drottníngunni, og sögðu hvað hún skammaðist sín ekki að senda fjóra ríkisdali fyrir þá dýrgripi, sem væru meíra verðir enn mörg þúsund ríkisdala, en konúngssonurinn rak þá útaf dyrunum frá sjer, og sagði þeir væru furðudjarfir, að tala óvirðulega um hana móður sína. Drottníngin sagði þá við Hjörvarð konúng: kerlíng þessi, sem hann Trausti hjálpaði á fætur, hlýtur að vera stórauðug, það er bezt við förum á morgun að finna hana, en við skulum ekki láta hann Trausta fara með okkur, heldur hann bróður hans, því jeg vil ekki að hún komist of mikið í vinskap við hjervilluna hina, sem ekki hafði vit á að halda gersemunum sínum. Síðan skipaði hún að fága vagnana og fá hesta til láns, því hún hafði látið selja alla konúngsins hesta, þar henni þótti kosta ofmikið að ala þá. Tveir vagnar voru teknir til ferðarinnar, annar var fylltur með lækna og sárameðöl, en í hinum voru konúngur, drottníng og Auðun sonur þeirra. Þegar þau komu að hreisinu, sem kerlíng var í, sagði drottníng henni, að hún væri komin til að biðja fyrirgefníngar á gapaskapnum skjaldsveinsins hans Trausta. Það kemur allt af því, sagði hún við konukindina, að hann sonur minn hefur ekki vit á að velja sjer góða sveina, en jeg skal reka hann til að láta burt úr vistinni fólið það, sem yður gjörði mein. Drottníng sagðist líka vera komin með þá beztu lækna, sem til væru í öllu konúngsríkinu, til að græða fótinn á henni. En konan svaraði, að sjer liði vel í fætinum, og bæri sjer auðmjúklegast að þakka það miskunarverk, sem drottníng gjörði að líta til svo fátækrar konuskepnu, sem hún væri.

Ekki svo fátæk kona! svaraði drottníngin, því við vitum mikið vel, að þjer eruð sú, sem hafið gefið honum Trausta syni mínum fjölda af gimsteinum og dýrgripum. Í sannleika að segja, svaraði kerlíngin, jeg hef ekki gefið konúngssyninum nema fallegar glertölur og nokkrar smíðar af gylltu látúni, og jeg á enn eptir nokkrar af þeim, ef yðar hátign mætti þóknast þær. Það vil jeg hjartans fegin, svaraði drottníngin, og hoppaði í henni hjartað af feginleika hversu kerlíngin væri heimsk og af því að fá gimsteinana. Hún tók á móti þessari gáfu, sló kerlíngu gullhamrana, og beiddi hana að heimsækja sig, líka hrósaði hirðfólkið þessari góðu konu, hver í kapp við annan eptir dæmum konúngs og drottníngar. Drottníng spurði hana, hvað aldurshá hún væri? Jeg er sextug, svaraði kerlíng. Ekki er á yður að sjá, að þjer sjeuð yfir fertugt, svaraði drottníngin, og að vísu megið þjer enn nú hugsa uppá að gipta yður, þjer eruð ekki farnar að gángast mikið fyrir enn þá. Auðun konúngsson, sem hafði verið ílla uppalinn og vaninn, hló uppí opin augun á kerlíngu, þá hann heyrði þetta, og sagði sjer skyldi vera gleði að mega dansa í brúðkaupi hennar, en sú góða kona ljet eins og hún skildi ekki að hann hafði hana að háði. Þegar er drottníng var heim komin, ljet hún kalla til sín smiði og ráðfæra sig hjá þeim um þessa gimsteina og dýrgripi, sem hún hafði feingið hjá kerlíngunni, en er þeir reyndu þá með konst sinni, fundu þeir, að þetta var ekki annað enn fagrar glertölur og látún, Drottníngin gat ekki ráðið sjer fyrír ofsa bræði. Kerlíng þessi má vera galdranorn, sagði hún, hún hefur ætlað að gabba mig, en jeg skal láta drepa hana. Hún ljet kalla saman dómendur til að dæma kerlíngu líflausa; en hann Vakur, sem heyrði allt þetta, hljóp til kots

kerlíngar, til að segja henni að forða sjer. Sæll vertú kerlíngarsveinn! sagði hún við hann, því öfundarmenn hans voru búnir að velja honum það háðúngar nafn eptir að hann hafði hjálpað kerlíngunni úr saurnum. Æ skepnan mín! sagði Vakur við hana, flýttú þjer og fel þig í húsi föður míns, hann er góður maður, sem með glöðu geði mun skjóta yfir þig skjólshúsi; en ef þú ert kyrr heima í kotinu, þá er í ráðagjörð að senda híngað stríðsmenn, sem eiga að grípa þig og draga til lífláts. Haf þú góða þökk fyrir þitt tilvik, svaraði kerlíngin, en jeg hræðist ekki ílsku drottníngar, og mun geta svo farið að ráði mínu, að einginn þekki mig eða nái mjer. En, jeg á að borga þjer skuld fyrir hann Trausta. Eða hefur hann ekki tekið 4 ríkisdali til láns hjá honum föður þínum? Hann er búinn að gjalda þá, svaraði Vakur, því hann veit að það er höfðíngjunum skömm, að borga eigi skuldir sínar; hann fjekk honum þá sömu 4 ríkisdali, sem drottníngin gaf honum. Vel veit jeg það, sagði Borghildur, en jeg veit einnig hvað sárt konúngssyni fjell, að hann gat ekki látið það vera meira, því hann veit að konúngbornir höfðingjar eiga að borga mannlega, og það er sú skuld, sem jeg ætla þjer að gjalda. Tak við pýngju þessari, sem er full af gullpeníngum og færðu hana föður þínum, því jeg veit hann muni ekki neyta þess, nema til að gjöra gott með. Kerlíng bjó sig þegar öðruvísi og fór burt, en Vakur færði pýngjuna föður sínum, og beiddi hann þessu að leyna.

Meðan á þessu stóð þóttust dómararnir, sem drottníng hafði samankallað til að dæma kerlínguna, í miklum vanda staddir, þeir svöruðu drottníngunni: hvernig getið þjer ætlazt til af okkur, að við dæmum þessa konukind, hún hefur ekki svikið yðar hátign. Hún hefur sagt að hún væri fátæk kona, sem

einga dýrgripi hefði að veita. Drottníngin varð æfareið, og sagði þeim: ef þið dæmið ekki þessa ólukku kerlíngu, sem hefur gabbað mig, og komið mjer til að kosta miklum peníngum til einkis uppá að fá hesta til láns, og borga læknum ómak þeirra, þá skuluð þið fá þess að iðrast, þó seinna sje. Dómendurnir hugsuðu með sjálfum sjer: drottníngin er vondskufull kona, ef við hlýðum henni ekki, þá finnur hún uppá eitthvert bragð að fyrirkoma okkur, það er betra að kerlíngin deyi enn við. Allir dómararnir dæmdu þess vegna, að kerlíngin hefði farið með svik og galdra, og ætti fyrir þá sök að brenna á björtu báli. Eigi var nema einn, sem sagðist heldur vilja láta brenna sjálfan sig, enn dæma saklausan mann. Fáum dögum þar eptir setti drottníngin til falsvotta, sem báru, að þessi dómari hefði talað ílla um hana, hann var því dæmdur af embætti, og hefði með konu og börnum neyðst að fara á vergáng, ef Vakur hefði ekki feingið mikið fje úr píngjunni hjá föður sínum, og gefið þessum dómara, hann rjeði honum og, að fara úr landi burt, svo drottníngin næði ei til að gjöra honum meira íllt. Vakur var enn sem fyr hússbónda hollur, hann komst að mörgum leyndarmálum, en þar hann var ráðvandur pilltur, sagði hann aldrei eptir neinum það, sem nokkrum gat orðið að meini, og ljet á eingu bera, nema því, sem kunni að vera hússbónda sínum til gagns. Einusinni varð hann þess var, að drottníngin sagði við mann sinn: Mikil kvöl er það fyrir okkur að hann Trausti skuli vera eldri sonur okkar; við græðum nokkurnveginn fje, en hann eyðir því öllu þegar er hann verður konúngur. Hann Auðun litli er samheldinn, jeg er viss um, að hann bætti við, ef hann ættí fyrir arfi okkar að ráða. Er ekki vegur til að gjöra hann Trausta arflausan? Við skulum sjá til, svaraði kon-

úngur, en ef við getum það ekki, þá skulum við grafa niður auðæfi okkar, svo hann sólundi þeim ekki. Vakur heyrði einnig til hirðmanna, sem töluðu ílla um Trausta, en hrósuðu honum Auðunni í áheyrn konúngs og drottíngnar, til að koma sjer vel við þau, en þegar þeir geingu frá þeim, og komu til hans Trausta, sögðu þeir honum, að þeir hefðu tekið málstað hans hjá konúngi og drottníngu. En Vakur hafði sagt konúngssyni allan sannleikann, svo hann hló í huganum að þessum mönnum og fyrirleit þá. Í hirðinni voru fjórir herrar, mikið ráðvandir menn, þeir tóku málstað Trausta konúngssonar, þegar hann var ekki við, en þeir grobbuðu aldrei af því, þvert á móti áminntu þeir hann sífeldlega til að elska konúnginn og drottnínguna og vera þeim hlýðinn. Þar var konúngur í nágrenninu, er sökum áríðandi vandamáls þurfti að gjöra sendiboða á fund Hjörvarðar konúngs. Drottníngin eptir sinni vísu vildi ekki að sendiboðarnir sæu Trausta konúngsson. Hún skipaði honum því, að fara á eitt stórbú, sem konúngur átti, svo að, sagði hún, þú getir verið þar í hússbónda stað, þegar sendiboðarnir fara að skoða bú þetta, eins og jeg er viss um þeir munu vilja. Þegar Trausti var burtfarinn, fór drottníng að búa allt til, sem þurfti til að taka veglega móti sendiboðunum, þó svo, að það skyldi kosta sem minnst. Hún tók gamallt flöjelspils, sem hún átti, og ljet gjöra úr því bakkurl í kjóla handa Hjörvarði konúngi og Auðuni syni sínum, en fyrirboðúngana ljet hún gjöra úr nýju flöjeli, því hún hugsaði þeir feðgar mundu sitja í hásætum sínum, og þá sæi einginn bakboðúngana. Til að gjöra klæðnað þenna þess glæsilegri, tók hún glertölurnar, sem kerlíngin hafði gefið henni, og brúkaði þær í staðinn fyrir knappa á kjól konúngsins og Auðunar

sonar síns, því, sagði hún, þær eru fagrar og fallegar tillits eins og gimsteinar, og þareð jeg blekktist á þeim, þá sjá ekki sendiboðarnir, sem snöggvast koma að konúngs hásætinu annað, enn það sjeu mestu gersemar og gimsteinar, líka gjörði hún úr nokkrum tölunum handa sjálfri sjer hálsfesti, og brúkaði sumar fyrir erma-knappa og sumar í laufaprjóns-knappa, því hún tímdi ekki að brúka rjetta gimsteina, sem af smiðanna óvarlegri meðferð hefðu kunnað að gallast. Þau glóuðu öll í þessu skarti. Konúngur og drottníng settust bæði i hásæti en Auðun konúngsson sat skör lægra. En sem sendiboðarnir komu nær hásætinu og skyldu kyssa hönd konúngs og drottníngar, sáu þeir að þau voru alsett með glertölum, og hugsuðu að Hjörvarður konúngur hefði búið sig svo hæðilega, til að sneipa og vanvirða þar með konúng þeirra og herra, fóru því strax út aptur í bræði, og sögðu að konúngur þeirra skyldi sýna, að hann væri einginn gler-talna konúngur. Hvernig sem þeir voru beðnir að koma aptur til viðtals, tjáði það ekki, heldur snjeru þeir strax þeim aptur í sitt land. Hjörvarður konúngur og drottníng hans sátu eptir verr enn sneipt og full af bræði. Það er hann Trausti, sem svona hefur leikið á okkur, sagði hún við konúnginn, þegar þau voru einsaman, hann komst fyrst í kunníngsskap við norn þessa. Við verðum að gjöra hann arflausan, en gefa honum Auðuni ríkið eptir okkur, Það samþykki jeg glaður og fullkomlega, svaraði konúngurinn. Þau ljetu allstaðar leita að kerlíngunni, til að láta brenna hana eptir dóminum, en hún fannst hvorgi, hvað þeim stórlega sveið. Ráðríkur konúngur, sem sendt hafði sendiboðana til Hjörvarðar konúngs, áleit að þessi hefði viljað gjöra sjer háðúng með talnabúníngnum, ásetti sjer því að

hefna þess, og bauð honum út til stríðs. Hjörvarði datt í fyrstu allur ketill í eld, því hann var huglaus, og hræddur hann mundi missa lífið, en drottníngin sagði, hann skyldi ei setja þetta á sig; við skulum, sagði hún, senda hann Trausta, og setja hann yfir stríðsherinn, en láta eins og við gjörum honum það til æru; hann er gapi, sem hleypur út í opinn dauðann, og þá getur hann Auðun síðan feingið konúngs ríkið og eignir okkar eptir okkur. Konúngi þótti þetta óskaráð, kallaði Trausta heim aptur, gjörði hann að æðsta hershöfðíngja yfir öllu herliðinu, og til þess að gefa honum enn meira tækifæri til að voga lífi sínu, fjekk hann honum í hendur fullkomið vald, að heyja stríð eður semja frið. Þegar Trausti var kominn á landamerki á konúngsríki föður síns, ásetti hann sjer að bíða þar óvinanna, en tók sjer á meðan fyrir höndur að byggja þar kastala hjá þreyngslum nokkrum, sem láu á vegi óvinanna. Einusinni, þá hann horfði á störf liðsmanna sinna, sókti hann þorsti, og þar hann sá hús eitt standa á hæð nokkurri þar skamt frá, fór hann þángað til að fá sjer að drekka. Hússbóndinn í húsinu, að nafni Ásmundur, gaf honum að drekka, en í því konúngssonur fór út úr húsinu aptur, gekk þar inn stúlka svo fríð, að hann þóttist aldrei þvílíka sjeð hafa; hún hèt Ásdís dóttir þessa Ásmundar, og varð konúngssonur svo inntekinn af elsku til hennar, að hann kom opt síðan í þetta hús, og gjörði sjer sitt til erindis í hvort sinn. Hann talaði opt við Ásdísi, og þar hann fann, að hún var ráðvönd og flugskörp, sagði hann með sjálfum sjer: ef jeg mætti ráða, skyldi jeg eiga hana Ásdísi; að sönnu er hún ekki konúngborin, en hún er svo dygðauðug, að hún verðskuldar að verða drottníng. Dag frá degi óx elska hans til þessarar stúlku, og seinast rjeði hann af,

að skrifa henni til. Ásdís, sem vissi vel, að ráðvandar stúlkur eiga aldrei að taka móti brjefum frá karlmönnum, bar brjefið, sem hún feingið hafði frá konúngssyni, óupprifið til föður síns. Ásmundur, sem af brjefinu sá, að Trausti elskaði Ásdísi dóttur sína spurði hana, hvort hún hefði elsku til konúngssonar? Ásdís, sem aldrei hafði skrökvað alla sína lífstíð, sagði við föður sinn, að henni sýndist konúngssonurinn vera ráðvandur maður, og hún hefði ekki getað að því gjört, að sjer væri vel í þokka við hann. En, sagði hún enn framar, jeg veit vel, að hann getur ekki átt mig, þar jeg ei er konúngsdóttir; þar fyrir bið jeg yður að senda mig til hennar móðursystur minnar, sem á heima lángt hjeðan í öðru landi. Faðir hennar ljet hana fara burt strax sama daginn, og konúngssyni þótti svo mikið um það að missa hana, að hann lagðist veikur. Ásmundur sagði honum: Herra minn! mjer geingur nærri að gjöra yður á móti, en þar eð þjer elskið dóttur mína, svo munuð þjer ei vilja hennar ólukku. Þjer vitið, að allir fyrirlíta eins og skarnið, sem þeir gánga á, þá stúlku, sem líður þeim karlmanni að koma til sín, er elskar hana, en ætlar sjer þó ei að giptast henni. Heyrðu, Ásmundur! svaraði konúngssonurinn: jeg vil heldur deyja enn brjóta móti þeirri hlýðni og virðíngu, er jeg á föður mínum að sýna, í því að gipta mig ekki án hans leyfis, en lofaðu mjer því, að geyma dóttur þína, jeg lofa því aptur á mót að eiga hana, þegar jeg verð konúngur, og jeg skal láta mèr lynda, að sjá hana aldrei þángað til. Undir eins og þeir voru þetta að tala, kom þar að kona í silkikirtli, hlaðbúnum í skaut niður, og var það Borghildur kerlíng, ekki svo ellileg enn. Konúngssonur undraðist mjög svo, því hann hafði aldrei sjeð hana í þeim búnaði. Jeg er kerlíng, sem þjer

hjálpuðuð, sagði hún við konúngssoninn, þjer eruð bæði svo ráðvandur maður, og Ásdís svo vönduð stúlka, að jeg tek ykkur bæði undir mína vernd og varatekt. Þið munuð eigast að tveggja ára fresti, en þángað til liggur margt fyrir ykkur, sem þið verðið að reyna. Ásmundur er bróðir konúngs þess í hvers ríki jeg hef dvalið. Rógberendur spilltu frændsemi þeirra og vináttu, svo Ásmundur varð að stökkva úr landi, skal jeg launa þar með konúngi landsvist mína, að koma upp öllum sannleikanum og sætta þá bræður, en koma því til leiðar, að konúngur, sem er barnlaus og nú mjög til ára sinna, gefi Ásmundi ríkið eptir sinn dag, en jeg skal taka Ásdísi til mín, og ala hana svo upp, að hún verði bæði sjer og yður til sóma. Konúngsson gladdist mjög af þessu loforði, og ásetti sjer að vinna mikla frægð til að þóknast henni Ásdísi þar með. Ráðrikur konúngur kom síðan og bauð Trausta til bardaga, en Trausti hafði eigi einasta sigur, heldur tók einnig Ráðrík konúng til fánga. Margir rjeðu Trausta þá, að taka konúngsríkið frá honum, en hann svaraði: ekki vil jeg gjöra það; þegnarnir í hverju einu konúngsríki vilja heldur sinn eiginn konúng enn annan útlendan, þeir mundu gjöra upphlaup, og setja konúng sinn aptur til ríkis. Ráðríkur mundi heldur aldrei gleyma fángelsi sínu, og svo yrði sífeldt stríð, sem gjörði báðar þjóðirnar ólukkulegar. Þar þvert á móti vil jeg gefa Ráðríki frelsi, og heimta ekkert fyrir það; jeg veit að hann er höfðinglega lyndur, og verður vinur vor. Hans vinátta verður okkur til meira gagns enn ríki það, sem vjer eigum ekkert í, og þar með sporna jeg á móti því stríði, er kosta mundi ótal manna líf. Það, sem Trausti hafði fyrirsjeð, kom líka fram. Ráðríkur konúngur varð svo glaður af höfðíngsskap þessum að hann sór, að halda eilífa vináttu við Hjörvarð konúng og son hans.

Hjörvarður konúngur varð afarreiður þá hann frjetti, að sonur sinn hefði gefið Ráðríki konúngi frelsi, en ekki tekið þar fyrir ærna peninga, og hvernig, sem konúngssonur afsakaði sig með, að konúngur hefði skipað sjer að ráða, hvort hann vildi fríði eða stríði, vildi konúngur þó ekki fyrirgefa honum það. Trausti elskaði bæði og virti föður sinn, fór þessvegna í einn sinn lystigarð, hvar hann lagðist í sótt af því hann hafði misþóknast föður sínum. Þángað kom til hans föðursystir hans Borghildur, og sagði honum, að drottníng væri búin að tala svo um fyrir konúnginum föður hans, að Hjörvarður konúngur ætlaði að láta dæma hann hálfvita, sem ekki hefði haft skynbragð á að nýta sjer sigurinn yfir Ráðríki konúngi, ellegar svikara að öðrum kosti, sem af ótrúmennsku við föður sinn hefði kauplaust sleppt stríðsfánga sínum; en hvort, sem raunar væri, sagðist drottníng ekki hafa eina stund ró, fyrr enn búið væri að gjöra Trausta arflausan, svo ýngri bróðir hans feingi konúngsríkið. Konúngurinn hefði samþykkt þetta allt og lofað, að daginn eptir skyldi hann láta Trausta í bönd og fjötra, og láta gánga dóm yfir hann. Af þessum tíðindum varð Trausti svo hræddur, að hann kenndi sjer þá eingrar sóttar, en bjó sig til að flýa burt, en áður hann skyldi stíga á bak hesti sínum, sagði Borghildur kerlíng: jeg er orðin þreytt á vondsku hennar móður yðar, og gúnguskap hans föður yðar. Mjer er í sjálfrar valdi að fá yður í hendur mikinn stríðsher; takið þau nú strax til fánga í konúngshöllinni og kastið þeim í díblissu, ásamt með Auðuni syni þeirra, síðan skuluð þjer setjast að ríkjum og eiga hana Ásdísi. Föðursystir mín góð! svaraði Trausti: þjer vitið að jeg elska hana Ásdísi meir enn lífið í brjósti mjer, en hversu, sem jeg óska mjer að eiga hana, skal jeg þó aldrei gleyma skyldu

minni við föður og móður, og jeg vil heldur láta lífið hjer þegar í stað, enn grípa til vopna móti þeim. Mælið manna heilastur svaraði Borghildur, jeg ætlaði að reyna dygð yðar, en ef þjer hefðuð tekið móti tilboði mínu, þá hefði jeg ekkert viljað vita af yður að segja; en þar þjer höfðuð hugprýði til að standa móti þeirri freistni, svo skal jeg aldrei slíta vináttu við yður, og jeg skal sýna yður merki til þess: takið nú á yður gamalls manns gerfi, og verið viss um, að einginn skal þekkja yður í þeim búnaði; ferðist þannig um allt yðar konúngsríki, og sjáið svo með yðar eigin augum alla þá rángsleitni, sem í frammi er höfð við yðar undirsáta, svo þjer getið þess betur ráðið þar á bót þegar þjer sjálfir verðið konúngur. Vakur skal verða eptir hjá konúngshirðinni og láta yður vita allt hvað viðber, meðan þjer eruð burtu. Konúngssonurinn gjörði eins og kerlíng hafði fyrir hann lagt, og sá marga þá hluti, sem hárin reistust upp við á höfði honum. Hann sá að rjettlætið var þeim falt, er bezt bauð við, hirðstjórarnir rupluðu almúgann, höfðíngjarnir fóru ílla með lítilmagnann, og allt þetta var gjört í konúngsins nafni. Að tveimur árum liðnum skrifaði Vakur honum til, að nú væri konúngur faðir hans dauður, drottningin hefði viljað láta krýna ýngri son sinn, en þeir fjórir höfðíngjar, sem voru góðir menn, hefðu staðið á móti, af því þeir hefðu heyrt að Trausti væri enn nú á lífi; drottníngin hefði þess vegna flúið með syni sínum í annað landshjerað, og komið því til að grípa til vopna. Trausti kastaði þá skeggi og hækjum, fór í höfuðborg ríkisins, og var þar tekinn til konúngs. Síðan skrifaði hann drottníngunni, móður sinni, til virðíngarfullt brjef, og beiddi hana að koma ei tvídrægni á stað í ríkinu, en bauð henni stórar tekjur árlega, bæði handa henni

og Auðuni bróður sínum. Drottníngin, sem búin var að safna miklum her, skrifaði honum, að konúngsríkið og kórónuna skyldi hún hafa, og henni ætlaði hún að svipta af höfði hans. Þetta brjef kom þó Trausta ekki til að gjöra neitt á móti þeirri virðíngu, sem hann var móður sinni skyldugur um, en þegar þessi vonda kona heyrði, að Ráðríkur konúngur kom vin sínum Trausta til hjálpar, með mikinn her, neyddist hún til að gánga að þeim boðum, sem þessi sonur hennar hafði gjört henni. Trausti konúngur settist þá að löndum með friði og farsæld, og eignaðist Ásdísi sína, öllum hans þegnum til gleði, sem þótti vænt um að hafa svo fríða og góða drottníngu. Strax eptir að Trausti var konúngur orðinn, fór hann að lagfæra það, sem ábóta var vant í ríki sínu, en til að koma því í lag, skipaði hann, að allir þeir, sem nokkurn órjett hefðu að kæra, skyldu vera velkomnir til sín, hann bannaði hirðsveinum sínum að bægja nokkrum manni frá, sem við hann vildi tala, og jafnvel þó förumaður væri: því, sagði konúngurinn, jeg er faðir allra minna þegna, fátækra svo vel sem ríkra. Í fyrstu hræddist hirðfólkið ekki þetta fyrirtæki, það sagði: konúngurinn er úngur, þetta stendur ekki leingi; hann fær innan skamms smekk á sællífi, og þá yfirlætur hann hverjum, sem hann ann vel, að hafa stjórnina. En þeim varð ekki að því, Trausti kom tíð sinni svo vel fyrir, að hann hafði tíma til alls. Þar að auki ljet hann sjer annt um vera, að straffa þá fyrstu, sem fundnir voru í, að hafa gjört rángt, svo einginn þorði síðan að yfirtroða skyldu sína. Hann hafði gjört út sendiboða til Ráðríks konúngs, til að þakka honum fyrir þá hjálp, er þessi hafði sent honum. Konúngur sá ljet skila til hans, að sjer skyldi vænt um þykja ef þeir finndust enn aptur, og skyldu þeir

mætast á landamerkjum beggja ríkjanna. Þar allt var þá í friði og spektum innanríkis hjá Trausta, ljet hann sjer það vel lynda, allrahelzt þar það átti vel við áform hans, er hann hafði ásett sjer að prýða, sem bezt hann gæti, hús það, í hverju hann hafði í fyrsta sinn sjeð Ásdísi sína. Hann sendi þessvegna tvo af embættis-mönnum sínum á undan sjer, til að kaupa öll þau kot, sem þar voru í kríng, en hann bannaði þeim að neyða nokkurn mann til að selja, því að, sagði hann, jeg er ekki konúngur til að kúga þegna mína, og þar að auki á hver að ráða sínu, þó lítið sje. Þegar Ráðríkur konúngur kom til landamerkjanna, mættust þar hirðir beggja konúnganna, og voru hvorirtveggju veglega búnir. Með Ráðríki konúngi hafði komið einka dóttir hans Sigurleif, sem var hin fríðasta stúlka i heiminum, eptir að Ásdís var gipt orðin, hún var líka mesta góðkvendi. Trausti konúngur hafði með sjer konu sína og systkynabarn sitt, dóttur Alreks konúngs, er hjet Dagbjört, sem bæði var fríð og dygðauðug, en þar til flugskörp. Þar eð nú svo margt vinafólk var samankomið, sögðu báðir konúngarnir, að bezt væri að brúka hispurslausa og frjálslega umgeingni, en lofa mörgum höfðíngjum með kvennfólki þeirra að sitja að veizlu með báðum konúngunum og konúngadætrunum; en til að burtrýma öllu því, sem kynni að hindra alúð þessa, skyldi einginn nefna konúngana *Yðar Hátign,* heldur skyldi hver, sem það gjörði, gjalda einn ríkibánkadal, í fjevíti. Þegar menn höfðu setið til borðs drykklángan tíma, kom þar inn gömul kerlíng nöturlega til fara. Trausti og Vakur þekktu hana þegar, og risu upp á móti henni, en þar hún bendti þeim með augunum, heldu þeir hún mundi ei vilja láta þekkja sig. Þeir sögðu þá við Ráðrík konúng og konúnga dæturnar, að þeir beiddu

leyfis að leiða þar inn eina góða vinu sína, sem ætlaði að sitja til borðs með. Kerlíngin gjörði sig heimakomna, og sletti sjer niður í ljena-stól, er stóð við hliðina á Ráðríki konúngi, en einginn hafði áður þorað að setjast í þann stól, af virðíngu fyrir konúnginum. Hún sagði til konúngsins: „Þareð vinir vina vorra eru líka vorir vinir, svo ætla jeg að biðja yður að misvirða ekki þó jeg víki kunnuglega að yður.“ Ráðríkur var af lunderninu nokkuð stór uppá það, og þótti fyrir, að kerlíngin skyldi færa sig svo uppá skaptið við sig, ljet þó ei á því bera. Konu-kindinni hafði verið sagt frá, hvaða víti gjalda átti í hvort sinn, sem sagt væri, Yðar Hátign, samt var hún naumast sezt til borðs, fyr enn hún sagði við Ráðrík konúng: „Yðar Hátign undrast yfir því, að jeg gjöri mig svo heimakomna, en það er inngróinn vani fyrir mjer, og jeg er orðin svo gömul, að jeg get ekki hjeðan af farið að breyta háttalagi mínu, og þar fyrir bið jeg Yðar Hátign að halda mjer til góða.“ „Fè-vítið!“ kallaði konúngurinn, „þjer eigið að gjalda 2 rdli!“ „Láti Yðar Hátign sjer ekki þykja fyrir,“ svaraði kerlíngin; jeg hafði gleymt, að hjer átti ekki að nefna Yðar Hátígn, en Yðar Hátign aðgætir ekki, að í því þjer bannið að nefna Yðar Hátign, svo minnið þjer alla á, að brúka samt þá sömu virðíngu, er þjer látizt til síðu setja. Það er eins og þeir, sem látast ætla að vera alúðlegir, og segja við þá, er þeir bjóða til borðs, þó þeir sjeu lægra stands enn húsráðandinn: drekkið mjer til. Ekkert er óviðurkvæmilegra enn slík alúð, því það er eins og þeir segðu við gest sinn: mundú til þess, að þú ert ekki sá maður, sem mátt drekka mjer til, ef jeg gæfi þjer ekki leyfi til þess. En það, sem jeg tala um þetta, kemur ekki af því jeg ætli að skjóta mjer undan fje-vítinu. Jeg á að

gjalda 7rdl. hana! þar eru þeir". Undir eins tók hún upp úr vasa sínum gull-ofna silki-pýngju, og lagði 7rdli fram á borðið. Ráðríkur konúngur vissi ei hvort hann átti að hlæja að því, sem kerlíngin sagði, eða fyrtast. Hann var vanur að vera snöggur uppá lagið, hversu lítið, sem honum þótti fyrir, og hjer var honum farið að hitna um hjarta-ræturnar; samt á-setti hann sjer að halda sjer í stilli, vegna vináttu við Trausta konúng, snjeri öllu upp í spaug, og sagði við kerlínguna: „Talaðu eins og þú vilt, fuglinn minn! hvort sem þú segir Yðar Hátign eða ekki, þá skal jeg þó ætíð vera einn af vinum þínum". „Jeg vona það". svaraði kerlíngin, „og þess vegna hef jeg sagt yður það, sem mjer bjó í skapi og svo skal jeg ætíð gjöra, þegar jeg sje færi til þess, því einginn getur gjört vin sínum betra til, enn vara hann við því, sem honum þykir áfátt í fari hans." „En þú skyldir samt gjöra það varlega," sagði Ráðríkur konúngur, „því stundum liggur svo á mjer, að jeg er ei ljúfur á að taka móti slíkum viðvörunum." „Játið þjer, konúngur góður!" svaraði kerlíngin, „að núna er ekki lángt frá því, að svo liggi á Yður, og þjer vilduð mikið tilgefa, að þjer gætuð vísað mjer burt hvort á land, sem þjer vilduð. Svona eru þær hetjurnar okkar! þeir vildu ekki fyrir kost og mun þola að uppá þá væri sagt, að þeir hefðu flúið fyrir nokkrum sínum óvin, og gefið honum sigurinn í hendur, fyr enn þeir hefðu reynt til að berjast og verja hendur sínar, en þeim þykir ekkert fyrir að játa dugleysi sitt í að mótstanda reiðinni, eins og það sje ekki enn svívirðilegra, að láta geðshræríngar sigra sig, heldur enn þann óvin, sem sækir á með sverði, og sem ekki stendur ætíð í voru valdi að sigra."

„En förum nú að tala um eitthvað annað þar

yður er þetta ei geðfellt. Leyfið mjer að smá-sveinar mínir megi koma inn, þeir hafa hjá sjer lítilræði, sem jeg ætlaði að gefa gestunum.“ Undir eins komu þar inn 4 dáfríðir piltar, kertasveinar hennar, sem hver fyrir sig bar körf fulla af dýrmætum gripum. Í því sama leit Ráðríkur konúngur til kerlíngarinnar, og undraðizt mjög, þá hann sá hún hafði kastað tötrunum utanaf sjer og var þá tígugleg bæði í sjón og búnaði. „Æ náðuga frú!“ sagði hann við Borghildi konúngsdóttur, „nú þekki jeg, þjer munuð vera sú, sem gler-tölurnar voru frá, er jeg varð svo bráður við; forlátið mjer að jeg sýndi yður oflitla virðíngu, jeg hafði ei þá æru að þekkja yður.“ „Það á að kenna yður, að þjer aldrei eigið að sýna neinni manneskju virðíngarleysi,“ svaraði Borghildur honum, „en, konúngur minn! til að sýna, að jeg erfi það ekki við yður, vil jeg gefa yður tvo hluti. Sá fyrri er bikar þessi, hann er gjörður úr einum einasta kristall, en það er þó ei það, sem mest mælir fram með honum. Í hvort sinn, sem þjer finnið á yður að þjer ætlið að reiðast, þá hellið á hann vatni, og drekkið svo út í þremur teigum, og þá skulið þjer finna að bræðin rjenar, en skynsemin fær yfirráð; ef þjer brúkið vel þenna fyrri hlut, þá gjörið þjer yður verðugan hins síðara. Jeg veit að þjer elskið konúngsdótturina Dagbjörtu, þjer fallið henni líka vel í geð, en hún er hrædd við reiðigirni yðar og vill ekki eiga yður, nema þjer brúkið vel þenna bikar.“ Ráðríkur konúngur undraðist, að Borghildur þekkti svo vel lunderni hans og hugarfar, játaði að hann vildi álíta fyrir sína lukku, að eignast hana Dagbjörtu, en mjer stendur eitt í vegi, sagði hann, þó jeg bæri lukku til að hún Dagbjört konúngsdóttir vildi játast mjer. Jeg á bágt með að fá af mjer að gipta mig í annað sinn, því jeg vil ei

sitja henni dóttur minni í ljósi svo hún missi konúngsríkið. Það er vel talað, sagði Borghildur, og þeir feður eru fáir, sem neita sjer sjálfum um, að fullnægja sínum tillmeigíngum vegna velferðar barna sinna, en látið þetta ekki hindra yður. Konúngurinn af Járnbera landi, sem var einn af vinum mínum, er nýdauður barnlaus, hann hefur eptir mínum ráðum gefið konúngsríki sitt eptir sinn dag honum Vakri. Að sönnu er þessi ekki konúngborinn, en hann er samt verðugur að vera konúngur. Hann elskar dóttur yðar Sigurleifu, og hún er verðug þess að verða laun fyrir hollustu og trygð hans. Ef faðir hennar samþykkir þetta, svo er jeg viss um, að hún mun hlýða honum í því, og láta sjer ekki fyrir þykja. Sigurleif roðnaði við, þá hún heyrði þetta, og satt var það, að henni hafði sýnzt Vakur elskuverður, og henni hafði verið yndi, að heyra sagt frá, hvað hollur hann hefði verið hússbónda sínum. Náðuga frú! svaraði Ráðríkur konúngur, við erum farin að segja hvert öðru hvað í brjósti býr. Mjer þykir mikið til hans Vakurs koma, og ef vaninn bindi ekki hendurnar á mjer, þá þyrfti jeg ekki fyrst að sjá kórónu á höfði honum, til að gefa honum dóttur mína, en manneskjurnar og allrahelzt konúngarnir verða að gánga eptir mörgum viðteknum vana; nú væri það þvert á móti einum vananum, ef jeg gæfi dóttur mína sljettum og rjettum eðalmanni, þar hún er komin af þeim stærstu ættum, sem til eru í heiminum, því þjer vitið, að við forfeður mínir höfum setið að löndum í 300 ár. Konúngur minn! svaraði Borghildur, þjer vitið ekki af því, að ættin hans Vakurs er fullkomlega eins gömul og yðar, því þið eruð frændur, af sínum bróðurnum kominn hver, og þó ætti Vakur undan að gánga, því hann er kominn af eldra bróðurnum, en þjer af þeim ýngra.

Ef þjer getið sannað það, sagði Ráðríkur konúngur þá sver jeg yður, að jeg skal gipta honum Vakri dóttur mína, og líka svo þótt undirsátar konúngsins sæla á Járnbera landi aldrei undirkasti sig hans stjórnun. Það er hægast að gjöra, að sanna hvað gömul ættin hans Vakurs er, svaraði kerlíng, Hann er kominn af honum Elísa, eldra syni hans Japhets Nóasonar, en þjer eruð kominn af þeim ýngra syni hins sama Japhets. Einginn gat haldið sjer frá að hlæa, þegar þeir sáu með hvaða alvöru-svip Borghildur spaugaði að honum Ráðríki. Hann var líka farinn að bólgna upp af reiði, þegar konúngsdóttirin Dagbjört, sem sat við aðra hlið honum, rjetti að honum kristalls-bikarinn. Hann drakk hann út í þremur teigum, eins og kerlíng hafði fyrirskilið, og meðan á því stóð, hugsaði hann með sjálfum sjer, að sannarlega væru allar manneskjur jafnar að fæðíngunni, þar allir væru af Nóa komnir, og einginn rjettilegur mismunur væri á þeim, nema sá, sem uppeldið og dygðirnar gjörðu. Þegar hann var búinn að drekka út bikarinn, sagði hann við Borghildi konúngsdóttur: jeg er yður vissulega skuldbundinn, náðuga frú! að þjer hafið lagað tvo ókosti hjá mjer í einu, bæði að jeg hef verið stoltur af ætt minni, og líka að jeg hef verið uppstökkur. Mikla krapta hefur bikarinn, sem þjer gáfuð mjer; eptir því, sem jeg drakk, fann jeg að reiðin rjenaði jafnótt, og þánkarnir, sem jeg hafdi á milli teiganna, komu mjer aptur til skynseminnar. Jeg vil ekki svíkja yður, svaraði Borghildur, í bikarnum, sem jeg gaf yður, er einginn kraptur, en jeg vil segja bæði yður og öllum gestunum, sem hjer eru samankomnir, hvaða náttúru vatnið hafði, þá þjer drukkuð það í þremur teigum; einginn skynsamur maður yrði nokkurntíma reiður, ef bræðin gæfi honum tíma til að

hugsa sig um, og ekki allt í einu yfirfjelli hann, en meðan hann er að hella á bikarinn og drekka í þremur teigum fær hann tíð, hann sansar sig, þánkarnir koma, og þegar öll þessi umsvif eru á enda, hefur skynsemin ráðrúm til að sigra tilhneigínguna. Í sannleika, svaraði Ráðríkur henni, jeg hef lært meira í dag, enn alla mína lífstíð. Lukkulegur eruð þjer Trausti, þjer verðið sá mesti konúngur í veröldinni með svo góðri varatekt; enn jeg beiði yður, að láta mig njóta vináttu yðar við frændkonu yðar, svo hún muni til, að hún hefur heitið mjer sinni vináttu. Jeg man það mikið vel, og skal ekki gleyma því, svaraði Borghildur, jeg er líka búin að gefa yður merki til þess og skal halda áfram með það, meðan þjer viljið mínum ráðum framfara, sem jeg vona verði alla yðar lífstíð; en nú skulum við ei hugsa um annað að sinni, enn halda brúðkaup yðar og dóttur yðar Sigurleifar. Í þessu var Trausta konúngi sagt, að þeir embættismenn vildu tala við hann, er hann hafði á hendur falið að kaupa jarðirnar og húsin, sem láu kríngum hús það, er Ásdís drottníng hafði alizt upp í. Hann ljet þá koma fram fyrir sig, og sýndu þeir honum þá málverk yfir prýði þá, er þeir ætluðu að gjöra kríngum húsið. Þeir höfðu ætlazt til þar skyldi vera stór rósa- og trjá-garður með prýðilegum gángrúmum, hvað allt hefði fullkomlega tekizt, ef þeir hefðu mátt brjóta niður einn kofa, sem stóð í einu gángrúminu miðju, og skemdi alla samlíkíngu gángrúmanna innbyrðis. En hvar fyrir tókuð þið ekki burt andstygðar kumbalda þenna, sagði Ráðríkur konúngur við yfirsmiðina og embættismennina? „Herra!“ svöruðu þeir: „konúngur vor hafði bannað okkur að fara hart að nokkrum manni, en þar var einn maður, sem ekki vildi selja okkur hús sitt, jafnvel þó við byðum honum

ferfalt við það, sem húsið var vert.“ Hefði sá fantur verið minn undirsáti, svaraði Ráðríkur konúngur, skyldi jeg hafa látið heingja hann. Þjer hefðuð drukkið úr bikarnum yðar fyrst, sagði Borghildur. Jeg held bikarinn hefði aldrei getað frelsað hans líf, svaraði Ráðríkur, því, er það ekki hræðilegt, að konúngur skuli ei meiga ráða neinu í ríki sjálfs sín, og hann verði að hætta við það verk, sem hann vill hafa fram, af því einhver furturinn er svo þrályndur, sem mætti kalla sig sælan, að hann gæti orðið herra sínum til þóknunar, en nú verður annaðhvort að þvínga hann til að gjöra skyldu sína, eða herra hans verður að hætta sínum ásetníngi. Jeg ætla hvorugt að gjöra, svaraði Trausti konúngur brosandi, og þó skal jeg gjöra kofa þenna að stærstu prýði í mínum trjágarði. Það vil jeg veðjast um að getur skeð, svaraði Ráðríkur, þvi kofaskarnið liggur svo meinlega, að það getur ei annað enn verið þar til baga. Skoðið þjer, hvernig jeg ætla að að fara, svaraði Trausti konúngur: Jeg ætla að láta byggja múr kríngum hús þetta, sem sje nógu hár, til þess að hússbúinn ekki fari upp yfir hann, og inní garðinn minn, en ekki svo háan, að hann geti ei sjeð inní garðinn, því það er ei rjett að innibyrgja hann eins og í fángelsi. Þessi múr skal ná út úr garðinum til beggja hliða, og þar skulu þessi orð vera rituð á með gyltum bókstöfum: *Sá konúngur, sem ljet byggja garð þenna, vildi heldur láta þetta lýti vera á honum, enn vera órjettvís móti einum þegna sinna, í því að taka frá honum hans föðurleifd, til hverrar konúngur sá hafði eingan rjett, nema að hann var voldugri.* Allt hvað jeg sje er mjer til blygðunar, svaraði Ráðríkur, og jeg má játa, að jeg ekki hef svo mikið gjört, sem ímyndað mjer þær hugprýðis dygðir,

sem menn verða miklir af. Já, Trausti konúngur! þessi múr verður prýði á garði yðar, og það sómaverk, sem þjer gjörið í að uppbyggja hann, verður prýði í lífssögu yðar! en náðuga frú! hvar af kemur það, að Trausta konúngi bregður svo hægt og náttúrlega til þessara stór-dygða, sem jeg hef ekki svo mikið sem ímyndað mjer, eins og jeg strax sagði? mikli konúngur! svaraði Borghildur honum: Trausti konúngur er uppalinn af þeim foreldrum, sem höfðu ýmigust á honum, og hann hefur liðið mótmæli síðan hann fæddist í veröldina, hann hefur þess vegna vanið sig til að undirkasta sig annara vilja í öllu því, sem ekki hefur ofmikið á riðið. Vegna þess hann var einkis ráðandi í konúngsríkinu, meðan faðir hans var á lífi, svo gat hann ekki auðsýnt nokkrum neina náð, og þar allir vissu, að konúngurinn hafði í huga að gjöra hann arflausan, svo virtu smjaðrararnir hann ekki svo mikils, að vilja skemma hann, því þeir hjeldu þeir hefðu ekkert að óttast, eða neins að vænta af honum; þeir slepptu honum þess vegna við skikkanlega menn, sem af eintómis skyldu hjeldu sjer til hans, og af umgeingni með þeim hefur hann lært, að sá konúngur, sem ræður einn öllu til að gjöra gott, hefur hendurnar bundnar þegar íllt á að gjöra; að hann stjórnar frjálsum mönnum en ei þrælum; að þjóðirnar hafa ei undirkastað sig sínum líkum, með því að gefa þeim kórónu og konúngsríki, nema til að útvelja sjer þar með feður, verndarmenn laganna og hæli handa fátækum og undirokuðum. Þjer hafið aldrei heyrt talað um þessar stór-dygðir; þjer urðuð konúngur tólf vetra gamall, yðar lærimeistarar, hverjum trúað var til að uppala yður, hugsuðu ekki um annað, enn undirbúa sína lukku með að komast í náð hjá yður; yðar stolt kölluðu þeir höfðíngs-

lunderni, og yðar funa-bræði, að skipta geði sínu; í einu orði: þeir hafa allt híngað til ollað ólukku bæði yðar og yðar vesælu þegna, hverja þjer hafið álitið og farið með eins og þræla, vegna þess þjer hugsuðuð að þeir væru ei til annars í heiminum, enn að þrælka undir yðar vilja, í staðinn fyrir að þjer eruð sannarlega ekki þar til annars, enn að þjóna þeim, vernda þá og varðveita. Ráðríkur konúngur viðurkenndi, að þetta væri satt, sem Borghildur konúngsdóttir hafði sagt; hann lærði skyldu sína, kappkostaði að uppfylla hana, með því að ýfirvinna sjálfan sig, og styrktist vel í þessum ásetníngi af dæmum þeirra Trausta og Vakurs konúnga, hverjir, meðan þeir sátu að ríkjum sínum, hjeldu þeim sömu dygðum, er þeir höfðu frá upphafi haft.

## XV. EKKI ER ALLT SEM SÝNIST.

Jeg kom fyr inn í baðstofuna í kvöld enn jeg var vanur, rjett fyrir dagsetrið, áður enn farið var að kveikja, kom þá Líður litli skömmu þar eptir með mesta hlaupi, og öndina í hálsinum, eins og hann hefði verið eltur. Jeg hafði bannað börnunum að hlaupa, eða elta hvort annað í mirkri, spurði hann því, hví hann hlypi svo ákaft? Hann kom naumast upp orði fyrir einhverju, sem niðri í honum bjó, en þá hann hafði feingið gott andrúm, kom upp hið sanna, því börn mín vita fyrir víst, að þau fá fyrir einga yfirsjón vissara straff, enn ef þau segja ósatt, eða leyna sannleikanum, þegar jeg krefst hans, þetta reyndist þá, að hann hafði sjeð eitthvað óhreint í gaungunum. Jeg ljet hann lýsa því nákvæmlega fyrir mjer, og var það, að í eldhúsgaungunum hefði hann sjeð stórt manns höfuð, andlitið nábleikt og loðið, sem hefði horft inn í

baðstofu-gaungin og tindrað úr því öllu. Jeg spurði hann, hvort hann hefði ei munað til þess, sem jeg hafði opt, og með berum orðum, skipað honum og systkynum hans, að þegar þau þættust sjá eitthvað, skyldu þau strax hægt og stilt gánga til þess og þreifa á því, en Líður minn mátti játa, að þó hann hefði munað til þess, þá hefði hræðslan í þetta sinn svo umspennt sig, að hann hefði strax gripið til fótanna. Jeg ítrekaði þá enn aptur, sem jeg opt áður hafði sagt, að menn ættu ætíð að hugsa, að hvað, sem þeir sæu, skyldu þeir láta vera fyrsta þánka sinn, að það kynni vera náttúrlegt, gæta því að öllum atvikum, til að komast að hvernig ástatt sje. Jeg hef Líður minn, sagði jeg, sjeð marga drauga og ófreskjur á æfi minni, en ætíð reynt, þegar jeg hef farið að athuga þá, að þeir hafa verið einasta missýníngar, og svo vænti jeg nábleika loðna höfuðið þitt sje. Nú skuluð þið öll sjá þetta, hvað það er, og gánga með mjer hægt og stilt; fari ekkert ykkar fram fyrir mig. Þegar við komum fram í gaungin, fundum við eins og Líður hafði sagt, og þar að auk var andlitið mjög bláleitt, en annað augað sást ei, hitt lá útnað út á kinnina. Jeg gekk síðan hægt og hægt, en skipaði nú Líð, að þreifa á þessu andliti, og þá hann þorði ekki, varð Guðmundur litli til, sem þó var ýngri, og þá reyndist, að á baki okkar var gluggi, sem úr hafði verið tekinn skjárinn, túnglskin var bjart úti, frost og heiðríkja, túnglið skein gegnum gluggann á vegginn, sem var móts við, hann var tirjóttur af elli, hafði verið rakur af hláku og slagníngi, í því hörku frost kom, sem hjelaði hann og tirjurnar, hvað, þegar upplýstist af túnglskininu, leit út eins og stórt, nábleikt, loðið andlit, með bláleitum blæ, þar sem ís-kristallarnir vóru, en lítill torfu-snepill allteins

hjelaður stóð út úr veggnum, þar sem líklegt er verið hefði augans staður á myndinni, og svo var þessi óttalegi draugur þá af okkur niður-súnginn, en börn mín hlóu að öllu saman á eptir. Þar eptir, þegar við vorum komin aptur inn í baðstofuna, sagði jeg þeim, að svo hægt, sem verið hefði að komast hjer að sannleikanum, þá væri það opt torvelt, þó einhver náttúrleg orsök kynni að vera missýníngum ollandi, skyldu þau því ætíð hafa mestu varkárni við og athygli þar, sem svo stæði á; og til að innprenta þeim það því betur, las jeg fyrir þeim nokkuð um drauga úr því ypparlega riti um lopt-sjónir, sem finnst í Íslenzka Lærdóms-lista Fèlagsritum 3. bandi, og síðan sagði þeim eptirfylgjandi draugasögu:

Nokkur börn höfðu lært vel lektsíurnar sínar, svo faðir þeirra lofaði, að gjöra þeim það aptur í vil, að sýna þeim draug, og skyldi það skje daginn eptir. Varla vóru börnin komin á fætur fyr enn þau fóru að minna föður sinn á það loforð. Þau biðu allan daginn framundir dagsetur, en aldrei kom faðirinn. Lokins, rjett eptir dagsetrið, kom hann, gekk hægt og alvarlegar enn hann var vanur, og með þýngra svip. Nú! börn litlu, sagði hann, komið þið með mjer, í loptið mitt, en verið þið kyr og stillt, eingin má tala nokkurt orð, og hvort eitt ykkar á að standa í sömu sporum, og jeg segi því. Þið eigið öllsömun að horfa fram á mitt gólfið. Síðan gekk hann hægt og stilt upp stigann, leiddi svo eitt og eitt af börnunum inn í loptið, þar var niða-myrkur, hann setti hvort af þeim á þann stað, hvar það átti að standa. Verðið þið ekki hrædd, sagði hann, því nú kemur draugurinn! í sama augnabliki kom reikur upp úr miðju loptinu, og í honum sýndi sig hrylllileg og óttaleg skepna. Fyrst kom hræðilega stórt höfuð með óskapa stóru parruki, síð-

an hinn parturinn af líkamanum, með miklum hnúð á bakinu, handleggirnir vóru eins og á risa, fæturnir eins og á dvergi, en í hægri hendinni hjelt hann á manns höfði, sem blæddi úr strjúpanum. Þessi ófreskja stóð þar nokkra stund fyrir augunum á þeim, og hvarf síðan smámsaman burtu. Faðirinn spurði, hvort öll hefðu sjeð þetta? en ekkert barnanna þorði að svara, nema hann Nikulás, þó sáu öll saman drauginn. Faðirinn skipaði þá öllum, að hvert skyldi standa þar sem það væri, en fór sjálfur og sókti ljós.

Faðirinn. Nú! sáuð þið drauginn?

Lisibeth. Hvernig gekk það til?

Faðirinn. Þú skilur ef til vill ekki hvernig á þessum draugi stendur.

Lisibeth. Ekki, en hvernig fóruð þjer að því?

Faðirinn. Heldur þú, jeg hafi smíðað drauginn? hefði jeg ekki svo opt sagt þjer, að í öllum þess kyns sjónum er annað enn það, sem sýnist, og ef jeg hefði verið þjer aldeilis ókunnugur, en sagt þjer, að jeg skyldi láta þig sjá draug, þá hefðir þú hugsað og trúað því fast, að jeg hefði verið galdramaður, sem hefði vakið upp anda.

Lisibeth. (starir fram fyrir sig) Hvernig gat það geingið til?

Faðirinn. Jeg verð að sýna ykkur það, til þess þið ekki látið narra ykkur seinna með þesskonar brögðum. Skoðið þið hjerna í stokknum (hann lýkur honum upp) er sjón-hverfinga skriðbitta.—

Hinrik. Á! það er sjónhverfinga skriðbittan mín, sem hann afi minn gaf mjer í sumargjöf í vor.

Faðirinn. Hún er það, sem hjer hefur gjört allan leikinn. Hjer sjáið þið allt, sem jeg hef haft til þess: sjónhverfinga skriðbittuna, spegil, lítið gler, hvar á sú mynd er dregin, sem þið sáuð,

en ykkur sýndist miklu stærri en hún er, og glóðarker. Hjerna ofan á stokknum er lok, sem má taka af, og láta aptur eins og hver vill. Jeg setti sjónhverfínga skriðbittuna, með ljós-týrunni hennar ofan í stokkinn, og ofan yfir stokknum ljet jeg vera spegil, sem liggur á ská; málaða glerið setta jeg á sinn stað í skriðbittunni, og ljet þar eptir lokið ofanyfir stokkinn. Síðan, eptir að þið voruð komin hvert á sinn stað, tók jeg lokið af, setti glóðarkerið á lokið rjett yfir skriðbittu-ljósinu, þá sást í speglinum sú mynd af málaða glerinu, sem annars hefði orðið á stokks flatveginum, spegillinn kastaði myndinni frá sjer, svo hún sýndist flökta í reyknum, og þið gátuð sjeð hana. Til þess nú að sannfæra ykkur um, að ekkert meira þarf hjer til, og að allt hafi svona til geingið, þá skal jeg að nýju sýna ykkur alla sjónina. Lisibeth! sæktu mèr nokkrar glæður! Lisibeth kom strax með þær: Faðirinn setti spegilinn eins og hann átti að vera, málaða glerið inn í skriðbittuna, og allt eins og hann hafði í fyrstunni raðað því niður, þá sást draugurinn strax aptur skelfilega stór, flöktandi í reyknum. Sjáið þið nú öll, sagði faðirinn?

Öll börnin. Já, já, rjett eins og í fyrra sinni.

Faðirinn. Jeg skal einnig láta það hræra sig (draugurinn sýndist stundum heill, stundum hálfur) og það gjöri jeg með bandi, sem jeg hef á glerinu, svo jeg get ýmist dregið það upp eða niður. Í staðinn fyrir þetta skrýmsli, sem nú er málað á glerið, má mála á það einhverja manneskju, sem við þekkjum, eða einhvern, sem dauður er, og mála andlit hans og klæðnað eins og var í hans lifanda lífi, ellegar hverja aðra mynd, sem vill, og fara eins, með það, eins og jeg fór með þetta gler. Hægt er líka að tempra hvað stór eða lítil myndin á að sýnast,

eptir því, sem skriðbittan er stór eða lítil. Með því móti er eins hægt að brenna rósir eða önnur blómstur, og láta þau svo rísa upp úr þeirra egin ösku. Þar til þarf ekki annað enn mála þesskyns blómstur, sem maður ætlar að brúka, á gler, brenna upp það sannarlega blómstur og síðan brúka hið málaða, eins og jeg áður sýndi ykkur. Af þessu sjáið þið hvað hægt er að gjöra sjónhverfíngar, og láta augun svíkja þá, sem ekki skilja þessháttar konstir.

## XVI. EINGU AÐ TRÚA EKKI ER GOTT, EN ÖLLU HÁLFU VERRA.

Eptir að jeg, börn mín og fólk, höfðum meira talað um einar og aðrar drauga-sjónir, snjerist talið til annara kinlegra hluta, er menn kalla forynjur og fyrirburði; meðal annars um sjóinn, sem altalað var í fyrra, að orðið hefði að blóði í Austfjörðum. Kom einnig til tals, hvort slíkar frjettir gætu verið sannar, og ef sannar væru, hvort þær gætu haft nokkrar eðlilegar orsakir, eður væru furðuverk, sem boðuðu eitthvað sjerlegt, helzt óhappa viðburði. Jeg sagði þeim mína meiníngu, að ei væri að fortaka að eitt og annað þessháttar væri satt, og líklegra að fátt af því væri með öllu uppdiktað, en optast væri það ýkt. Það bezta ráð væri sama og jeg hefði nefnt um draugana, að gæta nákvæmlega að öllum atvikum, einkum vara sig við hræðslu, sem blindar hugskotið en ruglar allri athygli, og alltíð láta þá hugsan vera hjá sjer fyrsta, að hvað, sem við ber, sje náttúrlegt, því hversu fátt er það í náttúrunni, sem vjer þekkjum og skiljum? en að þessi blóðlitur á vatninu geti náttúrlega til verið, uppá það skal jeg segja ykkur fáein dæmi: það hefur skeð, að kaupfar hefur fyrir norðan Melrakka-sljettu hitt stóra

bletti og fláka, sem hafa verið rauðir, sem blóð, og ei ólíkleg tilgáta verið hafi af rauðum þara. Að vatn sýnist blóðrautt, þá rautt aptan-skin á vissan máta gljáir á það, er margreynt, en ókunnugir og óvarir geta samt blekkzt á því. Í Dornborg setti kona nokkur pott á eld, með öllu því, er til grautargerðar þarf, en þá hún tók hlemminn af, var grauturinn blóðrauður. Ekki er ólíklegt orsökin til þess hafi verið Járn-saffran, *(crocus Martis)* því að vísu var það orsökin til blóðvatnsins hjá Königsberg 1712, sem miklar sögur geingu af. Árið 1684 þann 6ta Desembr. varð vötnunartjörnin í þorpinu Teumpaiten í Preussen full af blóðdropum, sem voru innanum ísinn, því í dögun um morguninn hafði tjörnina lagt. Hvað allir urðu hræddir, verður ei frá sagt; nærsti prestur var sóktur, hann ljet brjóta vök á ísinn, en undir honum lá blóðið hálfstorknað og lifrað; því var ausið upp með ausu í ketil, hann heingdur yfir eld, en það var blóð eins og áður, og flaut eins og blóðlifrar ofaná vatninu, þó hafði það þá blandaðan lit af grænu, svörtu og rauðu, og sterka lykt líka fjólum. Annar prestur, var þángað sóktur; frásaga um þessi undur var send til Amtmannsins í Tilsit, til kjörfurstans sjálfs í Berlín og víða, svo eptir að allt var vel rannsakað, og grannskoðað, varð úrskurðurinn sami og víðast fèll um blóðið í Austfjörðum í fyrra, að það boðaði Guðs hræðilegan reiðidóm, og ógnarlega eptirkomandi blóðs-úthellíngu í landinu. En hver þorir nú eptir meir enn hundrað ár, að dæma um hvað það var? samt má gezka á, að það hafi verið *byssus jolithus,* sem er ein hin minnsta tegund vaxandi dupt rautt, eins smátt og fint, sem mjöl, og máske þar með *byssus botryoides,* sem einnig er eins og mjöl, en dökkgrænt og finnst þar, sem vatn hefur

staðið á um veturinn. Hvorttveggja það finnst meðal grasa þeirra, sem hinir miklu grasfræðíngar König og Mohr reiknað hafa vaxi hjer í landi. Riddarinn Linne var einusinni á ferð hjá Eyrabrú í Svíaríki, sá þar vatnið undir brúnni blóðrautt, og að pöddurnar í vatninu vóru eins og blóðugar á höfðinu. Hann skoðaði þetta með góðu stækkunargleri, sem hann hafði hjá sjer, og fann að sá rauði litur var fyrrnefndur *byssus*, en lyktin af honum, var eins og af fjólum. Árið 1668 þann 7da Júní varð vatnið í gröfunum kríngum Marienburg í Preussen blóðrautt, og hvað sem í það var dýft, varð rautt eins og blóð. Allir háir og lágir urðu óttaslegnir, og meintu þetta boðaði annaðhvort skelfilegt stríð eður eyðileggjandi drepsótt. Viðlíkt skeði í Leyden í Hollandi, að allir brunnar kríngum staðinn urðu að blóði, og hræðslan varð eins mikil. Til lukku var náttúru - spekíngurinn Swammerdam þar staddur, hann sá og sýndi öllum, að einasta orsökin var vatnsflóinn *(monoculus pulex)*, sem er mjög smá, dökkrauð á lit, og hverja sá fróði og velþeinkjandi Mohr kallar algeinga hjer á Íslandi. Í neðri Lausitz er stöðu-vatnið Straus, sem optar enn önnur fær blóðlit. 1737 varð það alrautt, en 1752 algrænt; var þá til vísinda-fjelagsins í Berlín send flaska af því, en varð ei samt í það sinn uppgötvað hvar af liturinn kæmi. Má þar af marka að eigi er það allt kraptaverk eða yfirnáttúrlegt, þó lærðir menn geti ei sagt orsökina til þess, því síður má ætlast til að líttlærðir geti vitað hana. Í Sýrlandi er á sú, er forðum hjet Adonis, en nú á dögum kallast Íbrim. Hún verður á stundum blóðrauð, sem í fyrndinni var haldið væri blóð úr æðum þess Adonis, hverjum áin var helguð, en nú er alkunnugt orðið að sá rauði litur kemur af menju, sem er nálægt árbökkunum,

og samanblandast við vatn hennar þegar það í regntíðinni flóir út yfir bakkana. Í jarðskjálftanum, sem 1755 eyðilagði staðinn Lissabon varð sú umbreytíng á hvernum hjá Töpliz í Böhmen, að hann hætti að renna í 6 eða 7 minútur, en að þeim tíma liðnum vall upp úr honum á hálfum klukkutíma svo mikið af blóðrauðu vatni, að sigla mátti á bátum á strætunum. Þætti mjer líklegt að landskjálftinn hafi þar hrist upp hvera-leirinn saman við vatnið, álíkt og hjá oss skeði í jarðskjálftanum 1784, þá vatn í brunnum af sömu orsök varð hvítt.

Auk þessara dæma, sem nú hef jeg talið um vatn, er af hendíngu eða stuttan tíma kann rauðlitað verða, eru líka vötn til, sem jafnaðarlega sýnast svo, hvað eð optast kemur af rauðleitum botni, er vatnið rennur á. Rauða hafið á hjer ekki heima, því bæði er vatnið í því eitt hið tærasta, og þar til er ei botninn í því rauður, því þó í einstöku stað finnist þar rauður sandur, og rauð marmennils-smíði, þá eru þessi síðar-nefndu þar til líka eins mörg hvít, og sandurinn víðast öðruvísi litur enn rauður, er því líklegust sú meiníng lærðra manna, að hafið hafi feingið nafn sitt af Rauð *(Erythra)* konúngi, er tjáist vera skammt þar frá heygður, eða þó enn heldur af auknafni Esau Ísaakssonar, Rauður *(Edom)*, 1 Mós. 25, 25. 30. því afkomendur hans Edomítar höfðu bústaði sína austan með Rauða hafinu, svo það með öllum rjetti gat kallast Idumæiska, það er, Edomítiska hafið eða Rauðs haf. Rauði brunnurinn í Blálandi, sem Plinius talar um, meina menn hafi haft lit sinn af menju, sem þar finnst í jörðunni. Áin de Valbúena í Chaco, sem er skammt frá Paraguai í Suður-America, er sögð blóðrauð á lit í miðjunni 40 sjó-mílur á leingd, hvað eð kemur af rauðum botni hennar, og önnur kvíslin af Mayn í Þýz-

kalandi kallast Rauða Mayn, því þar rennur hún á rauðum leirbotni, og líka fær að nokkru leyti rauðan lit af honum; er Rauðilækur í Holtamanna-hrepp að vísu ekki þeim ólíkur, af því að rauðgulur járnleir og mýra-rauði *(ochra ferri)* er á botni hans, einnig í miklum regnagángi gjörir hann gruggugan með nokkurskonar rauðalit. Og svo jeg enn nú tilfæri eina orsök til rauðlitaðs vatns, þá kemur hin stóra nafnfræga elfa Misisippi úr stöðuvatni, er Eingelskir kalla *Redlake* eður Rauða-vatn, þareð í botni þess er rauður brennusteinsleir, sem líka setur rauðan lit á sjálft vatnið.

Um blóðregn, sem er sjaldgæft, en náttúrlegt tilfelli, hirði jeg ekki að tala, þar þið í íslenzka lærdómslista fjelagsritunum 2 B. 247—8 s. og 3 B. 149 s. hafið upplýsingu um það. Vanþekking og hjátrú meina að allt boði eitthvað, sem þær annaðhvort aldrei hafa áður sjeð, eða sjaldan vitað til; svo sem t. a. m. mjög breytileg norðurljós, halastjörnur, vígahnettir, stjörnuhrap og margt fleira. Þið þekktuð hann Gizur heitinn, sem fyrir skömmu er dauður, hvar sem hann kom, hafði hann optastnær einhverja vitrun og speki, en ógæfan var, að tákn hans og fyrirburðir sögðu honum svo sjaldan, sem aldrei, satt. Jeg gjörði að gamni mínu, og kastaði upp á blað fylgjandi grafskript eptir hann:

## XVII. GRAFSKRIPT, 1794.

Hjer er grafinn hann Gizur, sem þekkti allt hvað hver hlutur boðaði. Hann sá í hverju einu norðurljósi sverð, sópa, riddaralið, konúnga sitjandi á dómstólum, og stundum djöflaña í reyk og svælu, og jafnvel köttur mjámaði sjaldan svo, að Gizur hjeldi ei það hefði eitthvað sjerlegt að þýða. Fyrir bólunni dreymdi hann ekki, því síður meir, fyr enn

eptir að hún var víða geingin; tveir keisarar dóu hver á fætur öðrum; konúngurinn og drottníngin í Frakklandi voru hálshöggvin, en hvorki sást á undan halastjarna, eður neitt sjerlegt himinteikn. Það sveið Gizuri sárast, að ekkert skyldi boða slík mikilvæg tilfelli. Kona hans lagðist í sótt, og þá sá hann stjörnuhrap. „Æ!" sagði hann, „það boðar að konan mín á ekki lángt eptir, ellegar hjer kemur nýtt mannfall." Konunni batnaði, og af mannfallinu varð ekkert. „Nú veit jeg," sagði hann, „hvað stjarnan hefur átt að þýða. Hún var Lukkustjarna: annaðhvort verður fiskurinn að ári dýrari, ellegar mjer fellur arfur eptir annanhvern föðurbræðra minna." Danir gáfu ekki helmíng fyrir fiskinn við það, sem áður var, og föðurbræðurnir lifa enn. Þar á mót dóu þeir báðir, hann Gizur og kötturinn hans.

## XVIII. DÆMISÖGUR.

### 5) *Ljónið og Asninn.*

Asninn loddaðist einusinni úr forarbóli sínu, kom auga á ljónið, gekk til þess og sagði: heill og sæll bróðir! Ljóninu varð flent við, ýgldi sig, en undir eins og það sá framan í þenna bróður, sagði það: ekki er verðt að leggja dugnað sinn á slikt óhræsi, því um asna er ekki verðt að kæra sig.

### 6) *Fátt er svo aumt að ekki egi sjer vesælla.*

Hjerarnir urðu einusinni dauðhræddir af þyti sem varð í skóginum af vindgolu, hljóðuðu því hátt upp yfir sig, að betra væri að missa lífið hreint enn vera í slíkum sífeldum ótta. Þeir rjeðu þá af að hlaupa út í tjörn, og drekkja sjer þar. En þegar þeir komu að bakkanum, urðu vatnspöddurnar svo hræddar, að þær stukku þaðan yfir háls og höfuð,

og földuᵕsig í sefinu. Þá tók einn hjerinn til orða: við erum ekki þeir einustu, sem hræddir eru, það mun bezt, bræður góðir! að halda lífinu, og þola sömu mæðu, sem aðrir hafa að bera.

### *7). Þagmælskan.*

Abbadís í klaustri nokkru var í svo miklum metum hjá Jóhannesi páfa hinum tuttugasta og þriðja með því nafni, að hann, svo að segja, ljet allt eptir hennar bænum. Nú er manneskjunni svo varið, að mikið vill ætíð meira, og loksins færði hún og nunnur hennar sig svo uppá skaptið, að þær beiddu um leyfi, að mega skriftast fyrir kvenn-persónum. „Æ heilagi faðir!“ sagði Abbadísin; „láttu okkur ekki leingur þurfa að skriptast fyrir prestunum! við fyrirverðum okkur að játa okkur í öllu fyrir karlmönnunum, því í vöku og svefni, kann margt til að bera, sem þeim er ekki trúandi fyrir. Leyfið þjer okkur hjer eptir, að skriptast, hver fyrir annari því við kvennfólkið höfum betur vit á, að leggja út af okkar syndum innbyrðis, enn þeir.“ Páfinn átti sízt von á þessari bæn. „Hvað? viljið þið sitja í skriptastólnum? þið, elsku dætur! getið verið heilagri kirkju til uppbyggíngar í öðru; því vita skulið þið, að þetta sakramenti útheimtir mikla þagmælsku, sem ykkur kvennfólkinu var aldrei ljent. En — vera má að nunnurnar í þessu klaustri taki öllum öðrum kvennpersónum fram, og Abbadísina þekki jeg, að henni eru fáir karlmenn fremri; jeg ætla þá til reynslu, að senda ykkur eskjur í dag, sem þið megið ekki ljúka upp, og ef þið fáið mjer þær aptur, þegar jeg heimti þær, svo ekkert sje um þær haggað, þá veit jeg að ykkur má trúa fyrir launúngarmálum, og þá skuluð þið fá ykkar bæn.“ Eskjurnar komu. Strax flaug sú fregn um allt klaustr-

ið, og nunnurnar hlupu til að skoða þær, þreifa á þeim, velta þeim fyrir sjer, og hver hrifsaði þær af annari, til að forvitnast hvað í þeim væri; þær fundu líka að eitthvað var, sem hrærði sig, en til lukku kom Abbadísin að, og í því gall náttsaungs-klukkan við, svo í það sinn var eskjunum ekki upplokið. Forvitnin kvelur opt meir enn sorg og sút! nunnurnar urðu andvaka, og á Abbadísinnar auga kom ekki dúr alla liðlánga nóttina. Í morgun-saungnum heyrðist ekki ein skær rödd, höfuðin hjeingu, augun voru döpur, margar systurnar tóku ekki undir, ekkert lag var á saungnum, en bænirnar muldruðu þær í hálfum hljóðum, og vóru að pískra þess á milli, og spyrja hver aðra hvað til gæti komið, að þær mættu ekki ljúka upp eskjunum? eptir morguntíðir voru þær á rjátli og ríngulreit, en loksins fóru allarsaman til Abbadísinnar, og báðu hana auðmjúklegast lofa sjer að eins að líta einusinni ofan í eskjurnar, „því," sögðu þær, „það þarf ekki að fara annara á milli, við getum allar þagað, og eingin manneskja skal geta ráðið í það, að hrært hafi verið við lokinu, allt er óforsiglað, og við skulum setja vel á okkur, hvernig allt stenzt á og lokið er núna látið ofanyfir." Abbadísin var eins forvitin og þær, lauk upp eskjunum, og í því flaug titlíngur upp úr þeim. Að vörmu spori var barið að dyrum — það var páfinn sjálfur, sem kom og heimtaði þegar eskjurnar, því í þeim, sagði hann, er leyfisbrjefið, sem þið hafið beðið mig svo mikillega um. „En — eingin ykkar fer að sækja þær? hvar eru þær? fáið þið mjer þær! — hvað sje jeg? er leyfisbrjefið flogið burtu? kvennfólkið er að sönnu nógu skarpt og slúngið, en jeg sje að launúngarmál eru ekki í góðri geymslu hjá því! skripti prestarnir ykkur, eins hjer eptir og verið hefur." Eingin þeirra kom upp einu orði fyrir sneipu,

nema ein úng nunna sem sagði: „ekki er jeg fyrir þær nýúngarnar þær arna! vel kemur mjer saman við hann skriptaföður minn.“

### *8). Sitt er hvað, gæfa eður gjörfugleiki.*

Hjörtur nokkur stóð við tjörn, og sá sig í henni; honum þókti hornin með þeirra kvíslum vera sín mesta prýði, en kvaldist af að sjá hversu mjóir og pervisalegir fæturnir voru. Meðan hann var að skoða sig, og hugsa um þetta, heyrði hann hunda-gey, og lúðurþyt veiðimannanna. Hann tók þá til fótanna, og varð alltíð lángt á undan hundunum, en loksins, sem hann ætlaði að fela sig í skóginum, varð hann þar fastur á hornunum, og rifinn á hol; þá sá hann heimsku sína, og að það, sem hann mest hafði fyrirlitið bjargaði lífi hans, en hitt, sem hann hafði haft mestar mætur á, varð honum að bana.

### *9). Svo skal leiðan forsmá, að ansa honum eingu.*

Tóa varð einusinni á vegi fyrir Lýnxdýri, gaf sig á tal við það, fór að hrósa því, og slá því gullhamrana. „Hvernig eruð þjer núna einn á ferð, hinn fríðasti og elskuverðasti allra ferfætlínga? látið yður ekki misþóknast, að jeg gef mjer þá æru, að fylgja yður til yðar góða heimilis, ellegar ef það mitt auðvirðilega tilboð nyti ekki þeirrar lukku, að ávinna sjer yðar samþykki, þá virðið mig þess, að koma heim til mín. Þjer gætuð aldrei gjört mjer meiri greiða, jeg aptur á mót á mína síðu skal gjöra allt hvað mjer er mögulegt til að taka á móti yður, eins og slíkum höfðíngja sómir.“ Með þessum orðum ljet tóa fylgja blíðasta tón, hírasta viðmót, vinasvip, og djúpar hneigíngar. En þegar hún sá, að lýnxdýrið fyrirleit hana, og ljet eins og það heyrði

ekki, stökk hún uppá nef sjer, og sagði með mesta þótta: „ekki tek jeg það aptur, að jeg kallaði þig fallegan, því það ertu, en skömm er að því, hvað ókurteys þú ert. Ertu heyrnarlaus, furturinn þinn? ellegar ertu svo nautheimskur, að þú kunnir ekki að svara einu þægðar orði við mig, sem er að bera á þig hólið?“ Lýnxdýrið sá, að það gat ekki undan komizt að tala, svaraði henni því í sama tón: „þú ert enn heimskari með slaðrið þitt, sem þú ert að bera í hvers eins eyru, en það er þó ekki annað enn einber vani, því hugur fylgir aldrei máli hjá þjer. Ef þú hefðir vit á, þá sæir þú, að þú gætir ekki endt það, sem þú lofar, og öll þín fögru orð eru ekki annað enn hrekkir. Jeg fyrirlít allt hvað þú talar, því jeg trúi eingu af því.“

### *10). Miklu veldur hvatamaðnr.*

Lúðursveinn nokkur, sem hafði blásið til bardaga, og margvíslega þeytti lúður sinn, til að hvetja upp stríðsmennina, varð af óvinunum tekinn til fánga. Hann grátbændi þá, að drepa sig ekki, því þið sjáið, sagði hann, að ekki hef jeg tekið lífið af nokkrum ykkar manna, jeg hef ekki vopn til þess, hjer er ekki nema lúðurinn minn. Hans vegna skaltu deyja, svöruðu þeir, því þó þú hafir ekki getað drepið okkur, hefur þú samt verið að hvetja aðra til þess.

### *11). Íllt er að eiga þræl fyrir einka vin.*

Hafur og tóa voru á ferð í miklum hita, sókti þau mikill þorsti, og fóru ofan í brunn að drekka. Þegar þau voru búin að svala sjer, fóru þau að leitast við, að komast upp úr aptur. Tóa sagðist vita ráðið, til þess að þau kæmist bæði upp úr. „Þú þarft ekki annað, sagði hún, enn standa upp á

apturfótunum, og styðja þig með framfótunum og hornunum við vegginn, þá get jeg klifrazt upp eptir bakinu á þjer, og hjálpað þjer svo, þegar jeg er komin uppúr.“ Hafurinn hjelt þetta væri óska ráð, og gjörði, sem fyrir hann var lagt. En þegar tóa var komin uppúr og hafurinn beiddi hana að hjálpa sjer, svaraði hún: „ekki hef jeg núna tíma til þess; hefðir þú verið eins skynsamur og þú hefur mikið skeggið til, þá hefðir þú aldrei farið ofaní svo djúpan brunn, án þess að hugsa þig um áður, hvernig þú mundir geta komizt upp úr honum, en—heimskur er aldrei hygginn.“

## XIX. GÁTUR.

14) Hvorki ljós nje vindur er fljótari enn jeg. Jeg ferðast í þá heima, sem ekkert dauðlegt auga hefur sjeð, og get sitt augnabragð verið í hverjum stað.

15) Viljir þú forðast háska í stormi og mirkri, þá passaðu uppá húskornið mitt; það skal vera þjer til reiðu og jafnvel fara með þjer ef þú vilt.

16) Jeg er móðurlaus, en hann faðir minn er maðurinn minn.

17) Svo jeg verði til, gefur stundum eitthvert dýr skinnið af sjer, stundum skjólið sitt, stundum ormurinn spunann sinn, og stundum trjeð ávöxtinn sinn. Jeg er svo djúpur, sem brunnur, þó stundum stór, stundum lítill. Sá, sem hefur vitið brúkar mig aldrei einan, en sá, sem aldrei brúkar mig, má vera sár-fátækur.

18) Vatnið slökkur eldinn, en mig setur vatnið í brand og bál.

## XX.

*Drottinn! hver mun búa í þinni tjaldbúð? hver*

*mun hvílast á þínu heilaga fjalli! — sá, sem heldur það, sem hann lofar sínum náúnga — hver eð þetta gjörir, honum mun vel vegna æfinlega.*
Sálm. 15, 1. 4. 5.

Ekkert er, sem hver einn vildi heldur kjósa sjer af öðrum, enn trygð, orðheldni og hreinlyndi, og þó verður hjá mörgum allt of stór misbrestur á því, þegar þessi dygð á öðrum að auðsýnast. Margur, sem ekki er bráðskarpur í sjer, finnur undanbrögð þegar hann vill sleppa frá að efna orð sín, lögin hafa þess vegna fundið uppá eitt og annað band til að festa loforðin með, og árjetta þau, en ef satt skal segja, þá ber sá að sjer böndin, sem með slíkum brögðum verst, að hann af eðli sínu og sjálfsdáðum sje skálkur, sem ekki stendur við orð, sín, nema þau sjeu með lagabandi samanreirð, Þetta fyrrtjeð band er ýmislegt, svo sem, að loforðið sje handsalað, vottanlegt, skriflegt, innsiglað, þýnglýst, eiðfast, eða pantur fyrir því; um allt þetta má segja að lögmálið sje ei útgefið (það er: þurfi að vera), vegna skikkanlegra manna, heldur óráðvandra (1 Tím. 1, 9), og sá, sem ekki hreint neitar, eða ekki veit sig frían fyrir loforði, sem annar ber á hann, en segir: „njóttu vitna þinna!“ eða „sýndu mjer hönd mína fyrir því,“ játar þar með, að hann sje skálkur, sem lögin nái ei til, einasta af því hann geti skroppið inn í holu undan þeim, viðlíkt og sá þjófur eða morðíngi, sem sleppur undan böðuls hendinni, af því hann strauk fyr enn hann náðist. Óvirðíng gjöra Tyrkjar slíkum til, því svo eru þeir tryggir og orðheldnir, að einginn þeirra tekur handskript af öðrum, eða kallar til votta, þegar þeir sín á millum skiptast við, lána eður koma einhverju í geymslu. Í forntíðinni hefur hjer á norðurlöndum

viðlíkt verið, því í öllum tröllasögum er trygð og orðheldni sífeldlega að finna, hversu stóran skaða, sem sá leið, er lofað hafði, hvar af enn þá er eptir hjá oss í almennu tali orðið trygða-tröll; en það sýnist eins og tíminn hafi smámsaman eyðt þeirri dygð, því í Grágásar tíð, fyrir meir enn 700 árum, og jafnvel Jónsbókar, fyrir 500 árum, þurfti ei að vera, skriflegt skjal, nema þegar keypt var jörð, hús eða hafskip, en nú kynnu þeir finnast, sem í nauð sinni fá nokkra skildínga, eður fárra álna virði sjer til bjargar, og seinna gánga á móti því, nema það sje skriflegt eða vottanlegt. Þó er annar hreinskilnisbrestur enn almennari orðinn, því hann er af mörgum álitinn lögmætari, sem er, að brúka yfirskot í loforðum, hafa háng í orðum sínum, neita ekki, veita ádrátt, og þar með gabba einfalda, en ala tortryggni manna á meðal, sem, þá hún er almenn orðin í einhverju landi, gefur grun um að orðheldni sje þar í minna áliti enn skyldi. En þegar hver einn vildi gæta að samvizku- sinni, þá mun hún úrskurða, að þá einhver er lokkaður með tvíræðum eða hálfsögðum orðum til að reiða sig uppá eitthvað, og hinn, jeg vil ei segja, ekki varar hann við því, heldur jafnvel af ásettu brúkar slíkan prett, og nýtir sjer einfeldni hins honum til skaða, þá er sá fyrir allra heiðvirðra manna og einkum guðs dómi, að fullu sakbitinn, því meiníngin, en ei orðin án meiníngar, er hjer það, sem gjörir þann, er talaði, sekan eður saklausan. Heldur, og miklu heldur, vil jeg vera hjá stigamönnum og ræníngjum, eða á eyðimörku, enn í því landi, hvar trygð, dánumennska og orðheldni væru úr gildi. Þar væri hver annars fjandmaður, ektamakar, systkin, börn, vinir og vandamenn, væru þar vísastir til að svíkja hver annan, og eingimn gæti þar eina stund óttalaust lifað. Þeir

fyrstu kristnu vóru eins í orðheldni, sem öðrum dygðum, skært og skínandi ljós, svo það er gleðilegt að lesa hvaða vitnisburð hinn heiðni Plinius gefur þeim í hans alkenda brjefi til Trajans keisara. „Þeirra líferni,“ segir hann, er ágætt, því hver þeirra heldur trúlega allt hvað hann lofar, og svíkur eingan mann um neitt, sem þeim er trúað fyrir.“ Heiðvirðir menn meðal heiðíngja hafa líka verið vandaðir í því, að halda sín loforð. Hinn rómverski Regúlus, sem ljet heldur pína sig og kvalarlega drepa, en gánga á orð sín, er alkunnugur. Súlpitíus var dæmdur föðurlandsins fjandmaður, og stór peninga summa boðin hverjum, sem til hans segði. Hans egin þjón varð til að koma því upp hvar hann var, ráðið taldi líka þessum út alla peníngana, sem lofaðir voru, en þar hjer átti hússbóndi hans í hlut, svo launaði það þjóninum á eptir drottins svikin, með að hrinda honum ofan af háum kletti, hvar af hvert bein í honum brotnaði, og hann ljet lífið, sem öllum þókti vel maklegt. Í spánskum sögúbókum finnst eptirtektaverð frásögn um orðheldni Tyrkja nokkurs: spánskur maður hafði í hel slegið únglíng af háu standi. Morðínginn gat strokið frá þeim, sem eltu hann, og komst inn í urtagarð hvar eigandinn var staddur. Sá spánski kastaði sjer fyrir fætur hans, sagði honum hvað sig hefði hendt, og beiddi hann að fela sig. „Borðaðu“, sagði Tyrkinn, „það arna,“ og fjekk honum hálfa fíkju, en borðaði sjálfur hinn helmínginn, „jeg skal ekki svíkja þig.“ Hann læsti hann þar eptir í jarðhús í garðinum, og lofaði að koma honum burt, svo ekki á bæri, um nóttina. Síðan fór Tyrkinn inn í bæ sinn; naumast var hann þar seztur, fyr enn fjöldi fólks kom með hljóðum og ólátum, og færði honum lík sonar hans, sem nýdrepinn var af einhverj-

um spánskum manni; þeir sögðu honum hvernig morðínginn hefði verið í hátt, og lýstu honum svo grant, að hann sá banamaðurinn væri hinn sami, sem nú var í hans valdi. En hann talaði ekki eitt orð, og þegar dymmt var orðið, fór hann í garðinn sinn, eins og hann færi þángað einförum, að hafa af fyrir sjer, gekk til hins spánska og sagði: Þú kristni maður! sá, sem þú hefur drepið, er sonur minn, líkaminn er hjerna í húsinu. Þú ættir að straffast fyrir það, en þú hefur borðað með mjer, og jeg er búinn að gefa þjer loforð, sem jeg má ekki brjóta.“ Síðan leiddi hann þann spánska, sem var rjett milli heims og helju, í hesthúsið sitt, gaf honum bezta reiðhestinn, sem hann átti, og sagði: „strjúktu svo fljótt og lángt burtu, sem þú getur; nýttú þjer nóttina, á morgun verður þú kominn svo lángt, að eingginn nær þjer. Þú hefur gjört þig sekan í dauða sonar míns, en guð er rjettvís og góður, og jeg þakka honum, að jeg þarf ekki að setja fyrir mig, að jeg hafi drepið þig, eða geingið á orð mín.“

Mjer væri kvöl að verða að segja ykkur dæmi af kristnum mönnum, sem væri þvert á móti dánumennsku þessa ærlega Tyrkja; jeg ætla því heldur að láta hrafn, tóu og úlf eiga þátt í svikum og prettum, og óska einúngis að ekkert, líkt eptirfylgjandi dæmisögu, mætti finnast í neinu kristnu landi!

Einusinni var illgjarn krummi, slæg tóa, og blóðsólginn úlfur öll í vist hjá ljóni, er hafði hirð sína skammt frá alfara vegi. Kaupmaður nokkur fór um þann veg, og varð, skammt frá ljónsbælinu, að skilja eptir úlfalda sinn, sem var orðinn uppgefinn af þreytu. Nokkrum dögum seinna hresstist úlfaldinn, fór að bíta, og ráfaði um skóg þann, sem ljónið var í. Hann bauð því sína þjónustu, hverja ljónið þáði, eptir að úlfaldinn var búinn að segja því

allt frá sínum högum, og lofa að hlýða ljóninu í öllu. Ef þú vilt vera hjer hjá mjer svaraði ljónið, svo skaltú vera með öllu óhultur. Úlfaldanum þókti vænt um þetta, gjörði ekkert annað enn vera á beit, svo hann varð fullur og feitur. Einusinni þá ljónið var á dýraveiðum, mætti það fíl, slóst í bardaga við hann, en komst naumast inn í skóginn aptur, þó með hættulegum sárum og glorsvángt. Krummi, úlfur og tóa, sem ekki lifðu á öðru enn leifum ljónsins, þegar það veiddi nokkuð, sáu nú að ekkert var til matar, og lá þess vegna ílla á þeim. Ljónið tók eptir því, og sagði: „mjer er meiri kvöl, að sjá ykkar sorg, enn sú, sem jeg hef af sárum mínum. Reynið þið til hvort þið finnið ekki neina bráð hjer í kríng um skóginn, og látið þið mig síðan vita, svo skal jeg bera mig að ná henni handa ykkur.“ Þau fóru þá öll þrjú frá ljóninu, og ráðguðust um sín á milli: „til hvers gagns er okkur úlfaldinn hjerna? sagði úlfurinn, hann húsbóndi okkar hefur eingin not af honum, og ekki blandar hann heldur geði sínu við okkur. Það er bezt að drepa hann, við getum lifað á honum í tvo eður þrjá daga, en að þeim tíma liðnum verður konúnginum batnað.“ Þetta ráð líkaði tóu vel, en hún vildi ekki að neinn gæti haft það uppá sig, að hún hefði verið í þeim ráðum, þess vegna ljezt hún uppástanda, að það væri órjettvíst, að taka lífið af úlfaldanum, eptir að honum hefði verið lofað, að vera óhultum og búa í skóginum. „Slíkt verk gæti líka,“ sagði hún, „komið íllu orði á konúnginn, og gjört hann hataðan í öllu ríkinu, svo sem væri hann sá svikari að lofa aðkomendum að búa í sínu landi, en drepa þá síðan orsakalaust, og nýta sjer dauða þeirra.“ Krummi var skarpvitur og illgjarn, hann kom báðum þessum meiníngum saman, sagði: „að

hægt væri að finna eitthvert álitlegt yfirskin til að drepa úlfaldann, og jeg veit, sagði hann, meðal til þess að ljónið gángi á orð sín, án þess það skuli sýnast órjettvíst. Bíðið þið mín hjerna þángað til jeg kem aptur.“ Fyrst flaug hann til ljónsins, og sagði: „herra! við erum svo yfirkomin af sulti, að við höfum ekki krapta til að fara þángað, sem þjer skipuðuð okkur, en við höfum samt fundið gott meðal, svo ef Yðar Hátign vill leyfa okkur, þá getum við feingið góða veizlu.“ Ljónið spurði, hvaða meðal það væri? krummi svaraði: „herra! úlfaldinn lifir eins og einsetumaður hjer í yðar konúngsríki; hann þýðist okkur aldrei, og er til einkis gagns, nema að seðja húngur okkar; en þar jeg veit að Yðar Hátign muni vera matlystug, svo kemur úlfaldinn nú vel í þarfir.“ Af þessu reiddist ljónið grimmilega. „Eru nú tíðirnar orðnar svona! sagði það, og vildi ekki heyra til krumma. Ó! þær vondu tíðir! hverjum er nú að trúa? eingin trygð finnst leingur hjá sjálfum vinunum, þeir eru svikarar, sem hirða ekkert um lög, sanngirni eða rjett! segðú mjer, ólukku limurinn þinn! í hvaða ríki það er leyfilegt, að standa ekki við orð sín? í hvaða landi er það tíðkað, að drepa þann útlendíng, sem tekinn hefur verið í konúngsins vernd og forsvar? jeg vil ekki mjer verði bríxlað um það, að jeg hafi sjálfur niðurbrotið mitt egið verk.“ Krummi svaraði: „ekkert er sanngjarnlegra eður rjettara enn það, sem Yðar Hátign segir; en jeg er líka viss um, að Yðar Hátign veit vel, að góðir ríkisstjórnendur láta heldur einn einstakan líða, heldur enn að allt fólkið tapi sinni velferð. Þegar einhver konúngur er í hættu, þá verður fyrir alla hluti fram að frelsa hans allrahæstu persónu, því hans líf er öllu landinu nauðsynlegt. Hver einn á að halda orð sín, og satt er

það, en þá á það ekki að vera þeim til skaða, sem hefur lofað því. Annars er líka hægt að hafa bragð til að fría yður frá yðar loforði.“ Ljónið lagði sig útaf þegar það heyrði þetta og talaði ekki fleira. Krummi tók það fyrir samþykki, fór aptur til lagsmanna sinna, og sagði þeim frá samtali sínu við ljónið. „Nú verðum við, sagði hann, að finna úlfaldann, segja honum frá þessu tilfelli, láta hann vita hvað sár-húngraður konúngurinn sje, og síðan leggja niður fyrir honum, að þareð við í hvíld og náðum höfum notið vors uppeldis hjá hans Hátign, svo sje það aptur á mót rjettvíst, að við leingjum hans lífdaga með okkar lífi. Þegar við erum þannig búin að fá úlfaldann til að fylgja okkur til konúngsins, skulum við öll þrjú bjóða okkur hvert í kapp við annað konúnginum til matar. Kannske að úlfaldinn eptir okkar dæmi bjóði sig með, og þá skulum við strax grípa hann uppá fyrsta orð, og svo tekst okkar ásetníngur vel.“ Þegar þetta var þannig undirlagt, fóru þau til úlfaldans, sem ekki grunaði um nein svik, en fylgðist með þeim til konúngsins. Krummi tók fyrstur til orða: „herra! þar eð yðar heilbrigði er okkur lángtum dyrmætari enn okkar líf, svo leyfið, að jeg gefi mitt út til að seðja yðar húngur! Það er dágóð veizla, sem þú býður hans Hátign, sagði tóa! þú ert ekki nema bein og fiður, og konúngurinn er of matlystugur til þess, að svo litið metti hann. Kjötið af mjer er miklu betra. Úlfurinn talaði frammí, og sagði: „hans Hátign þarf eitthvað, sem stendur betur undir enn tóu kjöt, jeg er betri til þess.“ Úlfaldinn vildi ekki verða eptir, svo sem að hann elskaði ljónið minna en hin dýrin, og svaraði: „þið öll þrjú getið ekki saðt konúngsins húngur, en þó hann hafi ekki mat smakkað í fulla viku, þá er jeg nægileg-

ur til að seðja hann. Það er satt, sem hann segir, sögðu öll hin, hans kjöt er holt, ágætt og verðugt handa konúngsins Hátign. Æ! mikið er hann lukkulegur, að eptirláta eptirkomendunum svo dásamlegt dæmi uppá velvild sína og geðprýði!" Í því þau sögðu þetta, flugu þau á hann, og rifu í sundur, án þess hann brytist neitt um.

Orðheldni og trúmennska er í sjálfri sjer svo fallleg, nauðsynleg og öllum, bæði góðum og vondum, þægileg dygð, hjá þeim, sem hvorirtveggja eiga eitthvað við að skipta, að jeg þykist ekki óþarft skrafa, þó jeg enn einusinni færi hana í tal við ykkur, og þess vegna ætla að lesa ykkur á morgun litla gleði um viðlíkt efni.

---

## XXI. SUMARGJAFIRNAR.

*Gleði handa börnum.*

---

### Einn Flokkur.

Persónurnar, sem gleðina leika, eru:

Herra Sveinn, ríkur embættismaður.
Magnús, sonur hans 10 vetra gamall piltur.
Bjarni, 11 vetra, sonur fátækrar ekkju, sem er í húsmennsku í sama húsi.
Hinrik, á sama aldri, ríks kaupmannssonur.
Hildur, dóttir hans herra Sveins, 12 ára gömul.

Svæðið er: í fremri stofu hans herra Sveins.
Tíðin er: Föstudags morguninn fyrsta í sumri.

### 1. Atriði.

*Hinrik. Bjarni.*

Bjarni. Snemma ertu kominn híngað Hinrik minn!

Hinrik. Á! jeg var að leita að þjer Bjarni minn.

Bjarni. Að mjer? hvað getur þú viljað mjer, Hinrik minn?

Hinrik. Jeg ætlaði að fara að tala um sumargjafirnar, sem við höfum feingið. Fekkstu miklar sumargjafir í gær?

Bjarni. Þú mátt því nærri geta. Þegar hún móðir mín góð hefur nóg að gefa mjer, og henni systur minni að borða, þá erum við ánægð.

Hinrik. Fekkstu þá ekki svo mikið, sem brauðbita?

Bjarni Ójú! einn og annar góður maður gefur okkur stundum, og jeg var í gær mikið heppinn. Skoða þú klæðis-mussuna, sem jeg er hjer í, hún er af honum Magnúsi hjerna. Hann faðir hans ljet gera hana um handa mjer úr varla hálfslitnum kjól hans Magnúsar, og gaf hana síðan henni móður minni til að gefa mjer í sumargjöf, og eins hefur hann gefið henni eitt og annað af henni Hildi dóttur sinni, handa henni systur minni, svo í gærkvöldi var mikil gleði hjá okkur.

Hinrik. En samt varla svo mikil, sem hans Magnúsar hjerna? sá hefur feingið sumargjafirnar vænti jeg? eða er ekki svo?

Bjarni. Það er sem von er á, því faðir hans er ríkur. En hvort hann hefur haft meiri gleði enn jeg, það veit jeg ekki; honum er ekkert nýnæmi þó hann eignist eitthvað fallegt, en það gjörir ei svo mikla gleði, sem maður fær svo að segja á hverjum degi, eins og hitt, sem sjaldan kemur að.

Hinrik. Satt er það. Nú getur þú þá sagt mjer hvað honum var gefið? þú hefur, ef til vill, verið við þegar hann fekk sumargjafirnar.

Bjarni. Ó já! jeg gat varla talið það allt. Hann faðir hans gaf honum fallegar bækur, kjól og vesti.—

Hinrik. Nei, nei. Jeg hirði ekki um að vita

það, heldur hvað ætt, og af barnagullum, eða þesshåttar, hann fekk.

Bjarni. Hann faðir hans gaf honum ekki mikið af þesskonar, því eptir sem jeg hef heyrt, heldur hann ekki mikið uppá það, hann segir að börnin skemmi heilsu sína með því, og að hann Magnús sje orðinn of stór til að leika sjer að barnaglíngri hjeðan af. En þess meir fekk hann hjá henni föðursystur sinni af því.

Hinrik. Svo sem hvað þá?

Bjarni. Bæði sveskjur, fíkjur, rúsínur, tertur, og allrahanda sætindi, svo og líka heilan hóp af stríðsmönnum, veiðimönnum og dýrum úr blýi, fallega, nýja reiknings-peninga, og svo mikið af leirmyndum. En farðu heldur til sjálfs hans, og spurðu hann, ef þjer er forvitni á að vita það; því spyr þú mig að því?

Hinrik. Það var vissra orsaka vegna, sem jeg vildi vita það.

Bjarni. Hverra þá?

Hinrik. Nei, þú kannt að segja frá því — samt ef þú vilt lofa mjer —

Bjarni. Jeg ber aldrei sögur.

Hinrik. Hana þá! (og rjettir fram höndina).

Bjarni. Hjer er höndin mín! (þeir takast í höndur).

Hinrik. Nú, svo skal jeg þá segja þjer í trúnaði, að hann Magnús verður laglega narraður.

Bjarni. Hvað? hann Magnús! það skal jeg aldrei líða.

Hinrik. Öllu vel! þú veizt ekkert enn, jeg get þagað.

Bjarni. En þar eð það er góðum vin mínum til skaða?

Hinrik. Já já! það skal hvorki verða honum til skaða á heilsu hans eða sóma, eða neinu, og

loksins — loksins verður hann Magnús þó að fá að vita það sjálfur.

Bjakni. Ef einhver narrar hann eins og þú sagðir, þá verður honum það til skaða, og hver, sem gjörir það, er svikari. Kannske hann Magnús geti líka komið í veg fyrir það, ef jeg vara hann við.

Hinrik. Jeg ætla að biðja þig að hætta því arna; ekki er jeg svikari. Hann Magnús er sjálfur skuld í því, og verði hann svikinn, þá er einginn annar, sem svíkur hann, enn hann sjálfur.

Bjarni. Það skil jeg ekki.

Hinrik. Taktu nú eptir, Bjarni minn; við Magnús höfum aftalað milli okkar, að við skildum skipta öllum okkar sumargjöfum til jafns milli okkar, hvert sem við feingjum mikið eða lítið; það er að skilja því, sem skipt verður.

Bjarni. En hvernig getur hann þá haft skaða, því hann faðir þinn er ríkari enn hann faðir hans, og jeg er sannfærður um að sumargjafirnar, sem þú hefur feingið, meiga vera meiri enn þær, sem honum Magnúsi hafa gefizt.

Hinrik. Rángt! rángt! þú gazt rángt til Bjarni minn góður! jeg hef að sönnu feingið miklar sumargjafir, en annaðhvort af fatnaði, eða dýrgripi, sem jeg hvorki get skipt í sundur, ellegar má fá i burtu, svo sem t. a. m. sigurverkið að tarna. (hann sýnir honum vasa-úr).

Bjarni. Og þú fekkst ekkert af neinu smávegis.

Hinrik. Alls ekkert, nema eina bakaða köku, og dálítið af hveitibrauði, því hann faðir minn segir, eins og hann faðir hans Magnúsar, að það sje skaðlegt. En meðan hún móðir mín sæla var á lífi, þá gekk það öðruvísi til, því hefði hún lifað, þá hefði henni orðið íllt af að vita til þess mjer væri svo kvikindislega gefið; og þetta var nú það, sem

kom honum Magnúsi til að gjöra aftalið, sem jeg nefndi áðan, þegar hann sá sumargjafirnar mínar í fyrra og hittið fyrra, en hann endurnýjaði og ítrekaði þetta aftal aptur, bæði í fyrra morgun og í gærmorgun. Nú sjer þú þá —

Bjarni. Já, já; nú sje jeg að hann Magnús minn hefur skaða, því um brauðkökurnar þær arna hirðir hann ekki, hann hefur nóg af þeim. Ef allt að tarna væri líka satt, en jeg get ekki svo aldeilis trúað —

Hinrik. Þá vildi jeg svo sannarlega —

Bjarni. Hvað ætlaðir þú að segja Hinrik minn?

Hinrik. Jeg skal strax sverja svo dýran eið, sem þú vilt, að jeg ekki hef feingið meira.

Bjarni. Sverja? það er ljótt, það gjörir einginn, sem skikkanlegur er. En hvað hinu viðvíkur, þá, þú um það! og ef þú brúkar hrekki við hann Magnús, þá áttú sjálfur að forsvara það, en ekki jeg.

Hinrik. Hvernig getur þú ætlað mjer slíkt? og jeg ætti ekki að þola þjer slík orð — en hvernig sem nú er komið, þá verður hann Magnús að hafa það þar. Hefði hann ekkert feingið, en jeg mikið, þá hefði jeg einnig mátt þakka mjer sjálfum fyrir, og jeg hefði mátt standa við orð mín.

Bjarni. Það er satt. En úr því þú hefur feingið lítið eða ekkert, svo er ekki fallegt af þjer að ná með þessu móti af honum Magnúsi miklu af því, sem honum gafst.

Hinrik. Hvað á jeg þá að gjöra?

Bjarni. Að taka ekki við því, slá upp öllu aftalinu, og segja honum allteins og nú er komið.

Hinrik. Hann veit hvernig á öllu stendur. Fyr enn jeg fór híngað sendi jeg vinnumanninn hans föður míns híngað með seðil og hálfa kökuna, og helmíng af brauðkökunum.

Bjarni. Jeg veit af því, að hann lætur þig fá þinn part af þessu óskertan, og þá stendur til þín að —

Hinrik. Jeg þakka þjer hjartanlega fyrir svoddan óska ráð. Nei, þegar menn fara í hópakaup, eða veðjast um eitthvað, þá ætlast þeir alltíð til að ábatast á því. Sjái hann sig betur fyrir í annað sinn, eða gjöri ekkert aftal! og láti hann mig ekki fá allan helmíng af því, sem honum gafst af sætindum og stríðs-mönnunum, og veiði-mönnunum, og tertu, og leir-myndum og öllu, svo skal jeg kalla hann skelmir og svikara í kaupstaðnum, við kirkju og hvar, sem jeg hitti hann. Já, segðu honum það Bjarni minn! segðu honum, að svoddan menn, sem við erum, eigum að standa við það, sem við höfum lofað og svarið hver öðrum.

Bjarni. Aptur kemur að sverja? mikið ljótt er það, Hinrik minn! að sverja svo sífeldlega. Jeg er svo fátækur, sem allir vita, og samt vildi jeg ekki sverja til óþarfa, þó þú vildir gefa mjer til þess allar sumargjafirnar þínar.

Hinrik. Jeg vil ekki heyra slabbið þitt. Þú ert eins og barn. Hvernig getur nokkur annars verið bundinn við sitt loforð?

Bjarni. Allt eins vel eins og þó hann sverji: þegar jeg tala eitt orð, þá á það að standa stöðugt. Og ef þú eða einhver annar vildi ei trúa mjer til þess, sem jeg segi, þá hefði jeg einga góða þánka um þann hinn sama.

Hinrik. Svo? heldur þú þá að hann Magnús muni halda sitt loforð við mig?

Bjarni. Já; það held jeg, og ef hann gjörði það ekki, þá skyldi jeg líka álíta hann fyrir varmenni, enda væri hann þess háttar, þá mundi hann eigi heldur fara að því hvort hann hefði svarið eða ekki.

Hinrik. Það skal jeg fá að vita. En segðu honum allt, sem jeg hef talað, svo hann viti hvers hann á von, og geti þar eptir hegðað sjer.

Bjarni. Með rjettu gæti jeg vísað þjer til hans sjálfs, því ekki var jeg í ráðunum með ykkur þegar þið gjörðuð þetta aftal. En samt — hann er vinur minn, jeg get sagt honum það.

Hinrik. Segðu honum líka að jeg hjartanlega hlæi hann út, og hlakki yfir honum, hversu hann hafi svikið sjálfan sig.

Bjarni. Er það fallegt?

Hinrik. Nú, nú! það er mjer betra að jeg geti hlegið að honum, heldur enn hann að mjer. Í annað sinn kannske röðin komi að honum að geta hlegið; þetta er hvort heldur er, ekki nema gaman, þá er ei vert annað enn gjöra gaman úr því — vertu sæll!

Bjarni. Vel og gott! Jeg vona það verði fyrsta og seinasta gamanið, sem hann Magnús muni vilja hafa saman við þig að sælda.

Hinrik. (í því hann geingur burt) Jeg mun verða að hafa það þar.

## 2. Atriði.

*Bjarni.* (Einsamall).

Aldrei hefði jeg hugsað, að hann Hinrik væri svo vondur. En samt, væri það satt að hann hefði ekki feingið meira hjá honum föður sínum? — það stæði þó til hans, hvort hann vildi taka á móti skiptunum eða ekki, úr því hann Magnús hefur svo mikinn skaða á þeim. En það eru ekki allir piltar, sem eru svo vel þeinkjandi. Hana þá! hann Magnús er sjálfur skuld í því, og ólukkan er ekki mjög stór — á! þarna kemur hann sjálfur.

## 3. Atriði.

*Bjarni. Magnús.* (heldur á brjefi í hendinni).

MAGNÚS. Æ! Bjarni minn! jeg get ekki á mjer tekið! skoðaðu (hann fær honum brjefseðilinn).

BJARNI. Jeg veit það allt saman, Magnús minn góður! en hver skipaði þjer að hafa þessi mök við hann Hinrik? Jeg held það sje ekki rjett að lofa þesshátttar, án þess að hann faðir þinn vissi það áður, og ekki þyrði jeg að gjöra slíkt án leyfis hennar móður minnar; því það, sem foreldrar okkar gefa okkur, eigum við ekki svo fullkomlega, að við megum gefa það aptur hverjum, sem við viljum.

MAGNÚS. Veiztu þá, hvert jeg hef ekki beðið hann föður minn leyfis?

BJARNI. Já, ef svo er, þá hef jeg ekkert á móti því. En hafir þú lofað þessu, svo verður þú að halda það; því lofaðir þú því?

MAGNÚS. Vegna þess hann Hinrik fekk í fyrra og hitt ið fyrra lángtum meira enn jeg; og þess vegna hugsaði jeg —

BJARNI. Þú hugsaðir að ábatast mikið á því? þá hefur þú feingið mátulegt straff fyrir ágirndina. Mjer hefur þú aldrei boðið að skipta til helmínga við mig.

MAGNÚS. Satt er það, Bjarni minn góður! ólukku ágirndin! jeg hefði átt að halda því, sem mjer var ætlað.

BJARNI. Og sama ágirndin er sú, sem núna gjörir þig svo óánægðan; en þó þú haldir þitt loforð, þá áttu nóg eptir samt.

MAGNÚS. Heldur þú þá að jeg eigi að halda það?

BJARNI. Spyr þú að því? ertu að spyrja að því, Magnús minn góður og blessaður! hvort þú eigir að halda það, sem þú hefur lofað?

MAGNÚS. Heldur þú þá ekki að hann hafi svikið mig?

BJARNI. Ekki held jeg það; því hann stóð fast

á því við mig, að hann sviki þig ekki, en svo leingi, sem jeg hef ekki orsök til að tortryggja —

Magnús. Hvað? að hann faðir hans, sem er svo ríkur, hafi gefið honum núna svo aumlega, þar eð sumargjafirnar, sem hann hefur feingið hin árin, hafa verið svo miklar, að hann hefði getað fyllt með þeim heilan kaupmanns - búðar pall?

Bjarni. Ekki svo aumlega! hann hefur feingið bæði sigurverk uppá vasann og einn og annan fatnað, en ekkert barnaglíngur; hann segir, að meðan móðir sín sáluga hafi lifað, hafi hún sjeð fyrir því, en nú sje faðir sinn eins sinnaður og hann faðir þinn.

Magnús. Já, og hann dregur það undan, sem hann ætti að láta koma til skipta milli okkar, svo jeg fái ekki það, sem mjer ber með rjettu.

Bjarni. Gjöri hann það, og segi ekki satt til, þá er hann svikari.

Magnús. Og hver, sem svíkur mig, við þann er jeg ekki skyldugur að standa við mín orð.

Bjarni. Æ! þetta er ljótt Magnús minn! hver hefur sagt þjer þetta? það er að skilja, að ef hann væri svikari, þá viljir þú vera það líka.

Magnús. Hann veit lítið af því hvað jeg hef feingið, ef jeg segi honum það ekki.

Bjarni. Getur þú þá dulið það fyrir sjálfum þjer? og þó einginn vissi það nema þú, ætlar þú, að þú mundir samt ekki verða að skammast þín fyrir sjálfum þjer?

Magnús. Jeg fekk ekki heldur meira hjá honum föður mínum smávegis, enn hann hjá föður sínum, því þú veizt sjálfur að hitt gaf hún föðursystir mín mjer.

Bjarni. Tókst þú það undan þegar þið sömduð með ykkur aftalið?

MAGNÚS. Nei, nei! að sönnu gjörði jeg það ekki.

BJARNI. Það var þá um allt það, sem þú kynnir að fá.

MAGNÚS. Á já! (hann stampar í gólfið með fætinum) jeg gæti —

BJARNI. Svo verður þú að standa við orð þín, jeg segi þjer það enn aptur.

MAGNÚS. Já ef jeg verð! en hver ætlar þú þvíngi mig?

BJARNI. Loforðið þitt, Magnús minn. Og ef þú værir svo ílla hugsandi, að gánga frá því, þá hefur hann Hinrik allan rjett til að kalla þig allstaðar svikara, en þú getur ekki fært neinar sönnur á, að hann sje allteins sá hinn sami.

MAGNÚS. Hann ekki heldur að jeg sje það; jeg ætla ekki að vera svo heimskur að segja honum það.

BJARNI. Svo skaltu þá vita, að jeg er búinn að segja honum allt, sem þjer var gefið.

MAGNÚS. Þú? hefur þú sagt honum allt? við höfum verið vinir.

BJARNI. Mjer skyldi falla það sárt Magnús minn góður! að hafa gjört þjer á móti. Jeg gæti að sönnu afsakað mig með því, að hann Hinrik lokkaði það útúr mjer, áður enn jeg vissi neitt um ykkar aftal, svo jeg talaði það í grandleysi. En samt ef hann hefði spurt mig uppá mína samvizku, þá hefði jeg annaðhvort sagt honum það, eða vísað honum til þín.

MAGNÚS. En ef jeg hefði þá ekki sagt honum það?

BJARNI. Þá hefði jeg þó sagt honum það, sem satt var, úr því jeg vissi það; því Magnús minn, sá sem vill vera ærumaður, má hvorki ljúga, nje prettast um það, sem hann lofar.

MAGNÚS. En veiztu að þá er öll okkar vinátta

á enda? og að jeg þá hætti að skipta mjer nokkurn hlut af þjer?

Bjarni. Það máttu Magnús minn góður! og veit jeg samt hvað mikið jeg missi við það, því þína vináttu met jeg miklu meira, enn allar þær velgjörðir, sem jeg, móðir mín og systir, fá hjerna í húsinu; en þó get jeg ekki ráðið þjer til annars enn jeg hef gjört, ef jeg væri þinn sannarlegur vinur.

Magnús. Já dáfallegur vinur, sem vill láta mig missa það, sem jeg á.

Bjarni. Hver lætur þig missa það, nema þú sjálfur? lofaðu eingu hjer eptir, sem þú hefur skaða af.

Magnús. Jeg hefði líka kannske getað ábatast á því.

Bjarni. Þú hefðir — en þar eð ekkert varð úr því, þá legg þú þessa refsíngu á ágirni þína, ef þú annars vilt reikna það fyrir refsíngu, að vera ærlegur með svo litlu tilkostuðu.

Magnús. Særðu mig ekki svona! *með svo litlu tilkostuðu?*

Bjarni. Ójá! þú heldur eptir helmíngnum af þessum óþarfa. Hugsaðu með þjer, að þjer hafi ekki verið gefið meira, enn þú heldur eptir. Hugsaðu eptir hvaða sómi það er fyrir þig hjá okkur öllum börnunum, þegar við sjáum, að þú hefur ekki fest glíngrið að tarna við hjarta þitt, og líka getur fyrirlitið það, með því að gefa mikið á móti litlu, til þess að standa við orð þín; allir, sem heyra það, verða að elska þig og virða, og, — jeg þori að setja undir við þig, að ef hann Hinrik svíkur þig, þá þorir hann ekki að líta uppá þig með augunum, því góð samvizka — að minnsta kosti jeg, ef mjer verður eitthvað á, svo er jeg ekki í ró, fyr enn jeg er búinn að segja henni móður minni frá því. Við skulum gjöra það, sem sómi er í og ærlegt, Magn-

ús minn góður og blessaður! skoðaðu! væri jeg ríkur, hefði jeg feingið miklar sumargjafir, uppá tímann skyldi jeg bæta þjer skaða þinn; allan, allan skyldir þú —

Magnús. (fellur honum um háls, og faðmar hann) Ó! hversu þúsundsinnum ertu miklu betri enn jeg! já, Bjarni minn góður! þú hefur rjett — rjett í öllu! jeg er ágjarn og bý yfir íllu hugarfari, það er skaði, hitt heldur, með hann vesældóminn þann arna! hann skal fá hann! þú skalt sjálfur skipta! gefðu hverjum hvað þú vilt! en fáðu samt ekki slæma þánka um mig, að jeg hafði svo ljótt í huga. Jeg skal verða þinnar elsku og vináttu verðugur.

Bjarni. Það ertu! jeg vissi fyrir laungu, að það var ekki alvara þín, þó þú værir að hafa á móti þessu, þitt hugarfar er allt of gott til þess, og sá sigur, sem þú barst nú úr bítum yfir sjálfum þjer, mun verða þjer til miklu meiri ánægju en þó þú hefðir heilan bagga meir af sikurbrauðum að bíta í, eða fleira brothætt glíngur á hillunni hjá þjer. Innan skamms hefðir þú ekkert hirt um það, og gefið það öðrum börnum.

Magnús. Það er satt! alltsaman satt! allt, sem jeg get, skal jeg gjöra þjer til þægðar, af því þú hjálpaðir mjer til að vera ærlegur. Fljótt! fljótt! jeg ætla að fara og sækja allt saman, annars kannske, jeg yðrist eptir, og sjái mig um hönd. (Hann fer burt).

Bjarni. Nei, nei! ekki yðrast þú eptir það, en farðu samt.

## 4. Atriði.

*Bjarni.* (fullur af gleði).

Æ! vænt! vel fer núna! og þó hann Magnús hefði gefið mjer allar sumargjafirnar sínar, þá hefðu þær ekki glaðt mig svo mikið, sem það, að hann

hefur hug og dug til að standa við orð sín, þó honum sje það stór skaði, já, já, svona er hann; hann þarf ekki meir enn að einhver minni hann á, svo er hann strax góður.

## 5. Atriði.

*Bjarni. Magnús.* (kemur og ber stóra körfu, sem mart er í).

Magnús. Kom þú og hjálpa þú mjer, Bjarni minn góður! svo ekki detti hjá mjer. (Bjarni hjálpar honum, og þeir setja báðir körfuna á stól hjá borðinu) Þarna í stóru máluðu eskjunni eru sætindin. Þarna! skiptu nú! — láttu strax í eskjuna það, sem hann á að fá.

Bjarni. Nei, nei, þá er ekki svo hægt að yfirlíta það alltsaman, hvort við höfum skipt rjett eða ekki. Báðar terturnar — aðra þjer, hina honum (hann setur hverja móti annari á borðið) sætindin getum við talið.

Magnús. (fer að telja) 1, 2, 3, 4, 5, 6. — eins mart hann Hinrik. aptur: 1, 2, 3, 4, 5, 6.

Bjarni. Af þeim tveim hunángs-leingju böggum fær hann annan. Reiknings peníngarnir munu vera tíutíu í hverjum bagga? hann fær þá annan af þeim? þarna!

Magnús. Sárt er að tarna! (Bjarni lítur uppá hann). Nú hana þá! 4 litlar eskjur með stríðsmenn úr blýi. Bjarni! sárnar þjer ekki?

Bjarni. Mjer sárnaði ef þú hjeldir þeim. Burt með greyið að tarna! — nú ein askja með veiðimenn og þeirra dýr!

Magnús. Æ! nú 13 myndir úr fallegum leir? það eru allar 4 ársins tíðir, og 9 mennta-gyðjurnar! þeim verður ekki skipt.

Bjarni. Hana þá! fáðu honum allar 4 árstíðirnar. Það er náttúrlegt þú hafir stærri helmínginn,

en 9 menntagyðjurnar má ekki skilja að, þar að auki komast ekki 13 myndir vel fyrir á þilfjölinni hjá þjer. Er nú allt komið?

MAGNÚS. Nei, niðri er ein fugl-staung, tveir fuglar útskornir, og einn fallegur bogi.

BJARNI. Af því getur hann ekki feingið nema annan fuglinn. Skoðaðu nú Magnús minn góður! hann Hinrik fær þá helmínginn — en því lítur þú svo raunalega til mín Magnús minn?

MAGNÚS. Hana þá! þú vilt hvort sem er að hann fái hann?

BJARNI. Nei, Magnús minn! ekki vil jeg það, en þú vildir það fyrst, og vilt-það enn nú! segi jeg ekki satt? þú vilt það enn nú?

MAGNÚS. Hana! já! en flýt þú þjer svo jeg hafi það ekki leingur fyrir augunum . . . láttu mig losast við það!

BJARNI. Ójá! jeg skal strax sækja hann Hinrik, jeg er viss um að hann skammast sín í sál og samvizku, ef hann er svikari, og líka . . . þó hann sje það ekki; jeg skal vera eins fljótur til baka eins og sendíng. (hann fer burt).

## 6. Atriði.

*Magnús.* (einsamall í þaunkum).

Já, það vænti jeg hann skammist sín — nei hann hlær mig út og spottast að mjer! ef hann hefði skammast sín, þá hefði hann ekki sendt híngað til mín dáindis væna helmínginn af því, sem hann fekk. (hann fer að borðinu að skoða það, sem á því er). Og allt að tarna á jeg að láta burt fyrir ekkert? það er eins og mjer þyki allt það betra, sem hann Bjarni er búinn að skipta honum Hinrik, og að sætindin þarna sje sætari enn mín — að reiknings peníngarnir, að stríðsmennirnir, að veiðimennirnir, í einu

orði: að allt — allt sje lángtum nettara, sem hann hefur feingið — og allt að tarna átti jeg áður! — jeg hefði getað átt það? — fyrir ekkert, fyrir alls ekkert, gef jeg það burt? — (hann þegir og er í þaunkum) nei, nei; satt er það, sem hann Bjarni sagði: eru þá mín ærlegheit, mitt góða nafn og mannorð, mitt loforð, mín samvizka ekkert? — æ! hver kemur? það er hún Hildur!

## 7. Atriði.

*Magnús. Hildur.* (sem sjer allt á borðinu).

Hildur. Hvað er hjer á ferðum? jeg trúi þú sjert að gefa þjer sjálfum sumargjafir? eða — máske jeg eigi að fá annan helmínginn af því, sem hjerna er á borðinu?

Magnús. Já, satt er það, jeg er að láta gefa sumargjafir, en hvorki mjer nje þjer?

Hildur. Hverjum þá? nú vænti jeg hann Bjarni hafi enn aptur narrað eitthvað út úr þjer, því hann er sífeldlega að betla handa öðrum, en ef vel væri öllu á botninn hvolft, þá kannske eitthvað lendi í vasanum sjálfs hans.

Magnús. Æ! nei! talaðu ekki svona um hann Bjarna minn! jeg vildi óska, að við, bæði þú og jeg, værum eins góð og hann er!

Hildur. Hana þá! hjerna vænti jeg samt hann sje eitthvað viðriðinn, því hann hljóp núna svo fljótt hjá mjer, eins og hann hefði verið eltur með logandi járni; eða hvað á það að þýða, að allt er svona breitt hjerna út á borðið.

Magnús. Af því jeg hef verið svoddan einfeldníngs garmur, að gefa honum Hinrik helmínginn af öllu því, sem hún föðursystir mín gaf mjer í sumargjöf.

Hildur. Honum Hinrik? fyrir hvað þá?

Magnús. Vegna þess við höfum gjört aftal milli okkar, að skipta sumargjöfum okkar til jafnaðar. En til allrar ólukku fekk hann ekkert, en jeg mikið.

Hildur. Þá skyldi jeg ekki heldur hafa látið hann fá neitt. — Ertu með vitinu, piltur? jeg skyldi láta hann —

Magnús. Jeg hafði lofað honum því, og hann mjer aptur. Hann hjelt sitt loforð, svo verð jeg að halda mitt; því hver, sem ekki stendur við orð sín, er ekki ærlegur maður.

Hildur. Það vænti jeg hann Bjarni segi? er ekki svo? því hann er sífeldlega að prjedika um sómann og siðgæðið. Nei, mjer svíður það, að þú skulir láta svo mikið að orðum hans, dreingsins þess, sem okkur á að þakka, að hann getur tórað.

Magnús. En er það ekki satt, sem hann segir?

Hildur. Nei, það er ósatt, og jeg þori að setja undir, að hann hefur samantekið að tarna með honum Hinrik, og ætla þeir svo á eptir að skipta á milli sín því, sem þeir narra út úr þjer.

Magnús. Það væri ólukku — en samt — nei! þvert nei! hann Bjarni er of vel þeinkjandi til þess.

Hildur. Láttu þá ekki hafa þig svona að spotti! jeg segi þjer satt, að hann Bjarni stæði heldur með þjer enn honum Hinrik, ef hann sæi ekki uppá eitthvað, að vera svona á móti þjer.

Magnús. Já víst sjer hann uppá æru mína og gott mannorð — að jeg skuli ekki vera svikari.

Hildur. Hahahaha, hahahaha! já nú er rjett! til þess að verða ekki svikari, lætur þú svíkja þig.

Magnús. Er það þá ekki betra?

Hildur. Svo einfeldnislega? mikið meiga þeir hlæa að þjer! ætli þeir hlæi þó? hahaha!

Magnús. Hvað? að hann Bjarni minn muni hlæja að mjer?

Hildur. Úr því hann er að hjálpa til að svíkja þig?

Magnús. En hvað á jeg til að gjöra? jeg er búinn að lofa því, við erum búnir að skipta. Hann Bjarni er að sækja hann Hinrik.

Hildur. Láttu hann fara eins tómhendtan eins og hann kemur. Það væri mikið gaman ef þú gætir narrað þá báða, úr því þeir, svo sannarlega, sem jeg heiti Hildur, ætla sjer að narra þig; og jeg veit gott ráð. —

Magnús. Það ráð, að láta ekkert til, og verða svikàri?

Hildur. Nei, svo eingin skuldin sje hjá þjer, þú frelsir sóma þinn, og haldir þó þínu.

Magnús. Hvernig þá?

Hildur. Að þú segir honum föður okkar frá því, og biðjir hann að banna þjer það, ellegar hana föðursystur okkar, því hana væri hægt að fá til að segja þjer, að henni þætti hræðilega fyrir við þig, ef þú færir að láta burt það, sem hún hefði gefið þjer.

Magnús. Honum föður okkar? já, gott og vel. En aldeilis ekki henni föðursystur okkar, því hún tekur sjer allt svo nærri —

Hildur. Láttu mig ráða —

Magnús. Nei, ef þú vilt nokkuð að mínum orðum láta.

Hildur. Minna vegna máttu láta narra og spotta þig, ef þú vilt svo hafa það sjálfur. Ekki missi jeg neitt fyrir það, þvert á mót gjörir þú mjer þá ánægju, að jeg get hlegið að þjer, og fæ sjálf í annað sinn tvöfalt meiri sumargjafir enn þú, þegar þú kannt ekki að fara betur með þær enn svona. En að minnsta kosti skal hann faðir okkar samt fá að vita það, og ef hann bannar þjer að halda áfram í heimsk-

unni þinni, þá skaltu eiga mjer það að þakka. (hún géingur burt).

## 8. Atriði.

*Magnús.* (einsamall).

Það er satt! svona færi það ef annaðhvort hann faðir minn, eða hún föðursystir mín, bönnuðu mjer það, þá hjeldi jeg mínu, og skuldin væri þó ekki hjá mjer — en því sá jeg ekki að tarna fyrri? að sönnu — ekki líkar mjer það samt — ekki er það svo aldeilis rjett! innvortis hjá mjer — segir — já, jeg veit ekki sjálfur — það hefði jeg átt allt að hugsa áður, fyr enn jeg lofaði því. Æ! jeg vildi hann Bjarni kæmi! og kæmi einsamall.

## 9. Atriði.

*Magnús. Bjarni.*

Bjarni. Hann Hinrik kemur strax, hann ætlaði ekki annað enn fá leyfi hjá lærimeistara sínum, að mega fara híngað. Nú Magnús minn góður! gjör þú það nú fyrir mig, og láttu ekki merkjast að þjer þyki mikið fyrir því arna. Jeg gekk á hann — það er eitthvað óhreint í því, jeg er nærri kominn á þá meiníngu að undir þessu sjeu hjá honum prettir. Eitthvað gekk honum nærri.

Magnús. Og þá á jeg að látast vera ánægður af því?

Bjarni. Já Magnús minn góður! og þú getur með öllum rjetti verið ánægður, því þú gjörir þína skyldu, þú getur með glöðu geði litið uppá hann, en hann ekki uppá þig, ef hann svíkur þig.

Magnús. Jeg skal bera mig að því svo sem jeg get. En jeg skal segja þjer hvað hún systir mín ræður mjer, hún segir: að jeg þurfi ekki annað enn biðja hann föður minn eða föðursystur, að banna mjer að láta nokkurn hlut burt af því, sem þau hafi

gefið mjer, og þá væri bæði mitt góða mannorð frelsað, og jeg hjeldi öllu mínu.

Bjarni. Og samvizkunni þá með? sagðir þú ekki, að þú hefðir spurt hann föður þinn um leyfi fyrirfram?

Magnús. Það er rjett, sem þú segir; mjer sýndist eins og það væri ekki aldeilis rjett, sem hvarflaði í hugann á mjer að gjöra.

Bjarni. Það hefði ekki heldur verið rjett, minn elskulegi Magnús. Slepptu ekki þínum góða ásetníngi, þú munt komast að raun um, hvaða ánægja það er, þegar þú getur sagt, að þú hafir staðið við orð þín. Innan fárra daga hefðir þú verið búinn að borða upp sætindin og sætabrauðin, og orðinn leiður á að fara með barnagullin þín — þú veitst þar að auki, að við þurfum ekki hjeðan af á þeim að halda til að stytta okkur stundir með, og mjer skal þykja miklu vænna um þig, ef þú vilt fylgja þessu mínu ráði.

Magnús. Það vil jeg minn hjartans Bjarni! já, jeg vil fylgja því, hvað sem hún systir mín segir; jeg hef aldrei enn yðrast þess að fara að þínum ráðum. Það er skaði, hitt heldur, í óþarfanum þeim arna! og til að sýna þjer, að jeg skeyti ekkert um hann, ætla jeg að bæta nokkru við partinn hans Hinriks af sætindunum mínum.

Bjarni. Svo! rjett svo! nú ertu rjett eins og sigrari, sem unnið hefur í einvígi — komi hann nú!

Magnús. Legðu í orð, og talaðu þar, sem mig brestur. Þei þei! hann kemur þarna!

## 10. Atriði.

*Hinir fyrri. Hinrik.* (sneiptur og órólegur).

Hinrik. Sæll Magnús minn! — hann Bjarni

sagði mjer fyrir skömmu að jeg skyldi koma — en mjer þykir ílla fara. —

Magnús. Hvað þykir þjer ílla fara?

Hinrik. Að — að — sumargjafirnar, sem jeg fekk, vóru svo litlar, að — að jeg —

Bjarni. Þess meir gleðst hann Magnús okkar af því, að hann getur bætt þjer það, sem á brestur. Ó! þú trúir því naumast, hvað vænt honum hefur þókt um, að hann gat það. Segi jeg ekki satt Magnús minn?

Magnús. Ójú, og kom þú að borðinu Hinrik minn (þeir gánga að borðinu). Hjerna er jeg búinn að skipta sumargjöfunum mínum í tvo parta. Hjerna eru tertur og sætindi, og hjerna — allt er hjerna, skoðaðu! alltsaman!

Hinrik. Mjer þykir ílla — fara —

Magnús. Lángtfrá. Mjer þykir það verst, að sumu verður ekki skipt í jafna parta, svo sem t. a. m. þeim 13 myndum af leiri, sem eru 9 menntagyðjurnar, og 4 árstíðirnar, sem jeg gat ómögulega skilið að, nema láta 9 í annan og 4 í hinn hópinn; en samt ef þú vilt mælast til þess með einu orði, þá skal jeg taka árs-tíðirnar, en fá þjer 9 gyðjurnar.

Bjarni. Það veit jeg, hann Hinrik þiggur ekki.

Hinrik. Nei, nei! þetta er skop! aldeilis ekki þigg jeg það.

Magnús. En nú man jeg, að jeg á fallegar dósir með spegli í lokinu, þeim skal jeg bæta við og gefa þjer þær. Jeg fekk líka tvo stóra fugla af trje til að skjóta til; annar af þeim heyrir þjer til. Jeg skal strax sækja hann (hann hleypur burt).

Hinrik. (kallar á eptir honum) Láttu svona vera!

Bjarni. Hvernig lízt þjer núna á Hinrik minn! þar sjer þú hvað velþeinkjandi piltur hann Magnús er, hann vill heldur standa við orð sín, en hafa nokk-

urn rángan ábata, og í staðinn fyrir að vera stúrandi af skaða sínum, gleðst hann miklu heldur, og er að bera sig að gleðja þig.

Hinrik. Það er satt — jeg skammast mín aldeilis — að taka á móti því, og veit ekki — en samt, jeg veit — jeg veit ekki —

Bjarni. Hvað? skammast þín? jeg hef tekið eptir því, sem þú sagðir mjer áðan; er það þjer að kenna þó hann faðir þinn hafi ekki gefið þjer meira? hann Magnús var einusinni búinn að lofa þjer —

Hinrik. Já, vesælíngurinn hann Magnús!

Bjarni. Hann tekur sjer það ekki nærri. Honum hefði verið lángtum sárari svívirðíngin, að dylja nokkurn hlut, eða draga undan frá þjer, eða að svíkja þig, þú sjer það sjálfur.

Hinrik. Já, víst sje jeg það, enn þess meir —

Magnús. (kemur aptur með stóran, rendan og útskorinn fugl) Þarna, þarna! Hinrik minn! ef þú vilt tortryggja mig í nokkru, að jeg hafi dregið nokkuð undan, þá er hann Bjarni okkar þarna, hann veit —

Bjarni. Jeg get vitnað með honum — (Hinrik fer að vatna músum, og þurka á sjer augun) jeg trúi þú sjert farinn að gráta, geingur nokkuð að þjer?

Hinrik. Ónei! ekkert — ekkert — nema — að jeg — að jeg er — vond manneskja, að jeg — að jeg — hef prettað þig.

Magnús. Prettað mig? ónei! lángtfrá! við erum ofgóðir vinir til þess, og höfum leingi verið það — við erum vinir og nábúa börn. Slíkt hefur þú aldrei getað feingið af þjer að gjöra.

Hinrik. Þess verr! þess verr! þú ætlar mjer svo gott og ærlegt, og jeg (hann hleypur á háls honum, og faðmar hann að sjer) — en jeg skal þó sýna þjer, að jeg er ekki þinnar vináttu með öllu óverðugur. Jeg sagði satt, að jeg fekk ekkert hjá honum föður

mínum af glíngri eða sleikju-sætindum, en — en — (í því grípur hann í vasa sinn) hjerna gaf hann mjer 6 ríkisdali. „Þarna“, sagði hann, „er fyrir það, kauptú þjer sjálfur, eptir sem þú vilt, fyrir það sætindi, eða glíngur, eða bækur; jeg ætla að sjá þar af hvað þjer fellur bezt í geð“. Og nú — nú — nú sjer þú, að jeg er svikari, en þjer fer svo vel og ærusamlega við mig. Hjer eru 3 rdl. af þeim! þeir heyra þjer til; en hvað, sem um annað er, þá fyrirgefðu mjer, og vertu framvegis vinur minn!

MAGNÚS. (fellur honum um háls) Æ! æ! minn elskulegi Hinrik! mjer þykir vænt um þig, ekki vegna þriggja ríkisdalanna, við þeim get eg ekki tekið —

## 11. Atriði.

*Þeir fyrrnefndu. Hildur.*

HILDUR. Bjarni! þú átt strax að koma til hans föður míns! fljótt!

BJARNI. Æ! Hildur mín góð! má það ekki bíða eitt augnablik. Þjer rífið mig hjer frá þeirri mestu ánægju. —

HILDUR. Af því að ginna og ganta hann bróður minn. Kom þú! hann faðir minn mun ekki eiga að bíða eptir þjer, vænti jeg. (Hún tekur í hendina á honum, og dregur hann með sjer).

MAGNÚS. (kallar eptir henni) Systir! lofaðu honum að vera! láttú hann vera!

HILDUR. (snýr sjer við til baka) Það getur ekki — má ekki ske.

## 12. Atriði.

*Magnús. Hinrik.*

MAGNÚS, Já! Hinrik minn góður! mjer geingur ráðvendni þín svo til hjarta — þú breytir kannske betur við mig enn jeg á skilið?

HINRIK. Hvað? þareð þú hefur fríviljuglega gef-

ið mjer helmínginn af sumargjöfunum, sem þú fekkst? og svo sem jeg hafði þá breytt við þig.

Magnús. Fríviljuglega? fríviljuglega? nei! segðu það aldrei! jeg stóð svo streittur á móti því, að fá þjer helmíng af mínu, þegar jeg sá að ekkert var hjá þjer að vinna, og jeg var staðráðinn í að svíkja þig um það, sem jeg hafði lofað, ef hann Bjarni hefði eigi gjört það að.

Hinrik. Og hann er líka orsök til, að jeg varð ekki fullkomlega að svikara — ó! hann gekk á mig! já! hann gekk alvarlega á mig! og þegar jeg loksins kom híngað og sá, hvað frómlega þú hafðir skipt, þá gat jeg ekki leingur þraukað.

Magnús. Hann skipti sjálfur, lagði niður fyrir mjer, hvað svívirðilegt það sje, að standa ekki við orð sín; og svo mikið, sem ágirndin kvaldi mig, svo glaður er jeg nú — ó! jeg get ekki sagt frá því, hvað ánægður jeg er.

Hinrik. Jeg allteins. Jeg held jeg hefði aldrei þorað að sjá þig með augunum. Jeg hefði aldrei getað trúað því, að það kostar svo mikla mæðu, að breyta óærlega. Nú þykir mjer svo vænt um mig —

Magnús. Já, og mjer um mig! það eigum við að þeim ærlega Bjarna. Hann dreingurinn er svo fátækur, og þó svo góður! heyrðu! segðu mjer nú sannleikann! beiddi hann þig ekki um neitt af mínum helmíngi, svo sem í kaupið fyrir það, að hann sagði þjer, hvað jeg hefði feingið?

Hinrik. Nei! það var lángt frá því! hann talaði örugglega máli þínu, og ef jeg ekki með kænsku hefði lokkað það út úr honum, hvað þjer hefði verið gefið í sumargjöf, þá hefði jeg aldrei komizt að því. En hvers vegna spyr þú mig að þessu? hefur þú nokkrar líkur —?

Magnús. Hún systir mín var að vekja upp hjá mjer tortryggni.

Hinrik. Nei, Magnús minn! hann er búinn að ávinna sjer mína vináttu svo, að það er rjett að mjer komið, að gefa honum hina þrjá ríkisdalina mína.

Magnús. Á! viltu það? en samt; nei! ekki skaltu það! jeg skal gefa honum þá þrjá ríkisdali, sem jeg fekk hjá þjer, og samt skaltu halda mínum helmíngi, sem þú fekkst.

Hinrik. Hana! gefðu honum þá það, sem þú fekkst hjá mjer, og jeg skal gefa honum það, sem þú ljezt mig fá.

Magnús. Það fer vel! en þarna kemur hann.

## 13. Atriði.

*Magnús. Hinrik. Bjarni.*

Hinrik. Við erum hjer að tala um þig á bak, Bjarni minn! við Magnús erum búnir að taka okkur saman, að þar eð þú hefur kennt, og hjálpað okkur til, að vera ærlegir —

Magnús. Já, þá ætlum við að gefa þjer sumargjöf. Þarna, Bjarni minn góður! eigðu þrjá ríkisdalina þá arna —

Hinrik. Og þarna helmíng af því, sem jeg fekk núna hjá honum Magnúsi.

Bjarni. Nei, nei, mínir elsku-vinir! það skeður aldrei, að jeg taki við því.

Magnús. Þú verður að gjöra það.

Hinrik. Jeg tek ekki á móti því aptur. En jeg bið þig að vera eins vinur minn, eins og þú hefur verið vinur hans Magnúsar.

Bjarni. Ó! Hinrik minn góður (hann faðmar hann að sjer). Magnús minn blessaður! (hann kyssir hann) jeg get ekki haldið mjer frá að gráta. Ykkar góða hjartaþel kemur ykkur til að vera of örlátir. Nei

Magnús minn! jeg hvorki get nje má. Hann faðir þinn gæti hugsað —

Magnús. Jeg veit hvað þú meinar. En hann mun líka trúa mjer —

Hinrik. Taktu samt við að minnsta kosti af mjer Bjarni minn góður!

Magnús. Og af mjer líka — vilt þú gjöra mjer á móti —?

## 14. Atriði.

*þeir fyrri. Herra Sveinn* (hefur komið inn á baki þeirra, svo þeir sáu hann ekki, og hefur sjeð og heyrt hvernig piltarnir hafa verið að gánga eptir honum Bjarna, að hann tæki við sumargjöfinni).

Sveinn. Á! jeg finn ykkur hjerna, að þið eruð að metast um eitthvað? hvað er á ferðum? hvað er það, sem hann Bjarni litli vill ekki gjöra fyrir ykkur?

Magnús. Faðir minn góður! hann hefur fært mjer heim sanninn um það, að jeg eigi að meta ráðvendni meir enn penínga, og standa við orð mín, þó jeg hafi skaða af því, og núna — núna vill hann ekki jeg sje þakklátur við sig fyrir það.

Hinrik. Hann hefur gjört úr mjer ærlegan dreing, þar sem jeg áður var svikari. Hann hefur (hann þurkar sjer um augun), með því að hann Magnús minn góður var svo frómlundaður og örlátur, látið mig skammast mín svo mikið, að jeg þekkti mína yfirsjón, og skal aldrei láta mjer verða hana á aptur. Og nú ætlaði jeg og hann Magnús sonur yðar hver fyrir sig að gefa honum helmínginn —

Bjarni. Æ! herra Sveinn! hjálpið þjer mjer frá þeim! jeg var rjett núna að verja mig fyrir þeirri grunsemi, sem hún jómfrú Hildur dóttir yðar hafði uppvakið hjá yður, og tæki jeg núna við því arna, sem jeg hef gjört mjer svo mikið ómak fyrir

að ná frá þeim, svo mætti jeg hafa grunsemi um sjálfan mig, að jeg hafi gjört það til að ábatast á; æ! látið þjer þá ekki skemma mig!

SVEINN. Góðu, siðprúðu piltar! mikið vænt þykir mjer um ykkur! og helzt þig, (hann lítur til Bjarna) sem ert afbragðs barn! (hann kyssir hann). Þú átt lángtum meira skilið, enn þeir geta gefið þjer. Jeg skal skakka á milli, og skera úr þessari lofsverðu þrætu. Haldi hver ykkar því, sem hann á, en jeg skal taka uppá mig að launa — (Magnús og Bjarni fara að gráta).

MAGNÚS. Faðir minn góður! (hann kyssir á hönd hans) æ! viljið þjer ekki lofa okkur að hafa þá ánægju?

HINRIK. Þjer refsið mjer herra Sveinn, eins og jeg hef tilunnið. En einúngis í þetta eina sinni— (við hann Bjarna) æ! Bjarni minn góður! ef þú tekur ekki við því —

BJARNI. Nei! nei! jeg þakka yður minn góði herra Sveinn!

SVEINN. Þú verður að taka við því Bjarni litli. Það væri hart af þjer, ef þú vildir ekki láta þá njóta þeirrar gleði, sem þeir hafa af að vera góðgjörðasamir, og sem þeir, ef til vill, aldrei hafa fundið til svo stórrar áður eins og nú. Það getur einnig upphvatt þá til að gjöra gott eptirleiðis. Fáðu henni móður þinni þessa þrjá ríkisdali, hún er sómakona, sem hefur innrætt þjer þetta góða hugarfar.

BJARNI. Jeg verð þá! og — jeg þakka ykkur ástsamlegast mínir góðu elskuríkir vinir! mikil gleði verður henni móður minni góðri af því arna! — en jeg skeyti ekkert um sleikju-sætindin — um glíngrið að tarna!

SVEINN. Tertuna getur þú gefið móður þinni, og hin sætindin henni litlu systur þinni. Hitt glíngr-

ið skal jeg kaupa af þjer fyrir það, sem það átti að kosta hann Hinrik, fyrir — þrjá ríkisdali.

Bjarni. Æ! æ! góði, elskuríki herra Sveinn! hættið þjer! jeg get ekki — fyrir gleði — af þakklæti — lofið þjer mjer að flýta mjer til hennar móður minnar! svo rík hefur hún aldrei orðið síðan hann faðir minn sæli andaðist. Ykkur mínir elskulegustu vinir — (hann getur ekki, svo mikið verður honum um, komið orðunum út, en fellur þeim Magnúsi og Hinriki um háls), ykkur — þakka jeg —

Sveinn. Jeg verð líka að sýna þjer þægð Magnús litli, fyrir það þú ljezt að einlægri viðvörun hans Bjarna!

Magnús. Hvað getið þjer gjört mjer meira til vilja, enn þjer eruð búnir að gjöra?

Sveinn. Hvað lízt þjer um það, ef jeg nú þegar frá þessari stundu ljeti hann Bjarna verða lagsmann þinn, og ljeti lærimeistara þinn kenna honum ásamt með þjer?

Magnús. Þá þættist jeg verða sá mesti lánsmaður sem til er! hans eptirdæmi —

Bjarni. Æ! Magnús minn! æ! herra Sveinn! ykkar gæzka er meiri enn jeg geti fullþakkað hana — hvernig á jeg að gjöra mig hennar verðugan!

Hinrik. Lofið þið mjer að eiga þátt með í vináttu ykkar; aldrei hef jeg haft meiri gleði enn þenna stutta tíma. Jeg hef reynt það, sem jeg aldrei hefði getað trúað, að yndislegra er að gefa enn ábatast.

Sveinn. Svona eru eptirdæmin sterk! hver einn góður maður gjörir aðra góða af sjer. Haldið þið allir sífeldlega saman, og þá verðið þið eins góðir únglíngar og menn, eins og þið nú eruð góðir piltar.

---

## XXII. GÁTUR.

14) Hugur. 15) Skriðbitta. 16) Eva. 17) Sokkur *) 18) Kalk.
(líka vott hey).

19) Einginn hjálmur er svo haldgóður í stríði, sem jeg, á mjer er ekki minnsta rifa eður gat, sem mjósti spjóts-oddur geti hitt. Það höfuð er óhult, sem jeg vernda.

20) Hvað er það, sem ekki verður á morgun það sama, og það er í dag; missir borð, rúm, hús og nafnið með, en grætur samt ekki missirinn?

21). Jeg er ekki utan höfuð og hali, augna- eyrna- og nef-laus; heilinn í mjer rírnar opt af eldi. Bezt á jeg, þegar jeg má vera í einhverju horninu, því fyrir hversu litlu harðhnaski sem jeg verð, tortýnist bæði höfuð og hali.

22) Hvað gjörir hver einn hlutur, sem lifir á jörðunni, syndir í vatninu, eður sveimar í loptinu, altaf þángað til hann deyr.

23) Við erum limir eins líkama, urðum húðflettar, og síðan nauðbeygðar til að gjöra þjer það gagn, sem þú vilt. Hvað ætli við fáum loksins til launa,annað enn eldinn?

## XXIII. LOFORÐ Á SKEIÐ, ÚTGJALD Í HAPTI.

færi betur:

## LOFORÐ Í HAPTI, ÚTGJALD Á SKEIÐ.

Þegar jeg kom inn í baðstofuna, var fyrir stundarkorni búið að kveikja, og heyrði jeg að eitthvað var í tali, sem allir tóku sjer nærri, sinn uppá hvern hátt; en jeg var ekki búinn leingi þar að vera, fyr enn farið var að bera undir mig hvað jeg

*) Fiðrildis-maðkur spinnur silkið, og kotún vex á trje; úr hverjutveggja eru sokkar stundum gjörðir.

til segði, og var þá umtals efnið *gleðin* sú í gærkvöldi, þókti sumum vænt um Bjarna, og hrósuðu hans aðferð í öllu; aðrir sögðu: að Magnús hefði átt um sárt að binda, og þeir vóru til, sem vildu, ef ekki afsaka, þá samt ekki kasta þúngum steini á hann Hinrik. Jeg fór að, eins og í fjölmennu dómunum er vant, að tekinn er meðalvegurinn til að gjöra að grundvelli atkvæðisins, og spurði Erlend, sem mest aumkaðist yfir hann Magnús, hvort honum sýndist ekki, að Magnús hefði rjett gjört?

Erlendur. Ekki get jeg að sönnu neitað því; en —

Prestur. Ætli þú hefðir viljað taka loforð þitt aptur eins og hann Magnús, þegar þú hefðir sjeð, að þú náðir ei þínum ásetníngi.

Erlendur. Hræddur er jeg um að runnið hefðu á mig tvær grímur; því hart var það —

Prestur. Þess hrósverðara var það fyrir hann, að láta samvizkuna ráða meira enn ágirndina. Ef hver einn vildi eptir hugþótta sínum finna undanbrögð að halda loforð sín, eptir því, sem hann hefur ábata af þeim, eða ekki, þá væri ekki lifandi í veröldinni, því þá mætti eingum trúa, eins og jeg sagði ykkur á mánudaginn var.

Erlendur. En hjer var skaðinn þolanlegur, prestur minn! hvort sem hann Hinrik fekk sætindin og glíngrið, eða ekki, og það, sem hann tapaði í þessu, hefði hann Magnús unnið, svo staðizt hefði landið fyrir því.

Prestur. Svo er líka í fleirum svikum og prettum. Hjerna var að sönnu ei von á stríði konúnga og landa á milli, hvort sem Magnús stóð við orð sín eða ekki; en nógur gat skaðinn samt orðið; að fóttroða dygð og rjettvísi, að gjöra á móti samvizku sinni, hvorttveggja er óbætanlegur skaði,

með hversu miklum peníngum eða peninga virði, sem vera kynni, því frómlyndi og sannleiks elska eru sá bezti dýrgripur, sem nokkur maður getur átt, undir þeim er farsæld hans komin, því einginn getur haft góða samvizku, eða sómamaðar verið nje heitið, nema hann sannarlega hafi til að bera, og sje kenndur að haldinyrðum, trygð og frómlyndi. Eins og það er einn af guðs óendanlegu eiginlegleikum, að hann í Ritníngunni kallast sá *sannsöguli*, og að hann *haldi trygð æfinlega*, svo er það einnig ypparlegt hrós fyrir hvern einn mann, ef allir bera það, að sjerhverju hans orði megi óhætt trúa. Aptur á mót vita allir strax, að sá maður er afskúm, og einginn spyr leingur að, hvað við hann sje, þegar með sanni má um hann segja: að honum sje ekki trúandi til eins orðs. Þú sagðir, Erlendur! að landið hefði getað staðizt fyrir því, hvort hann Magnús hjelt orð sín eða ekki. En sagðir þú það sama í fyrra, þegar formaðurinn, sem jeg þarf ei að nefna, sveik þig um skiprúmið? þú hafðir ekki vitni til þess, sem þið höfðuð talað saman, þú fekkst að sönnu inni annarstaðar, en eptir að þú hafðir setið mikið af þjer, og á ónýtum bát, sem aldrei komst út nema í bezta blíðviðri, hjá ónýtum formanni; ætli þú trúir hinum formanninum næsta daginn, og veiztu ekki hvaða orð er allstaðar á hann komið? sá sem einusinni svíkst um loforð sitt, honum er síðan aldrei eins vel trúað á eptir, hvað þá ef hann gjörir vana af því? Jeg veit til eins dæmis, að aldrei trúði einn sonur föður sínum, eptir að faðirinn hafði einusinni prettað hann, og vera má að sonurinn hafi optar rekið sig á sama, en af því eina skipti vissi jeg, því jeg var kunnugur lærimeistara piltsins, og hann sagði mjer frá hvernig það til gekk: pilturinn var mirkfælinn, svo aldrei fekkst af honum að fara

neitt einsömlum í mirkri, og varð ætíð að fá sjer einhvern til fylgðar, þó ei væri að fara nema fram í gaungin. Faðir hans, sem var fastur á peníngum, lofaði að gefa honum málaðan skrifstokk, með blekbittu og sandbittu í af gleri, ef hann færi einnsaman í mirkri út í kirkju, og sækti þángað skriðbittuna, sem stóð í kórnum hjá altarinu. Pilturinn vildi allt til vinna, og þó hann varla næði öndinni af hræðslu, gjörði það, og síðan fram eptir vetrinum mátti hann opt uppá sömu von fara einn út, fram í eldhús eða út fyrir bæardyr, og með því móti mínkaði mirkfælni hans; en þegar farið var um sumarið í kaupstaðinn, og sonurinn minnti föður sinn á skrifstokkinn, var þar ekki nærri að koma, nema faðirinn sló öllu uppí spaug, og sagði, að dreingurinn væri barn, svo ekkert væri að marka hverju hann lofaði, og ekki heldur mætti hann heimta að það væri gildt, sem fullorðnir lofuðu honum. Hvernig lízt þjer á það Erlendur?

Erlendur. Sá piltur má hafa verið mikið náttúrugóður, ef hann hefur ekki bæði orðið svikull og tortrygginn, að minnsta kosti gjörði faðirinn sitt til, að innprenta það hjá honum með þessu. En stundum kunna loforðin að vera þau, sem ekki má halda.

Prestur. Víst finnast þau loforð, sem eru heimskuleg, ómöguleg, og jafnvel syndsamleg, eða og öðrum til stórs skaða. Ef hún Kristrún litla vildi lofa mjer, að bera mig fram í bæardyr, þá gæti hún það ekki. Ef jeg vildi lofa honum Guðmundi litla að ríða með honum á stafnum hans á sunnudaginn kemur, kríngum alla kirkjuna, eptir að jeg er búinn að skripta fólkinu, þá væri það heimskulegt, og ef jeg vildi lofa einhverjum að hjálpa honum til að stela, þá væri það syndsamlegt. Líka ef eitt 6 vetra gamalt piltbarn, lofaði stúlkubarni, á

aldur við sig, að eiga það, en þá þau kæmu til vits og ára, reyndist, að þau ættu ei geð saman, eða það væri móti vilja annarshvers náúnga þeirra, þá væri slíkt loforð ómark, því það stóð ei í barnanna valdi að trúlofast. Þess vegna hafði hún Hildur rjett fyrir sjer í *gleðinni*, að hann Magnús hefði átt að hafa samþykki hans föður síns í því, sem nokkuð reið á, og Magnús ekki var ráðandi um, enda hafði Bjarni líka rjett fyrir sjer, að í smámunum, um brauðköku, lítinn mann af blýi, og þvílíku, sem slíkur höfðíngi, sem hann herra Sveinn var, hefði leyft 10 vetra gömlum syni sínum að ráða, átti Magnús, að standa við orð sín, biðja föður sinn að lofa sjer, að halda þau, en einkum átti hann, eins og hann Bjarni sagði, að hugsa sig vel um fyrir fram hverju hann lofaði. „Hugsa þig", sagði einn vitur maður, „heila stund um, fyr enn þú lætur orð útúr munni þínum fara, svo þú talir ekkert þjer eða öðrum til skaða, hugsaðu þig heilan dag um, fyr enn þú lofar nokkru, svo þú ei þurfir að gánga á heit þitt." Þetta, að hugsa sig vel um, áður enn nokkru er lofað, er höfuðregla í þessari grein, og það eigið þið börnin mín! að venja ykkur á. Hugsið þið strax með ykkur, og hugsið eptir því, hvort það, sem þið eruð beðin um, eða þið ætlið að lofa, sje skynsamlegt, hvort þið getið það, hvort þið megið það, og hvort það stríði ekki móti neinni þeirri skyldu, sem annars á ykkur liggur. En ef ykkur, svo sem hæglega getur skeð, meðan þið eruð ekki komin til fullrar greindar, verður á að lofa því, sem þið annaðhvort megið ekki, eða getið ekki efnt, þá segið þið þeim það strax frómlega, sem loforðið hefur hjá ykkur feingið, og biðjið þið hann að gefa ykkur það upp.

Líður. Einginn getur neyðt mig; faðir minn

góður! til að halda það, sem jeg aldrei mátti lofa, af því jeg er barn.

Prestur. Satt er það Líður minn, að lögin frítaka börn og óvita frá að halda loforð, það verður að vera vegna þeirrar vanbrúkunar, sem ásælni gæti annars haft og nýtt sjer. En í öllu á hvert eitt barn samt, samvizku og rjettinda að gæta, frá því það fær nokkuð vit og greind, og þú mátt vera viss um, að hvert það barn eða únglingur, sem afsakar sig með því frá að halda sannsýnilegt loforð, af því það sje barn og ómyndugt, spillir sínu góða mannorði, bæði hjá sínum líkum og öðrum eldri. Jeg skal segja ykkur dæmi uppá þetta:

Tveir dreingir fóru á berja-móa, þeim kom saman, að annar þeirra skyldi leita upp beztu klærnar, og setja hjá þeim merki, en báðir skyldu á eptir skipta feingnum jafnt milli sín. Sá, sem ekkert gjörði nema tíndi berin þar, sem þau voru mest, og gekk að þeim vísum, var fljótt búinn að fylla askinn sinn, hljóp strax með hann heim, en ljet lagsmann sinn ekkert af þeim berjum fá. Einn annar dreingur tók snæri uppúr vasa sínum, og hrökk þá knífur hans upp með, en hann mundi ei hvar það hafði skeð, fekk því af öðrum dreing að leita að honum, og lofaði honum litlum stokk, sem hann átti, í staðinn, ef hann findi knífinn. Hinn dreingurinn var meir enn hálfan dag að leita, fann loksins knífinn, en þá fekk hann ekki stokkinn, eða neitt í fundarlaun, því eigandi knífsins bar það fyrir sig, að barna loforð gildti ekkert. Var þetta sanngjarnlegt eða sómasamlegt? Ef jeg hefði átt að segja mína meiníngu, þá áttu báðir hrekkjadólgarnir að ríða í skóg fyrir ómakið.

Öðruvísi fór einn stúdent að, sem missti snemma báða foreldra sína og erfði eptir þá nokkur hundruð

hundraða, svo hann hefði getað lifað af eignum sínum. Vegna þess hann barst mikið á, og keypti margan óþarfa, komst hann í skuldir, en margir lánuðu honum samt, bæði af því þeir vissu hvaða eignir hann átti, og líka af því allir vissu, að hann hvorki spilaði því burt eða drakk það út, nje sóaði því í vondum selskap. Samt uxu skuldir hans af ráðleysi, og urðu svo miklar, að hann átti ekki mikið meir enn fyrir þeim, þegar hann varð fjár síns ráðandi og fór frá háskólanum. Skuldaheimtumenn hans ætluðu þá að taka allt hvað hann átti, en setja hann í fángelsi; nú segja lögin sú skuld sje svo sem eingin, að fráteknu nokkru litlu, sem ómindugum er lánuð, hvar fyrir nokkrir, sem lifðu á málaferlum, og skammsýnir vinir hans, rjeðu honum að nýta sjer þetta lagaleyfi, borga ekkert, en hlæja að auðtryggni þeirra, sem hjá honum áttu. Hann fjelst þó ei á það. Nei! svaraði hann þeim: mitt góða mannorð er mjer kærara enn allt hvað jeg á. Þeir, sem hjá mjer eiga álitu mig vera sóma-mann, en ekki sem barn, þegar þeir trúðu mjer fyrir láninu. Á jeg að gjöra öllum kunnugt að jeg til forna hafi breytt fyrst eins og óviti, en nú síðan eins og hrekkja-dólgur? þó lögin geti verið mjer til skjóls á þínginu, þá dæma samt bæði skynsemi og sómatilfinníng mig í hjartanu að jeg væri þá svikari. Óforsjálni mín skal kenna mjer að verða hjer eptir skynsamari og varkárari í því, sem jeg lofa; hann borgaði þá allt saman. Kunníngjar hans og náúngar sögðu hann væri sjálfheimskur, og hann skyldi aldrei hjálpar vænta af þeim, eptir svoddan glópskubragð, og spáðu hann mundi deyja útaf i eymd og fyrirlitníngu. En þeim varð ei spá úr þeirri getu; sómatilfinníng hans kom honum í það gæti bæði hjá skuldaheimtumönnum hans og öðrum, að þeir

hjálpuðu honum í öllu, sem þeir gátu, og þar hann ætíð hafði verið ástundunarsamur, og lært það, sem honum var bæði til gagns og æru, var kann tekinn af ríkum velviljuðum manni til að kenna börnum hans, leysti hann það verk vel af hendi, komst í gott embætti, og hjelt ætíð sama áfram, að vera orðheldinn, frómlyndur og ærlegur. Hvorki hefði nokkur málsmetandi maður trúað honum fyrir að uppala börn, eða fyrir neinu embætti, ef hann hefði bætt því ofaná úngdóms sóunarsemi sína að svíkja aðra um það, sem þeir í trúnaði höfðu lánað honum.

Svo — börnin mín góð! venjið þið ykkur sífeldlega á, að lofa eingu nema því, sem þið ætlið ykkur að halda, og þegar þið eruð búin að lofa einhverju, þá látið einga sjerplægni eða hviklyndi koma ykkur til að brjóta ykkar loforð. Magnús litli! manstu hvað jeg fyrir tveimur árum las þjer fyrir og hjer á heima, en þú áttir að snúa á latínu:

Magnús. Mig minnir það væri þetta: „þann, sem lofar miklu, segir öllum já, en efnir lítið, vantar eigi nema þrjá (það er alla) af sálarkröptunum: *skynsemina*, áður enn hann lofar; *fríviljann*, meðan hann er að lofa; og *minnið*, eptir að hann er búinn að lofa.“

Prestur. Svo svívirðilegt er þá í allra góðra manna augum að vera orðheldnislaus, en sá, sem temur sjer ráðvendni í þessu úngur, verður á gamal-aldri sínum enn fullkomnari í henni. Allir munu álíta hann svo sem sóma mann, eitt hans orð mun gilda eins og annara tíu eiðar, og hann verður guði og mönnum þóknanlegur.

Við skulum upphvetja hver annan til þessarar dygðar, með að sýngja seinasta vers af sálminum: grem þig aldrei þá guðlausir.

*Hreinskilinn sjert og halt þig rjett, o. s. frv.*

## XXIII. SKYLDIR ÞÚ EIGI VERA MISKUNSAMUR VIÐ ÞINN SAMLAGS ÞJÓN? Matth. 18, 33.

*Friðsemin* er sú dygð, sem mikils er áríðandi, og nauðsynlega á að finnast hjá hverjum, sem vill sannkristinn heita, og góður limur borgaralegs samfjelags. Það ríður mikið á að þekkja hana rjettilega, hvernig hún á að auðsýnast, og hvað gott hún af sjer leiðir.

Þessi dygð er í því innifalin, að hegða sjer kærlega og vinsamlega við aðra, jafnvel þá, sem breyta ófriðsamlega við oss, líka og kappkosta að halda við eindrægni milli annara úti frá; en svo sem flestar dygðir verða fyrir því, að lestirnir eru á stundum málaðir með þeirra litum, þá er það ekki allt friðsemis dygð, sem svo er kallað. Ekki meina jeg hjer þá, sem útvortis látast vera friðsamir, og með dæsum og blíðyrðum bera sig að sýnast það, þó hjartað sje fullt af hatri, eða klaga sáran yfir mannanna einíngarleysi, en niðrí spilla milli vina og kunníngja. Slíkir menn eru mestu og vestu hræsnarar, en það eru líka flestir, sem geta þreifað á hvað óheilir þeir eru. Ef þið minnið mig á, skal jeg á morgun segja ykkur dæmisögu uppá þessháttar ófriðsemis uppkveikjendur. En aðrir eru, sem með meira rjetti geta heitið friðsamir, eru það þó raunar ekki; slíka er nauðsyn að þekkja, svo vjer ekki drögum sjálfa oss á tálar í, að þykjast vera friðelskandi, en vera það ekki.

Margur kynni t. a. m. þykjast friðsamar, sem ekki ver sig þegar einhver rángsleitinn ásælist hans eignir, sem þolir að hann sje skammaður út, ellegar lætur svívirða sig og fara illa með sig; en slíkt er ekki friðsemi, það er deyfð og tilfinníngarleysi;

þetta kemur af leti og ofmikilli rósemis elsku, ellegar hræðslu, þá slíkir láta vonda menn breyta við sig eins og þeir vilja. Aðrir eru svo óviðkvæmir um sitt gott mannorð og sóma, að þó þeir viti með sjálfum sjer, að þeir sjeu ekki valdir í því, sem þeir eru skuldaðir fyrir, þá kæra þeir sig þó ekki um, hvað aðrir dæma um þá, en svoddan afskiptíngarleysi er ekki hin rjetta friðsemi. Sá getur sett sig til varnar og móti annara ásælni, og rekið til baka skaðlega lýgi, sem er sannarlega friðsamur, því af aðferðinni sem hver einn brúkar við þá, sem móðga hann, sjest hvort hann er friðsamur eða ekki. Minn kristindómur heimtar ekki af mjer, að jeg skuli láta ræna frá mjer eignum mínum, án þess jeg verji mitt, en hann skuldbindur mig til, að gjöra það með hógværð, breyta við minn mótstöðumann án haturs og hefndargirndar, og að sannfæra hann um, að jeg sje vinsamlega sinnaður við hann og friðelskandi. Sá, sem er sannkristinn, getur ekki verið tilfinníngarlaus, þá hann er skuldaður fyrir æruleysis verk, þvi hreinsi hann sig ekki frá því álasi, þá er hann optastnær álitinn fyrir sekan; en honum ríður mikið á því, hvort hann er álitinn fyrir guðhræddan eður óguðlegan, dygðauðugan eða lastafullan. Sá sem hefur embætti á hendi, hversu lítið sem það er, svíkur sinn yfirboðara, sem hefur trúað honum fyrir því, og gjörir sig sjálfan fyrirlitinn, ef hann verndar ekki sinn embættis sóma móti þeim, sem með óhlýðni eða ósönnum sakargiptum niðra honum. Að sönnu getur sá sannkristni verið rólegur í hjarta sínu, þegar hann veit með sjer, að guð þekkir hans sakleysi, en hann getur ekki með lærdómi eða eptirdæmi komið góðu af stað í heiminum, þegar aðrir ætla hann sje sekur í þeim skömmum og löstum, sem uppá hann eru lognir, hann má þess vegna,

já, hann á að hreinsa sig frá slíkum óhróðri, en sýna friðsemina í aðferðinni við sinn mótstöðumann. Það er: hann á ekki að gjalda íllt á móti íllu, ekki lastyrði móti skammarorðum, heldur segja einasta eptir síns frelsara dæmi Jóh. 18, 23. „hafi jeg ílla talað þá sanna þú það“, og þannig með elskusemi og hógværð bera sig að gjöra vin úr fjandmanni sínum. Svo breytir hinn sannkristni þegar hann er móðgaður. Sú spilta náttúra kennir oss ekki þetta. Hún segir: „þú átt að gjalda líku líkt, þú átt ekki að þola slíkar mótgjörðir, úr því þú hefur ráð til að hefna þín, allir sem þekkja þig munu hlæa að þjer, ef þú rjettir ekki alvarlega hluta þinn!“ Þeir sannkristnu aptur á mót sýna trúna í verkunum, þeir yfirvinna sína óstýrilátu sjálfs elsku, er ekki hirðir um neitt nema sjálfan sig; stoltið, sem ekki þolir minnstu móðgun, eða virðíngar-brest, og heimkulega feilni, sem ekki þorir að gjöra annað enn það, sem veröldin hrósar. Látum oss miklu heldur breyta eptir vorum frelsara í þessu! „gjörið ekkert,“ segir postulinn Páll, Filipp. 2, 3—7 „gjörið ekkert af þrætugirni eður hjegóma dýrð, heldur af lítillæti, haldi hver annan æðri enn sjálfan sig, og líti hver einn ekki einasta á það, sem hans er, heldur líka það, sem annara er. Hver einn sje svo sinnaður, sem Jesús Kristur var, sem — lítillækkaði sjálfan sig.“ o. s. frv.

Það er ekki nóg til sannrar friðsemi, að vera kærlega sinnaður og vera reiðubúinn til sátta, þegar oss er á móti gjört, heldur eigum vjer þar að auk bera oss að koma einíngu á milli annara, sem missáttir eru. Það skipaði Jesús okkur með berum orðum, Matth. 5, 9. „Sælir eru þeir, sem friðinn semja, því þeir skulu guðs börn kallaðir verða.“ Sá sannkristni kappkostar að koma á friði og ein-

íngu, hvar sem hann getur, en margsinnis afrekar hann lítið eða ekkert, og má þá klaga með Davíð, Sálm. 120, 6. 7. „Leingi hef jeg mátt búa hjá þeim, sem hata frið; jeg er friðsamur, en þeir spinna þrætu efni út úr því, sem jeg tala.“

Á friðseminni ríður harla mikið: einginn er sannkristinn, sem ekki fylgir síns lausnara dæmi í þeirri dygð; einginn er án hennar nytsamlegur limur í manna samfjelagi, og hún er eins og lífið og sálin í allskonar samheldi, hvort sem það er smátt eða stórt. Heillra landa og ríkja velferð er komin undir friðsemi og samheldni. Ef undirsátarnir eru ei samlyndir við þá yfirboðnu, þá er úti um þess ríkis velferð. Sje ekki friðsemi í einhverri sveit, þá ber hver sig að gjöra öðrum skaða og íllt. Allt hvað þeirrar sveitar innbyggjarar taka sjer fyrir hendur, dettur um koll, þegar sitt vill hver, en eingir leggja saman til þess, sem þarft og nytsamlegt er, eingri samþykt verður heldur á komið þar, sem einginn vill fallast á það, sem flestir skynsamir vilja. Allt hið sama er að segja um hver heimili fyrir sig, þegar ósamlyndið er milli hjónanna, milli foreldra og barna, milli hússbænda og þjónustufólks, þá er öll gleði og ánægja burtu, ekkert verður útrjettað, og þar er eingin lukka; þvert á móti, hvar sem er friður og eining, og hver vinnur öðrum í hag, þar geingur eins og Davíð segir, Sálm. 133, 1. 3. „Hversu gott og yndislegt er þar, sem bræður búa saman í eining! drottinn hefur skipað blessuninni að vera þar, og mun gefa þeim allslags sífelda farsæld.“ Þessi Davíðs orð sína, að guð elskar og blessar hina friðsömu, öllum góðum mönnum eru þeir vel þokkaðir, og mega vænta sjer hjálpar af þeim, þegar á liggur, í staðinn fyrir að allir forðast ófriðsama eins og höggorm. Þeir friðsömu hafa

sinnis rósemi og innvortis gleði í samvizkunni, þeir njóta og svo opt þeirrar ánægju, að yfirvinna sína fjandmenn með elsku og góðsemi, og opt heppnast þeim að koma forlíkun á milli þeirra, sem missáttir eru; en þegar sá friðsami fær hatur vegna elskuseminnar, eður rángl átir ofsækja hann, hefur hann samt ætíð rólegt geð, því hann veit, að hann er ekki sjálfur orsök í þeim mótgángi, heldur má hann treysta á guðs loforð: „sæll er sá maður, sem þolinmóðlega líður freistínguna, því þegar hann er reyndur, skal hann fá lífsins kórónu.“ Jak. 1, 12.

Sjáið þá hjer af, mín góðu börn! hvað gott ykkur er, og hvað mikið á því ríður að vera friðsöm, og yðkið ykkur sífeldlega í þeirri dygð, gefið aldrei efni til þrætu eður óeiníngar, en „stundið eptir friði við hvern mann Hebr. 12, 14.“ Auðsýnið yðar mótstöðumönnum elsku, og sannfærið þá með hógværð um þann órjett, sem þeir gjöra yður. Láti þeir samt ekki undan, þá sýnið þið það sjálf með ykkar dæmi, að sá hefur meira vitið, sem undan lætur. Forðist mála-sóknir svo mikið mögulegt er, því í þeim er bágt að halda eins elskuríku hjartalagi við sinn mótstandara eins og vera á. Meðan á þeim stendur er mótgjörðin alltaf í huga þess, sem óskundann leið, þar af kann að rísa hatur til hins málspartsins. Tapi sá málinu, sem byrjar það, þá neyðist hann til að sleppa þeim ábata, sem hann sókti eptir, og þvíngast til að gjalda enn meira; það espar upp sinnið. Þó hann vinni, þá styrkist hann þar af í þeim þánka, að hann hafi haft rjett fyrir sjer, og hugsar að hann megi hefna órjettarins, hvað samt ekki er kristilegt. Þó ekki væri nema vegna ykkar tímanlegs ábata, þá ættuð þið að forðast málavastur. Það gjörir sinnið órólegt, hindrar ykkur frá að gæta þess, sem þið eigið, spill-

ir tíma, eyðir peníngum, og opt og tíðum tapar sá, sem vinnur, lángtum meiru enn þrætu efnið sjálft var vert, þar fyrir er alltjafnt skynsamlegra, að taka þolanlegum sáttum í tíma, þó nokkur sje skaðinn, en tapa síðan meiru með lángvarandi lagadeilu, því sá málsháttur er sannmæli: *betri er mögur sætt, enn feit málssókn.* Uppá þetta skal jeg, til viðvörunar, segja ykkur einhverntíma hvernig honum *mála Eiríki* gekk, sem lifði fyrir ykkar minni, en þið munuð þó hafa heyrt hann nefndan.

Svo kann hæglega til að bera, að sá sannkristni verði að brúka rjettargáng, þegar einhver samvizkulaus maður reynir til að svæla undir sig eignir hans eður spilla hans tímanlegri velferð; æru-þjófurinn skemma hans góða mannorð, og slík íllmenni geta ei unnizt með góðu, eða vilja ei taka þolanlegri sætt, þá verður ei hjá því komizt að brúka lagasóknir. En bæði kemur slíkt sjaldan að, og líka veit kristinn maður sjer til huggunar, að hver einn rjettvís dómari gjörir þá að skyldu sinni að vernda hann, og fleiri rjettkristnir hjálpa honum, þegar hann líður fyrir sakleysi. Þar á mót stendst það ei með sönnum kristinndómi, að fara fyrir rjett með hverja smámuni, eður hvert eitt aukatekið orð, til að forða sjer litlum halla, eða ábatast um lítilræði. Slíkt sýnir hefndargirni, ágirnd og ófriðsemi, sem jafnvel jarðneskir dómarar láta ei óstraffað. Gætið ykkar því börnin góð, að þið ei styggið guð, spillið sinnisrósemi ykkar, og vogið ykkar efnum, því í flestum málum er sigurinn þar að auk undir hælinn lagður. Minnist á áminníngu postulans Páls 1 Kor. 6, 7. Í því er áfátt yðar á milli, að þjer hafið málasóknir hver móti öðrum. Því líðið þjer ekki heldur órjett? því látið þjer ekki heldur hafa nokkuð af yður?“ látið aldrei veraldarinnar dóma fæla ykk-

ur frá að vera friðsöm, sáttargjörn og eptirlát, þó aðrir spotti ykkur og hlæi að ykkar friðsemi, eða kalli hana gúnguskap, þá skammizt ykkar samt ekki fyrir, að sýna í verkinu sannan kristinndóm. Hverskyns kristnir menn eruð þið, ef þið skammizt ykkar fyrir að sýnast það? „afneitið þið þá ekki þeim drottni, sem endurleysti ykkur, hvar með þið munuð leiða hraparlega töpun yfir ykkur sjálf?" 2 Pet. 2, 1. Gætið að því, að guð vill ei þekkja þá fyrir sína, sem ekki þora að kannast við hann fyrir mönnunum, Matth. 10, 32. 33. Verið þess vegna í friðseminni, eins og í öllum öðrum dygðum, Jesú sannir eptirfylgjendur, og munuð þið bæði þessa heims og annars fá og finna þar af æskileg not, Með hógværð og friðsemi skuluð þið geta áorkað miklu meira enn veraldlega sinnaðir með allri þeirra áfergju og keppni; guð mun hnegja sinni óvina ykkar, og láta ykkur reyna, „að hann hefur þóknan á þess manns framferði, sem stundar einíngarsemi, og mun gjöra, að jafnvel fjandmenn þess hins sama hafi frið við hann." Orðskvb. 16, 7.

Að endíngu skulum við sýngja (2 seinustu versin af sálminum: Ósaurguð elska ekki má):

*Kærleiks-verk sál mín keppstu við, o. s. frv.*

*Eins herra þjónar erum vær, o. s. frv.*

---

Þegar er búið var að kveikja, minntu börn mín mig á loforð mitt í gærkvöldi, að jeg ætti að segja þeim dæmisögu, og nokkuð um hann *mála Eirík*. Jeg vildi ekki þau finndu mig að vera einn af þeim, sem vanta þrjá af sálar-kröptunum, eins og í fyrra kvöld kom til orða, og þess vegna byrjaði jeg á:

## XXIV. ÆFISÖGU EIRÍKS.

Skikkanlegur góður maður átti meðal annara barna sinna þann son, er hjet Eiríkur, og sem frá blautu barns-beini aldrei gat á sárs-höfði setið við systkin sín. Þegar þau vildu eitthvað, þá vildi hann annað, gjörði þeim opt rángt til í smáu, sagði eptir þeim hjá foreldrunum, og stóð alltíð uppá sitt mál með dirfsku og frekju. Þegar hann var orðinn vaxinn, og átti við vandalausa saman að sælda, ljet hann sama geðslag í ljósi; alltíð hafði hann eitthvað útistandandi við einhvern, hafði ætíð það viðkvæði: *ekki eru það lög!* hversu rjett, sem aðrir höfðu fyrir sjer, en sjálfur sveifst hann einkis að gjöra á annara hluta, svo faðir hans hafði nóg að gjöra að sætta allan þann óróá, sem hann kom af stað, og þó faðirinn sífeldlega áminnti hann til friðsemi, tjáði það ekki. Faðirinn lagðist síðan í sótt, og þá hann hugsaði, að hann mundi ekki eiga lángt eptir, kallaði hann börn sín fyrir sig, og gaf hverju þeirra þá viðvörun, sem átti við hvers þeirra ástand og sinnislag; við Eirík sagði hann: sonur minn! mundu mig um, að svo sannarlega,sem þú vilt sjálfum þjer vel, vertu friðsamur og kappkostaðu að lifa í eníngu og kærleika við þá, sem þú átt nokkuð við að skipta; þú bæði styggir guð með ófriðseminni, og líka verður þú sjálfur lánlaus skepna, ef þú lætur þann löst við þig ráða. Þessi voru hans gamla guðhrædda föðurs seinustu orð við hann, og því miður! að þau urðu að sannspá um þenna óróasegg. Eiríkur erfði nokkra penínga eptir föður sinn, fjekk líka fjáða konu, hvar af honum óx hugur, svo hann hugsaði sjer, að nú skyldi hann fyrir eingum láta sig, helzt þar eð hann var kominn í gott gæti hjá sýslumanninum, sem brúkaði Eirík til stefnu-

fara og málasókna þar, sem sýslumaðurinn þurfti einhverjum óvönduðum á að siga, hvað Eiríki ætíð var stærsta yndi að framkvæma. Hann keypti sjer jörð, og setti á henni bú; enn áður enn árið var á enda, var hann kominn í þras við alla nágranna sína, því hvað sem aðrir komu sjer saman um sveitar-skil, niðursetur, fjall-skil eður annað, vildi hann aldrei á það fallast nje hlýða því, svo á hverju þíngi var nóg rimma útaf því, og stundum málasóknir. Þegar einhver misklíð varð í sveitinni, var Eiríkur að blása að þeim kolum, og stappa í málspartana stálinu; allir skikkanlegir menn höfðu þess vegna ýmugust á honum og forðuðust hann, svo þó hann gjörði nokkuð á þeirra hluta, ellegar byrjaði þras, gáfu þeir heldur eptir, enn hafa nokkuð við slíkan mann að skipta. Þar af varð hann svo drambsamur, að hann hugsaði sjer mundi haldast uppi að gjöra og hann gæti forsvarað allt, hvað sem hann vildi. Gamall, fátækur maður var nábúi Eiríks, svo eingjar þeirra lágu saman; landamerkja-steinarnir sáust ekki, því þeir vóru sokknir í jörð, og gróið gras yfir þá. Eiríkur hugsaði sjer þess vegna að ná undir sig stóru stykki af þessu nábúans eingi, hótaði einnig manninum stefnu, ef hann vildi ei þola það. Maðurinn, sem ei vildi láta taka eign sína frá sjer með ofríki, varð að fara í lagasóknir, en Eiríkur hafði sýslumanninn með sjer, svo ekkert var gjört við aðalmálið, en það var sett upp þíng af þíngi, þángað til út úr því spunnust tvær eða þrjár aðrar sakir. Hvað skyldi fátækur og friðsamur maður hjer til gjöra? talsmenn hans brugðust honum, hann var ei svo ríkur, að geta feingið duglegan varnar-mann lángt að, og þó var óvíst hvaða endalok málið kynni að fá. Hann sættist því, eptir sýslumannsins ráði og undirlagi, hvar með Eiríkur eignaðist eingið, en

hinum sökum, sem útaf því höfðu risið, var sleppt. Af þessum sigri gladdist Eiríkur mjög svo, en hann varð honum samt að refsíngu og eyðileggíngu. Það geingur einatt svo til fyrir óráðvöndum, guðlausum, mönnum, að það verður sópur á þá þeim til straffs, sem þeir mest gleðjast af, og hugsa sje sinn stærsti ábati. Á sama ári og sættin var gjörð, dó fyrrtjeður gamli nábúi Eiríks, og ríkur maður af jarðagózi og öðru, sem ekki var hræddur við lagasóknir, keypti jörðina eptir hann; þegar er hann var búinn að fá hana, fór hann að undirbúa mál, til að ná aptur undir hana einginu, stefndi þess vegna Eiríki. Þessi var nú orðinn vanur að halda til þrauta hverju máli, og treysti vin sínum sýslumanninum, flækti sökina, sem hann gat, og loksins dæmdi sýslumaðurinn honum eingið; en sá, sem nú átti jörðina, stefndi dóminum fyrir æðra rjett, hvar Eiríkur tapaði, en var ei ánægður með það, heldur hjelt sökinni til hæsta rjettar, hvar allur hans ójafnaður komst í ljós; hann missti eingið, og var dæmdur til bóta, og til að borga stóran málskostnað fyrir öllum rjettum. Sjálfur hafði Eiríkur, auk þessa, kostað miklu uppá málið í þau meir enn 5 ár, sem það stóð yfir, hann hafði vanrækt bú sitt og heimilisstörf fyrir allt þetta þras, og þar fyrir utan var eingin blessan í hans athöfnum. Hann varð þá að selja jörð sína, og allt það bezta af því, sem hann átti innanstokks, til að gjalda með bæturnar og kostnaðinn, fór hann svo fjelaus í þurrabúð á eign þess manns, sem hann seinast átti í málum við, því einginn annar vildi taka hann inn hjá sjer. En Eiríks vonzku-geð gat ekki til leingdar látið hann hafa ró, og sú lægíng, sem hann var kominn í, var þó ekki nóg til að kenna honum að þekkja synd sína. Hann hugsaði sjer að hefna, svo ekkert bæri á, gamallra

viðskipta hans og húsbóndans, gat líka sigað upp nokkrum af landsetum hans að skrifa skammarlega klögun yfir honum. Klögunin var ransökuð, hún fannst að vera raung, og það sannaðist að Eiríkur hafði verið pottur og panna til hennar. Hann var þá tekinn og dæmdur á Brimarhólm, en úr því var honum afskamtað, að geta vakið upp óróa. Þessi maður hefði getað lifað góðu og farsælu lífi, ef hann hefði verið friðsamur, en með ófriðseminni gjörði hann sig ólukkulegan.

## XXV. DÆMISÖGUR.

### *12) Rógburður.*

Í hárri eik bjó fugla drottníngin *assa* efst, *kisa* í miðjunni og *gylta* neðst, þeim kom öllum vel saman, þángað til rógburðurinn kom hatri og grunsemi á stað þeirra á milli. Kisa klifraðist upp til arnarinnar, dæsti, og kom varla upp orði, svo mikið bjó henni fyrir brjósti. Heyrið þjer, sagði hún, það liggur ekki annað fyrir, enn barnafuglarnir okkar, og kannske við sjálfar deyjum hræðilegum dauða! sá er góður vinur, sem varar við ógæfunni, skoðið þjer! æ! blessaðar verið þjer! skoðið þjer, hvernig villu-gyltan sú arna er að róta! hún grefur og ætlar að losa í kríngum allar ræturnar á trjenu. Svo er bezt hverjum að trúa, að menn viti hvort honum sje trúandi eða ekki. Og á jeg þá vesælíngur að lifa og sjá uppá það á börnunum okkar! þjer þekkið ekki háskann eins og hann er, því þjer eruð svo hugprúð, en jeg vesælíngur, jeg ístöðulítil, er undir eins og eikin dettur, og skoðið þjer! núna er rjett komið að því hún hallist, svo sje jeg það hvernig að gyltan muni eta upp elsku ketlíngana mína. Ekkert þykir mjer verra en lýgin; ekki vil jeg koma

tvídrægni af stað; nei, ærleg, ærleg skal jeg vera meðan jeg tóri. Eptir að hún hafði þetta sagt, og komið inn tortryggni hjá örninni, læddist hún á tánum ofan til gyltunnar, og tók svo til orða: æ! mín allra kærasta sambýlis kona! þú munt aldrei geta getið til, hvers vegna jeg er svo stúrin, mjer þykir sárast um grísa-skepnurnar þínar; arnar augum skyldi einginn trúa, enn jeg veit af því þú getur þagað, en gættu að hvernig ólukku fuglinn þarna uppi vakir yfir okkur. Jeg hef heyrt til hans, að hann er að hvessa á sjer klærnar, og undir eins og þú fer úr bólinu þínu, ætlar hann að hremma fallegu blessuð börnin þín. En allt í trúnaði samt! jeg vil ekki láta hafa mig fyrir því! æ! þetta hefði jeg þó síst hugsað! síðan bauð hún með þúngum dæsum góðar nætur, klifraðist aptur upp í holu sína, gladdi sig af hvað miklu íllu hún hefði getað komið til vegar, og ítrekaði opt sinn róg. Örnin var sífeldlega í hreiðrinu, svo gyltan æti ekki upp úngana hennar þegar eikin ditti, og gyltan þorði aldrei frá grísum sínum að fara, svo örnin hremmdi þá ekki, hvorug fekk vott eða þurt, og horuðust svo báðar niður, að þær með úngunum loksins urðu lygafulla kattar-kjaptinum að bráð.

Hver getur nógsamlega sagt, hvað miklu íllu vondar túngur koma af stað, þegar þær hitta auðtrúa fyrir? hver er hatursverðari enn sá, sem talar ílla um góða menn? jeg skal láta hinn sannorða Sýrak svara fyrir mig: *sá sem lýgur,* segir hann, *sá sem baktalar, er verri enn þjófur.* Sýr. 20, 27.

### *13) Magur málarekstur.*

Tveir tjaldar fundu einusinni öðu, er hver um sig þóttist eiga alla, en hvorugur vildi undan láta. Í því bar tóu þar að, sem þeir tóku til að skera úr

þessari þrætu. Hún tók skelina, lauk upp og át úr henni matinn, sagði síðan: þar hafið þið sína skelina hver, og þá er jafnt skipt millum ykkar, en hitt á jeg fyrir þínghaldið. Fiskurinn var dágóður! verið þið sælir góðir hálsar, og lifið í friði!

## XXVI. GÁTUR.

19) Fíngurbjörg. 20) Brúður*). 21) Tóbakspípa. 22) Eldist. 23) Tágar í körfu.

24) Jeg er sljett, hrein, lipur, með litlu gati, án hvers jeg væri ónýt. Þau fallegustu og skrautlegustu verk fullkomna jeg með mikilli konst. Jeg á heima í fallegu húsi, en sje jeg ei rjett brúkuð, þá getur þar af orsakazt blóðs úthellíng.

25) Hvað er ekki soðið og ekki tuggið, ekki rennt niður og smakkar þó mörgum vel.

26) Sólin sýður það, höndin brýtur það, fóturinn treður það, munnurinn nýtur þess.

27) Mitt verð er ekki allt undir stærðinni komið, heldur líka litnum, og þó jeg sje sálarlaus, útvega jeg samt virðíngu. Sje mjer ekki haldið mjög fast, þá hleyp jeg útí buskann híngað og þángað sýnilega og ósýnilega, en ekki á fótum. Úr litlu gjöri jeg stórt. Sá, sem ekki á mig, verður margs, og stundum alls, án að vera; en sá, sem á mig, hefur þó opt meiri kvöl.

## XXVII. HVERNIG MENN KEPPAST EPTIR MEÐÖLUM AÐ VERÐA FARSÆLIR.

Himnaguðinn Júpíter hafði einusinni guðina í boði sínu, kom þá til tals, hversu heitt hann elsk-

*) Í útlöndum eru giptar konur nefndar eptir mönnum sínum.

aði mennina á jörðunni, og til að sýna það í verkinu, hversu umhugað honum væri, að gjöra þær allar lukkulegar, fól hann menntaguðinum Apolló á hendur, að senda mönnunum niður á jörðina allt það, sem gæti gjört þá farsæla. Menntaguðinn ljet ekki þurfa að skipa sjer þetta tvisvar, en sendi strax út sjö af mennta-gyðjunum, og hafði ekki eptir hjá sjer nema tvær, svo hann þó ekki skyldi vera aleinn eptir. Hver ein af þeim sjö útsendu gyðjum bar kistil á bakinu, í hverjum var eitthvert meðal til mannanna farsældar. Hin fyrsta bar *skynsemi,* önnur *dygð,* þriðja *heilbrigði,* fjórða *lánglífi,* hin fimta *sællífi,* sjötta *virðingar,* og sú sjöunda hafði kistil fullan með *peninga* á bakinu. Þær geingu allar niður fjallið Parnass, hvar þær hafa sitt aðsetur, og fóru inní borg, í hverri þá var fjölmenn kaupstefna. Allir hjeldu þær mundu hafa varníng til sölu, og flykktust að þeim, einkum úngir karlmenn, hvar fyrir þær hugsuðu bezt mundi vera, að úthrópa hvaða vörur þær hefði falar.

Sú fyrsta hrópaði: kaupið *skynsemi,* góðir menn! skynsemi! jeg sje á ykkur, að þið þurfið hennar við. Kaupið skynsemi! og þá þurfið þið ekki að kaupa neitt af þeim systrum mínum, því þegar þið hafið skynsemi, þá hafið þið allt annað ykkur í hendi! kaupið skynsemi! varan er góð! allir, sem þetta heyrðu, fóru að hlæa og flissa. Það er skrítin varníngs-stúlka sú arna sögðu þeir, lakast er, að hún er komin til ára sinna. Þegar hún sá, að einginn vildi kaupa neitt af sjer, gekk hún upp og niður um strætin, og hrópaði sífeldlega: hver vill kaupa skynsemi? allir litu út um gluggana og fóru að hlæa. Þegar henni tókst ekki þetta, hugsaði hún bezt væri, að gánga hús af húsi, og kom í einn glæsilegan garð, þar setti hún kistilinn niður, því

hún var farin að þreytast undir þeirri miklu skynsemis-byrði. Til allrar ógæfu var húsfreyan að munnhöggvast við bónda sinn, og hafði barið allt heimafólkið. Þegar hún sá mennta-gyðjuna, sagði hún með bræðifasi: kjellíng! hvað viltu hjerna? náðuga frú! svaraði hún: jeg vildi vita hvort yður þóknaðist ekki að kaupa skynsemi. Kaupið í tíma, svo þjer hafið, þegar á þarf að halda. Máske mig beri ekki fljótlega aptur að húsum yðar, minn varníngur mundi fara yður vel, því satt að segja, er svo margt elskuverðugt hjá yður, að jeg má játa, að yður vantar ekkert nema skynsemina. Farðu fjandans til! hrópaði frúin: viltu segja, jeg sje heimsk! lángt frá! svaraði gyðjan: jeg vil forða yður frá því, þar eð jeg hef skynsemi til sölu. Frúin greip þá til töplunnar sinnar, og hefði vissulega mölvað skynsemdar kistilinn, ef gyðjan hefði ekki í því sama getað skoppað undan og út úr húsinu. Varla var hún komin útá stræti, fyr enn tollheimtumaður kom hlaupandi eptir henni og kallaði: hvað hefur þú í kistlinum þarna? þú átt að gjalda toll af því. Það er skynsemi, herra minn góður! sagði hún. Skynsemi, svaraði hann: skynsemi! hvaða varníngur er það? jeg hef einnig kaupmaður verið áður enn jeg varð tollheimtumaður, sem jeg nú, með raupinu og öllu saman, er búinn að vera í 30 ár, og man jeg ekki til að sá varníngur hafi nokkurn tíma verið fluttur hjer inn í borgina. Jeg ætla að innsigla kistilinn þinn, þángað til jeg er búinn að spyrjast fyrir, hvort þessi skynsemi sje ekki bönnuð vara. Hann hljóp strax til yfirvaldsins, og beiddist dóms á þessari sök, fjell hann svo látandi: að varníngs-stúlkan skyldi strax hneppast út af borginni, því yfirvöldin hefði nóg af skynsemi, en almúgamönnum væri hún ekki hentug, hún væri bæði yfir þeirra stand, og

líka ekki ráðlegt, að láta penínga fara útúr landinu fyrir slíkan óþarfa. Gyðjan var þar næst rekin út úr borginni, og henni harðlega bannað að koma nokkurn tíma þángað aptur.

Hin önnur gyðja, sem hafði *dygðina* á boðstólum, hrópaði eins á öllum strætum, en fann eingan kaupanda, því allir hjeldu hún væri ekki með öllum mjalla. Loksins sagði gamall ráðsettur maður við hana: stúlka mín! varan þín er hjer ekki útgeingileg, það er altalað að hún sje of gömul, og vorar höfðíngs konur halda allan þann búníng hláturlegan, sem ömmur þeirra báru; þar fyrir væri bezt fyrir þig, að gjöra þjer ekki þetta ómak til einkis. Móðurinn umbreytist, og sú sem fyrir hundrað árum var kölluð dygðarík kona, heitir nú á dögum velborin frú. Til allrar lukku átti gyðjan þolinmæði í kistlinum sínum, hana bar hún á sig, og fjekk þar með krapta til að bera sína byrði heim aptur.

Hin þriðja, sem hrópaði: að hún hefði *heilbrygði* fala, fjekk að sönnu nokkra kaupendur, en það voru varla aðrir enn þeir, sem með órjelegum lifnaði voru búnir svo að skemma sig, að þeir stóðu ekki til bóta. Til allrar ógæfu kom þar að í sama vetfángi skottulæknir, sem sagðist hafa bót við öllum meinsemdum, og með sama fóru allir frá gyðjunni, segjandi: við skulum fara til „doktórsins,“ sem segist hafa meðöl við öllu, hann má vera enn betri læknir; hann hefur hjálpað svo mörgum við magakveisuverkjum með ákavítinu sínu; en hún, heimsku-tóið þarna, vill láta okkur þamba kalt uppsprettu-vatn. Gyðjan varð þá að læsa aptur kistlinum sínum, og naumast fundust tveir menn, sem feingu bata af hennar lækníngum, því hinir vildu ekki tempra sinn lifnað og mataræði, eptir sem hún fyrirskyldi.

Hin fjórða gyðjan kom þar eptir og hafði *lánglífi* á boðstólum. Naumast var hún búin að úthrópa það einusinni, fyr enn bæði sjúkir og heilbrygðir yfirgáfu skottu-læknirinn, og þyrptust að gyðjunni, sem hafði lánglífið til sölu. Nokkrir vellauðugir maura-púkar vildu gefa helmíng eigna sinna fyrir það, og þegar þeir gátu ei komizt fram fyrir fólks ösinni ljetu þeir sækja stríðsmanna hóp til að reka almúgann frá. Allrakærasta gyðja! sagði áttræður karl, jeg hef með guðs hjálp nælt sex hundruð þúsund ríkisdala með mínum súrum sveita, og þó jeg hafi stóra plágu og áhyggju fyrir, hvernig jeg eigi að ávaxta þenna vesældóm með góðu móti á óhultum stöðum, þá vildi jeg samt ekki deyja svo fljótt, því mjer er kvöl að vita til þess, að börnin mín eptir minn dag skuli sólunda og eyða því, sem jeg hef haft svo mikið fyrir að draga saman. Hvað viljið þjer hafa fyrir eitthvert meðal, með hverju jeg gæti enn nú leingt lífdaga mína um áttatýgi ár? áttatíu þúsund ríkisdala, svaraði hún. Hvað áttatíu þúsund ríkisdala? er það alvara yðar, áttatíu þúsund ríkisdala? hefði það verið átta þúsund ríkisdala, það hefði verið sök sjer. Allur jöfnuður er beztur, minn kæri vin! svaraði gyðjan, þjer skuluð vita, að þeir peníngar, sem jeg tek inn fyrir mínar vörur, eru ætlaðar skynsömum, dygðugum, en fátækum mönnum til viðurværis, og má jeg því ekkert gefa burt af fátækra fje. Sei, sei! það sem er ofmikið, það er þó ofmikið, svaraði hinn gamli maður, jeg bæti einu hundraði við, það er átta þúsund eitt hundrað ríkisdalir, og það í tómum krónum; jeg vona þjer horfið á það? hvað er að horfa leingi á það, sagði einn annar maura-kallinn, og rjetti undir eins fram peníngа-pýngju? þarna eru áttátýgi þúsund ríkisdala! vel er það, góðurinn minn! svaraði gyðjan, jeg er

reiðubúin að þjóna yður; en það get jeg sagt yður, að þjer yðrist eptir kaupin, nema þjer áður hafið útvegað yður skynsemi, dygð og heilbrigði, af þremur eldri systrum mínum, því án þess hrífa mín meðöl ekki, ellegar þau gjöra yður sífelda pínu, svo lífið verður yður til mæðu. Hvar eru þá þessar þrjár systur? spurði ríkismaðurinn. Látið þjer leita þær upp, svaraði gyðjan: þær komu híngað inní borgina í morgun. Maura-púkarnir ljetu leita hús af húsi, og spyrjast fyrir um þær á öllum vegum og gatnamótum, en þær var þá hvergi að finna.

Hin fimta gyðjan, sem hrópaði: að hún hefði *sællífi* til sölu, varð yfirfallinn af stórri þyrpíngu únglínga bæði karlkyns og kvennkyns, sem voru sólgnir í hennar varníng, svo hún fjell um koll, og kistillinn molbrotnaði. Þessi únglínga hópur gekk að með kappi og ofsa, hver reif út úr höndunum á öðrum það, sem í kistlinum hafði verið, og þeim, sem ekki feingu meir enn einn mola, þókti miður, að þeir væru gjörðir afskipta, öfunduðu hina, sem höfðu náð því, er þeir sjálfir höfðu misst, eða þá vantaði, og þó vildi einginn miðla öðrum af hjá sjer. Gyðjan bar þeim þetta á brýn, og sagði: að óstýrilæti þeirra væri orsök, að þeir hefðu skemt allar þær unaðsemdir, sem hún hefði ætlað þeim.

Sjötta gyðjan hrópaði: að hún hefði *virðíngu* að selja. Allir sóktust svo mjög eptir hennar vörum, að þeir fyrst flykktust að henni, síðan kom til áfloga og riskínga, seinast til vopna viðskipta og mann-víga. Stríðsmanna vörðurinn var sóktur að stilla til friðar, gat náð gyðjunni úr þessum ómildu höndum, og frelsað hana frá brugðnu sverðunum, er geingu á víxl yfir höfði hennar. Þegar hún sá, hversu ofstopalega þetta fór til að gánga, laumaðist

hún til að ljúka upp kistlinum, tók úr honum þann sanna heiður, en fyllti hann aptur með titla Þegar hún var búin að því, kallaði hún hátt og sagði: verið þið blessaðir, og stöðvið þið ykkur! gætið að því, að hin sanna virðing fæst ekki, nema hún bjóði sig sjálfa, svo sem verðskulduð laun fyrir mannkosti og afreksverk. En einginn gaf því minnsta gaum; múgurinn varð stríðsmönnunum yfirsterkari, þeir brutu upp kistilinn, og börðust um einbera titlana, sem í honum voru. Mig stansaði, þegar jeg meðal þessara sá menn, er annars vóru ekki vanir að tala um neitt meir eða optar, enn auðmýktina. Gyðjan hló í huga sínum að athæfi þeirra, og hugsaði: hlaupi heimskíngjarnir þeir arna með titlana svo sem þeir vilja, jeg skal færa honum Apolló aptur þann sanna heiður, svo hann geti gefið hann þeim, sem eru hans verðugri.

Með þessum ásetníngi fór hún út úr borginni, og fann ýngstu systur sína, sem hafði *peníngana* til sölu, utan borgarhliðanna, hvar hún lá í aungviti. Systir mín góð! kallaði hún, hvernig líður þjer? mikið ángur er mjer að hitta þig hjer svo aumlega útleikna. Loksins raknaði sú hálfdauða gyðja við, stundi þúngan og sagði: æ hversu lukkuleg er jeg, að jeg fæ að sjá þig aptur. Það er eins og jeg hjarni við, því jeg hugsaði að útgjört væri um líf mitt. Aldrei hefði jeg trúað því, að mennirnir væru svo vitskertir. Æ! flýum við sem fljótast frá þessum ófreskjum, og kom þú mjer eitthvað undan, því jeg er aldrei óhrædd um, að þeir muni ráðast á mig aptur. Hvað hefur þjer þá verið gjört, sagði hin eldri. Það er eins og þú sæir þúsund úlfa, svaraði sú ýngri, sem hefðu soltið í fulla viku, og svo kæmi í flokk þeirra einn maður, sem bæri kind á bakinu,

og er það þó ekki nema lítil ímynd af því, hvernig mjer gekk með penínga-kistilinn minn. Því undir eins og jeg kom í borgarhliðið, og sagðist bera penínga, er jeg vildi gefa þeim, sem viðþurftu, streymdu ótal menn að mjer; þeir, sem voru í húsunum, stukku útum gluggana, þeir rifu mig og penínga kistilinn minn niður að jörðu, og undir eins molbrutu hann. Þeir hrifsuðu allt til sín, og það, sem þeir gátu ekki náð með höndunum, báru þeir sig að henda með munninum. Þegar ekki var meira í kistlinum, rifù þeir klæðin utan af mjer, og leituðu allstaðar í þeim, og á mjer, til að vita hvort jeg hefði ekki fleiri penínga í vösum mínum, eða næst mjer. Þegar þar fannst ekki neitt, fóru þeir að sönnu frá mjer, en þegar þeir, sem ekkert höfðu feingið, vildu með ofbeldi ná peníngunum frá hinum, komust þeir í áflog, og held jeg að eingin hafi sloppið óskemdur, því þess fleiri penínga, sem hver fekk, þess ver varð hann útleikinn.

Þegar guðirnir feingu þessar frjettir og sáu hversu sólgnir mennirnir eru í forlystíngar, virðíngar og auðæfi, ályktuðu þeir, að þessi þrennskonar gæði skyldu ei veitast öðrum enn þeim, sem hefðu skynsemi og dygðir til að bera. Hvort þessum dómi hafi þar eptir verið eptir lifað, eða hvort honum hafi ekki síðar meir verið umbreytt, kann jeg ekki að segja.

## XXIX. GLERAUGNA SJÓNHVERFÍNGAR.

Þegar guðirnir heyrðu afdrif þeirra 7 systra, er þeir sendt höfðu niður til jarðar með skynsemi, dygð, heilbrygði, lánglífi, sællífi, virðíngu og penínga, hættu þeir samt ekki, að vilja gjöra mönnunum gott; en þar þeir sáu, að þeir höfnuðu allri sannri farsæld, þá sendu þeir þá áttundu lærdóms-gyðju til mann-

anna með stóra körfu fulla af *gleraugum*, með mörgum brúnum og flötum. Gegnum þessi gleraugu sýndist allt hvað fyrir augun bar að vera eins margt eins og fletirnir voru margir á gleraugunum, svo þeir, sem gegnum þau horfðu, vissu ei annað, en svo væri í sannleika, sem innbirlíngin ljet þeim bregða fyrir sjónir. Þar nú flestir eru óseðjanlegir í girndum sínum, svo verða þeir fegnir hverju helzt, sem villir sjónir þeirra, og því er þá eptirlángar. Þetta kom hjer líka fram: því fólk flykktist í hópatali að gyðjunni til að kaupa af henni gleraugun, og allir voru vel ánægðir með kaupin. Sá, sem var mikið fyrir að halda sig vel, sá hundrað föt á borðinu, þó þar væri ei nema eitt; sá sem átti eina kú, sá í haganum fimmtiu kýr allar með sínu marki; og þá hann leit á skemmuna sína, sýndist honum þar vera stórt þorp; sá sem vildi láta marga lúta sjer, þurfti ei annað, enn láta einn dreing hnegja sig, og strax sá hann stóran hóp manna vera að veita sjer lotníngu; til að sjá óteljandi ljós þurfti ei annað, enn setja gleraugun á nefið, og horfa svo á týruna í kolu sinni, og sá ágjarni þurfti ei annað, enn þessi gleraugu til að sjá þar hundrað spesíur, hvar ekki var annars nema ein. Fyrstu dagana eptir að menn voru búnir að kaupa þessi gleraugu, gjörðu þeir ei annað, enn sífeldlega horfa á það gegnum þau, sem hverjum var mest hugleikið; þegar frá leið, brúkuðu þeir þau að sönnu, en ljetu sjer samt hægt, þá þeir fóru að venjast þeim. Sumir fóru að gjöra á þau fleiri hliðar til að láta hlutina sýnast enn fleiri; aðrir fóru að verða ángurværir, þegar þeir ráku sig á, að þessi fjöldi, sem þeim brá fyrir augu var ei nema sjónhverfíng; stundum ofbauð þeim, þegar þeir sáu eymdir sínar og andstreymi gegnum þessi gleraugu, og enn aðrir óskuðu sjer að eiga viðlíkt verkfæri

handa hinum öðrum skilníngar-vitunum, sem hefði sömu verkan. Þegar nú sinn var að brjóta uppá hverju, og reyna margt, tókst einni konu, er hjet *sjálfselska*, að finna uppá spjespegil, sem öllum fjell vel í geð. Hann var íholur, svo sá, sem skoðaði sig sjálfan í honum, sá sig keikan og upprjettan, en allir aðrir sýndust honum smáir, og standa á höfði. Þeir drambsömu hrósuðu einna mest þessari uppáfinníngu, en hinir ágjörnu hjeldu þó meir uppá fjölgunar gleraugun; samt löstuðu hvorugir mikið hinna annara verkfæri, og mýmargir brúkuðu þau hvorutveggju til skiptis.

## XXX. FERÐ TIL TÚNGLSINS.

Þeir 7 Grikklands spekíngar höfðu einusinni mætzt í Athenuborg, bar þá meðal annars á góma, að hver einn skyldi segja, hvað hann áliti furðanlegast af öllum sköpuðum skepnum. Einn af þeim, sem hvarflaði hærra huga sínum enn aðrir, kom með þá meiníngu, er nokkrir vitríngar hafa haft, að hver ein stjarna væri sól, og hver ein af þessum sólum hefði sínar plánetur, sem geingju kríngum sólina og væru útbúnar með grösum og dýrum eins og vor jörð. Á þetta fjellust þeir allir, og beiddu himna-guðinn Júpíter, að hann, að minnsta kosti, vildi leyfa þeim að fara til túnglsins, og vera þar í 3 daga, til að skoða allt það, sem þeim þækti þar nýstárlegt, svo þeir gætu sagt frá því öllu, þá þeir kæmu aptur. Júpíter veitti þeim þessa bæn, og skipaði þeim að koma á ákveðnum tíma saman á fjalli nokkru, hvar eitt ský skyldi vera til reiðu að flytja þá þángað, sem þeir hefðu eptir óskað. Þeir völdu sjer nokkra skynsama hagleiks menn og stallbræður, sem þeim skyldu vera til hjálpar í að uppskrifa og mála allt hvað fyrir þá bæri.

Loksins komu þeir í túnglið, og fundu þar beztu hýbýli með öllu því er þurfti til að hafa góða gistíngu. Næsta dag eptir voru þeir ferðamóðir, og voru heima að hvíla sig allt til miðdegis, en þar þeir voru eptir sig og þróttlitlir, fóru þeir að næra sig með kostulegri máltið, sem þeim fjell svo vel, að þeir slóu á frest nýúngagirninni. Þenna dag gjörðu þeir ei annað, enn horfa útum gluggana, og virða fyrir sjer hvað falleg væri afstaðan, allir vellir blómstrum settir, á hverja prýði glaða sólskinið miklu bætti, og fegursta fuglasaúng var þar að heyra allt fram á nótt. Morguninn þar eptir risu þeir árla til að byrja verk sitt, en nokkrar dáfríðar konur úr því landi komu í kynnisleyt til þeirra, og rjeðu þeim að hressast fyrst, og styrkjast vel, fyr enn þeir legðu svo þúngt erfiði á sig, sem þeir nú hefðu fyrir stafni. Sælgætis kræsíngar, áfeingur drykkur og meyanna fríðleiki unnu svig á fastráðið áform gesta þessara. Fagur· hljóðfærasaungur ginnti þá úngu í dans, og allt varð fullt af gleðilátum, svo allur dagurinn leið burt í glaumi og kátínu, þar til nokkrir innbyggjarar lands þessa, þeir er nærstir voru, litu óhýru hornauga til gleði þessarar, og brutust inná gestina með brugðnum sverðum. Öldúngarnir báru sig að sefa þá ýngri, og lofuðu að færa forgángsmenn að þessum glaumi daginn eptir fyrir rjettinn. Það endtu þeir trúlega, málið kom þann dag í dóm, og gekk allur sá dagur til, að nefna búa, ryðja nefndina, segja fram sök, bjóða til varna, bera kviðu, leyta sjer bjargvætta, semja og segja upp dóminn, og þar með var sá tími, sem Júpiter hafði ákveðið á enda.

Þá spekíngarnir komu aptur til Grikklands, þyrptist að þeim allur landslýðurinn, til að fá frjettir um alla þá furðanlegu hluti, sem væru í túnglinu.

En ferðamennirnir gátu ekki frá öðru sagt, enn þeir vissu, sem einúngis var, að þar væru grænir vellir, nokkur blómstur spryttu þar, og fuglar nokkrir sýngi þar; en hverskyns blómstur þeir sjeð hefðu, eða hvaða fugla heyrt, vissu þeir eigi. Hvers vegna þeir urðu að spotti og athlátri hjá öllum.

Ef vjer vildum þýða dæmisögu þessa uppá vorrar aldar menn, þá yrði hvað öðru nokkuð áþekkt. Með þeim þremur dögum meinar dæmisagan þrjá parta mannsins lífsstunda. Fyrst *æskuna*, þá vjer erum í allan máta of þróttlausir að yfirvega skapaða hluti. Síðan *fullorðins árin*, á hverjum mennirnir eru að koma sjer fyrir, giptast, afla barna, safna auð handa þeim og verða menn með mönnum. Og loksins *ellina*, þá menn eru komnir í stand, rata þeir í málaferli og tvídrægni, út af gózi því, sem þeir hafa samandregið. Á þenna hátt ber það opt til, að menn íhuga aldrei hverju takmarki þeir áttu að ná, eða hvers vegna þeir komu í veröldina.

## XXXI. ÝMISLEG SANNMÆLI.

### X.

Spanskir hafa þenna sanna málsbátt: gjör þú vel, þá fær þú öfundar-menn. Gjör þú enn betur, þá sneipast þeir.

### XI.

*Guðleysíngurinn* er ekki annað enn háðslegur vitfirríngur, sem ekki vill brúka augun; en *hræsnarinn* gjörir sig settan og alvarlegan á svip, til að geta þess óhultar spottast að guði og hans orði. Hann sjer að hann á hægra með að beygja knje, spenna greipar og blundskakka í sjer augunum, enn að brúka þá limu til að gjöra gott með þeim. Hann er eins og ófeilinn skulda-þrjótur, sem dag

hvern fer að finna skuldaheimtu-manninn, talar kompánlega við hann, en borgar aldrei neitt.

XII.

Í því einhverjum vill til ólán, þá kemur honum ekki fyrst til hugar, hvað vinir hans muni hugsa, heldur hvað óvinirnir muni um það tala.

XIII.

Tvær konur verða sjaldan hjartans vinur, svo sú þriðja líði ei undir því. Þær gjöra samband eins og konúngarnir í fyrndinni, er slátruðu einhverri kind, áður enn þeir festu vináttu sín á milli; eins verður vinskapurinn rjett heitur milli tveggja kvenna, þegar þær eru fyrst búnar báðar að hjálpast að til að rífa í sundur þá þriðju.

XIV.

Opt hefur maður rángt fyrir sjer í rjettu máli, af því aðferðin er raung.

XV.

Þú spyr hvað til komi, að mestu mönnum verður stundum furðanlega á? Spekíngur nokkur hefur þar uppá svarað: það er af því, að hversu miklir menn, sem vjer erum, þá erum vjer samt ekki annað enn börn, en börnunum verður mörg heimskan á.

XVI.

Aldrei hefur verið skrifað meira um að gjöra menn farsæla, og aldrei hafa þeir sjálfir meira aðgjört til að gjöra hver annan ófarsælan enn nú. Ekki að skrifin skemmi, heldur eru þau eins og læknismeðöl í næmum stórsóttum; þá deyja svo margir, að ekki ber á þeim fáu, sem halda lífinu, og bjargast af meðölunum.

XVII.

Frekja í hárri tign er á rek við slægð í spekinni.

## XXXII. FRÍÐLEIKUR SÁLAR OG LÍKAMA.

Í fyrndinni var einn mikilsháttar herra, sem átti tvær dætur, er voru tvíburar, og höfðu feingið nafn, sem sitt átti rjett við hverja þeirra. Sú eldri var dáfríð, og hjet *Fríða,* hin önnur var mikið ófríð og var nefnd *Ljótun.* Þeim voru feingnir lærimeistarar, fór þeim líka vel fram, þángað til þær voru tólf vetra; en þá varð móður þeirra sú heimska á, að láta þær fara að fylgjast með sjer í samkvæmi og veizlur, voru þær samt, sem nærri má geta ekki búnar að læra helmíng af því, sem þær þurftu að kunna. Báðum þessum stúlkum þókti vænt um að skemta sjer, og sjá marga í samkvæmum, hugsuðu þá um ekkert annað, svo það eina var ætíð umhugsunar efnið, jafnvel þær stundirnar, sem verið var að kenna þeim, og fór þeim ekkert fram, en lærimeistararnir urðu leiðir á verki sínu, þegar þær vildu ekki taka eptir því, sem þeir voru að kenna; þær fundu líka uppá mörg undanbrögð þegar lærdóms-stundirnar komu, stundum var afmælisdagurinn þeirra eða einhverrar leiksysturinnar, stundum þurftu þær að fara í danssamkvæmi, og þá gekk mestur parturinn af deginum til að búa sig, komst þá allur lærdómurinn í óreglu, og þetta gekk svona þángað til þær voru orðnar 15 vetra. Þá var Fríða orðin svo falleg stúlka, að allir dáðust að henni. Þegar hún var í samkvæmi með móður sinni, þókti öllum, sem sjálfur fríðleikurinn væri þar, hvar hún var komin, einn hrósaði munninum, annar augunum, hinn höndinni og enn annar vaxtarlaginu, en meðan þeir voru að bera hól á hana, skipti sjer einginn af Ljótunni

meir enn þó hún hefði aldrei verið til. Ljótun kvaldist af því, hvað hún sjálf var ófríð, og innanskams fekk hún óbifur á samkvæmum, hvar allir möttu systur hennar miklu meir. Ljótun fór þá að óska sjer, að mega vera heima, og einusinni þegar þær systur voru boðnar til veizlu, og dans-samkvæmis, sagði hún við móður sína sjer væri íllt í höfði, og beiddi hana lofa sjer að vera heima. Í fyrstunni leiddist Ljótunni svo hún gat ekki á sjer tekið, en til að hafa af fyrir sjer, fór hún í bókaherbergi föður síns. Sú fyrsta bók, sem fyrir henni varð, voru *sendibrjef*, þar vildi henni þetta til, strax sem hún lauk upp bókinni:

„Þjer spurðuð mig hvaraf það kæmi að flestar fríðar konur eru mjög heimskar, og vankunnandi? jeg held jeg geti sagt yður hvað til þess kemur; það er ei af því þær sjeu miður gáfaðar enn aðrar, þegar þær fæðast, heldur er það af því, þær vanrækja að skerpa skynsemina hjá sjer; allar konur vilja láta hrósa sjer, allar vilja þær öðrum þóknast. Sú sem er ófríð, veit að einginn geingst fyrir útliti hennar, þar af tekur hún það ráð, að bera sig að þóknast með skarpleikanum. Hún fer þess vegna að lesa góðar og fróðlegar bækur, og verður á þann hátt elskuverðug. Hin fríða aptur á mót þarf ekki nema að sýna sig til að fá annara góðan þokka, þá er strax farið að hrósa henni. Þar hún aldrei hugsar úti annað enn það, sem þá er nálægt, svo kemur henni ekki í hug að fríðleikurinn varir alleina um stund og tíma. Hún hefur einnig um nóg annað að hugsa, um að búa sig, fara í veizlur, sýna sig, láta hrósa sjer, svo hún hefur ekki tíma til að prýða skynsemina, þó hún hjeldi sjer væri það nauðsynlegt. Hún verður þar af heimsk, leggur ei annað fyrir sig en barna-spil, smámuni og glíngur, það

varir þángað til hún er þrítug eða nokkuð yfir fertugt í leingsta lagi, ef bólan eður aðrar sóttir ekki taka fríðleikann fyrri burt. En þegar úngdóms árin eru úti, þá er bágt orðið að læra, verður svo fríða kvennsniptin heimskíngi alla sína lífstíð, og hjá eingum seinni part æfi sinnar í virðíngu, þó hún af náttúrunni til hafi haft nógan skarpleika. Þar á mót er hin ófríða, sem af lestri er orðin elskuverðug, óhrædd við sjúkdóma og elli, sem ekkert geta frá henni tekið“ —

Þegar Ljótun hafði lesið þetta brjef, sýndist henni eins og það væri einúngis skrifað hennar vegna, og ásetti að færa sjer í nyt þess lærdóma. Hún ljet þá lærimeistarana koma til sín aptur, fór með ástundan að lesa góðar bækur, íhugaði vel allt hvað hún las og heyrði, svo hún innan skamms varð vel að sjer. Þegar hún varð að fara með móður sinni í samkvæmi, hjelt hún sjer til þeirra, sem voru vel að sjer og skynsamar, hún spurði þær að mörgu, og tók eptir því, sem henni var sagt; hún vandi sig á að skrifa það upp, svo hún ekki gleymdi því, og þá hún var 17 ára, talaði og skrifaði hún svo vel, að mestuháttar skynsömum mönnum þókti vænt um að vera i kunníngskap og skrifast á við hana. Báðar systurnar giptust sama dag; Fríða átti úngan, dávænan hertuga, sem hafði tvo um tvítugt; Ljótun átti hertugans ráðgjafa, sem var hálffimtugur að aldri. Hann hafði þekkt, hversu skynsöm þessi stúlka var, og virti hana þess vegna mikils, því útlit konu-efnis hans var ei þessháttar, að það upptendraði hjá honum elsku blossa, hann sagði henni líka hræsnislaust, að hann hefði ei nema vináttu til hennar, var það eins og hún vildi á kjósa, þar fyrir öfundaði hún ekkert systur sína, sem giptist hertuganum, er hafði slíka brennandi elsku til

hennar, að hann gat ei frá henni verið drykklángan tíma, en dreymdi til hennar á hverri nóttu. Fríða var yfrið lukkuleg í hálft missiri, en þá var maðurinn hennar búinn að horfa á hana svo leingi, sem hann girntist, fór að venjast fríðleiknum hennar, og hugsa með sjer, hann mætti ei forkasta öllu öðru vegna konu sinnar. Hann fór til dýraveiða, og hafði stundum aðra skemtan, án þess Fríða væri með, en það þókti henni undarlegt, því hún hafði verið þess fullörugg, að maðurinn sinn mundi ætíð elska sig jafnheitt, þóktist þess vegna vera orðin hin vesælasta manneskja, þar eð elska hans til hennar var rjenuð. Hún volaði útaf því framaní hann; honum þókti miður; þau töluðu sig saman; en þar þetta kom sífeldlega aptur og aptur, þá leiddist hertuganum að heyra leingur á það. Fríða átti son, þar af missti hún stúlku-bragðið, og fríðleikurinn mínkaði, svo vegna þess hertuganum hafði aldrei þókt vænt um hana nema af fríðleikanum, hætti hann loksins aldeilis að elska hana. Það ángur, sem hún hafði af þessu, skemmdi útlit hennar til fulls og alls, en þar hún ekkert hafði lært, var leiðinlegt að vera hjá henni. Þeim úngu leiddist hjá henni, því hún var eins og utan við sig af óláni sínu, og þeim eldri, sem voru nokkuð skynsamir, leiddist þar líka, því hún var heimsk, hvers vegna hún varð að vera mestallan tímann alein. Það, sem bætti á sorg hennar, var að Ljótun systir hennar var hin lukkusælasta manneskja, sem til gat verið. Maðurinn hennar ráðgaðist við hana í öllu, trúði henni fyrir hverjum sínum þánka, fór að hennar ráðum, og sagði leynt og ljóst, að hann ætti eingan betri vin í heiminum, enn konu sína. Sjálfur hertoginn, sem var skynsamur maður, hafði yndi af að tala við mágkonu sína, en sagði það væri ekki mögulegt, að vera

matmáls-tíma hjá henni Fríðu, nema hann yrði að geispa, því hún gæti ei talað um neitt, nema skautafalda og kvenna-skart, sem hann sagðist ei hafa vit á. Hann fekk svoddan leiða og andstygð á konu sinni, að hann sendi hana á eitt útbú sitt, hvar henni mátti leiðast eins og verða vildi: hún hefði líka dáið þar af sorg, ef hún systir hennar Ljótun hefði ekki, af elsku til hennar, komið að finna hana svo opt, sem hún gat. Einusinni þá hún var að hugga hana, sagði Fríða: hvar af kemur, systir mín! sá mikli mismunur, sem er á millum okkar? jeg sje það sjálf, að þú ert skörp og skynsöm, en jeg er heimsk, samt var sagt, þegar við vorum báðar úngar, að jeg væri ekki neitt óskarpari enn þú. Ljótun innti þá systur sinni allt hvernig farið hafði og sagði: þjer þykir fyrir við mann þinn, að hann hefur vísað þjer í einsetu þessa, þú álítur þjer það fyrir stærstu ólukku, en allt fyrir það, getur þetta orðið þjer til mestu lukku, ef þú sjálf vilt svo. Þú ert ekki tvítug enn; værir þú í mannmergð inní kaupstaðnum þar, sem sífeldlega væri tafið fyrir þjer, þá væri ofseint fyrir þig að fara núna að læra það, sem sálu þinni er til gagns og prýðis, en hjerna í þessari einsetu hefur þú tíma til þess. Þú hefur nógan skarpleika, en þú þarft að vekja hann upp og brýna, með að lesa góðar bækur, og brúka athygli. Fríða átti í fyrstu bágt með að fylgja ráðum systur sinnar, því hún var svo lángsamlega orðin vön við yðjuleysi og hjegómlegt glíngur, samt tók hún nærri sjer, og ljet móti gömlum vana sínum, svo henni á stuttum tíma fór vel fram í margskonar fróðleik og speki, og varð skynsöm kona. Þar eð sú rjetta speki huggar í mannraununum, og leiðindin hvurfu burtu, þegar Fríða varð yðin og ástundunarsöm, svo fór hún aptur að fá gott bragð, hold

og hans, og varð fríðari enn hún hafði nokkurntíma áður verið, en núna gaf hún ekkert um það, ekki svo mikið, að hún liti eptir fríðleika sínum í speglinum, því síður meir. Maður hennar hafði feingið svo mikla andstygð á henni, að hann undir einhverju yfirskini, sem volduga aldrei brestur, ljet dæma hjónaband sitt með henni maktarlaust og ógildt. Þessi síðasta ólukka ætlaði að gjöra aldeilis útaf við hana Fríðu, því hún elskaði mann sinn hjartanlega, en Ljótun gat þó loksins huggað hana. Láttu ei þetta á þjer festa, sagði hún, jeg veit ráð til að koma ykkur aptur saman, manninum þínum og þjer, fylgdu að eins mínum ráðum og skiptu þjer ekki af öðru. Hertuginn hafði átt son við Fríðu, sem stóð til arfs eptir hann, flýtti sjer þess vegna ei að giptast aptur, og hugsaði ei uppá annað, enn hafa af fyrir sjer með einni eður annari skemtan. Hann hafði mikið yndi af samtali við Ljótuni teingdasystur sína, eins og fyr var getið, og sagði henni stundum, að hann vildi aldrei giptast aptur, nema hann feingi þá konu, sem væri eins skynsöm og hún. En ef hún væri eins ófríð og jeg, svaraði Ljótun hlæandi? það segi jeg satt, systir mín! sagði hertuginn, það skyldi ekki standa hálft augnablik í vegi, því hægt er að venjast ljótri ásýnd, svo mjer þykir þú núna rjett þokkaleg, af vananum, að jeg hef svo opt sjeð þig, og þegar þú fer að tala, vantar lítið á að mjer sýnist þú rjett falleg; og þar að auki, ef jeg á að segja sannleikann: hún Fríða er búin að koma öllum fallegum stúlkum svo út úr húsi hjá mjer, að í hvert sinn, sem jeg sje einhvern fríðan kvennmann, er jeg hræddur um hún sje einhver heimskínginn, og þori varla að tala til hennar, því jeg á þar ekki von á öðru svari enn óvizku. Um þær mundir fór í hönd sá tími, sem

fólk er vant að hafa dans-samkvæmi, búið í allskonar hami, með grímur fyrir andlitinu, svo einginn getur þekkt annan. Hertuginn hugsaði þar væri mikil skemtun fyrir sig, að fara úr einu slíku samkvæmi í annað. Hann trúði ei nema Ljótuni fyrir því, hvernig hann ætlaði að búa sig, og beiddi hana að hafa áþekkan búnað, því þar eð hún var teingdasystir hans, þurfti einginn að hneixlast á því, og það hefði ei verið hennar mannorði til hnekkirs, þó það hefði orðið hljóðbært, samt beiddi Ljótun manninn sinn um leyfi til þess, sem glaður fjellst á það, því heldur, sem hann sjálfur hafði fyrst komið þeim ásetníngi inn hjá hertuganum, og ætlaði að sæta því tækifæri, til að forlíka aptur hertugann og hana Fríðu. Hann skrifaði þess vegna fyrrverandi hertuga konunni til, og ljet hana vita, hvar hertuginn mundi vera, og hvernig hann mundi vera búinn.

Þegar dansað hafði verið nokkra stund, settist Fríða milli mannsins síns og systur sinnar, og gaf sig á skynsamlegt og þægilegt tal við þau. Í fyrstunni heyrðist hertuganum, að það væri málrómur konu sinnar, en hún hafði ekki talað góða drukklánga stund, fyr enn hann var aldeilis búinn að hrinda frá sjer þeirri hugsan. Honum fannst nóttin líða svo fljótt, að hann trúði ei þegar honum var sagt að dagur ljómaði, svo inndælt þókti honum að heyra á skynsamlegt tal þessarar ókunnugu konu, en aldrei fjekk hann hana til, að taka grímuna frá andlitinu, og ekkert meira gat hann áunnið; en hún lofaði að koma í sama ham á næsta dans-samkvæmi. Hertuginn var einn með þeim fyrstu, er þángað kom, og þó hin ókennda kæmi ei nema fjórðúngi stundar seinna, var hann orðinn óþolinmóður að bíða, svo annt var honum um að finna hana. Í þetta skipti þókti honum enn yndislegar samtal hennar, enn í

fyrra sinni, og játaði fyrir henni Ljótuni, að hann væri búinn að fá brennandi elsku til þessarar konu. Jeg játa það svaraði mágkona hans, að hún er skörp og skinug, enn eigi jeg að segja mína meiníngu, þá held jeg hún sje enn ófríðari enn jeg. Hún sjer að þjer hafið elsku til sín, en er hrædd um að missa hana, þegar þjer sjáið framaní andlit hennar. Æ systir mín! svaraði hertuginn. Jeg vildi hún sæi inní hjartað í mjer, og vissi hversu mjög jeg elska hana; það er ei vegna útlitsins, heldur greindar, fróðleiks, skarpleika og hjartagæðsku hennar. Hvernig getið þjer þekkt hjartaþel hennar, ansaði Ljótun? það skal jeg segja þjer svaraði hertuginn: jeg kom í tal við hana um fríðar kvennsniptir, hún hrósaði þeim einlæglega, og jafnvel minnti mig á það, sem fallegast var hjá hverri fyrir sig, sem jeg hafði ekki eptirtekið. Þegar jeg, til að reyna hana, sagði henni eitt eður annað ljótt, sem talað væri um þessar kvennpersónur, þá fór hún að brjóta upp á öðru efni, ellegar talaði frammí það, sem jeg sagði, og fór þá að segja frá einhverju lofsverðu í fari sömu kvennmanna, og loksins þegar jeg hjelt áfram að lasta þær, tók hún fyrir þvert, og sagðist ekki geta liðið að ílla væri talað um fólk. Þar af sjer þú, systir mín góð, að sú kona, sem er ekki öfundsjúk yfir þeim, sem eru fríðar, hefur yndi af að tala vel um náúngann, og ekki getur liðið íllt umtal, má hafa gott geðslag, og vera sjerdeilis hjartagóð. Sá, sem ætti svoddan konu, yrði lukkulegur með henni, hversu ófríð sem hún væri. Jeg er þess vegna staðráðinn í að segja henni hver jeg er, og biðja hennar. Það var orð og að sönnu, á fyrstu dans-samkomu sagði hertuginn þeirri ókenndu hver hann væri, og sagðist eingrar lukku vænta sjer, nema ef hann giptist henni. En þó hún segðist vera laus og liðug, og hversu

stórt sem það var, er hann bauð, vildi Fríða ei taka grímuna frá andlitinu, því svo höfðu þær undirtalað með sjer systurnar. Af þessu varð hertuginn órólegur; hann hjelt sama og hún Ljótun, að þessi skarpa kvennsnipt mætti vera hryllilega ljót, þar hún feingist ei til að láta sjá framaní sig, en þó hann ímyndaði sjer hana í huganum sem afskræmislegasta, þá mínkaði samt ei við það hans góði þokki og virðíng, sem hann hafði feingið til skynsemi hennar og dygða. Honum fjell þetta mjög þúngt, þá sagði sú ókennda við hann: jeg elska yður herra; og vil ekki dylja það fyrir yður, en því stærri sem mín elska er, því hræddari er jeg um, að jeg missi hana, þegar þjer sjáið andlit mitt. Þjer hugsið kannske jeg sje augnfögur, munnfríð, hafi fallegar tennur, og skipti vel litum í andlitinu; en ef svo kynni reynast, að jeg hefði víðan munn út undir eyru, væri rángeygð, nefljót, með gagnskemdar tönnur, þá munduð þjer biðja mig sem fljótast, að láta á mig grímuna aptur. En þó jeg ekki sje svo afskræmisleg eins og jeg núna segi, þá veit jeg samt þjer eruð nokkuð óstöðugur, því þjer elskuðuð hana Fríðu yfirmáta í fyrstúnni, og feinguð síðan andstygð á henni. Æ! dæmið þjer sjálfar um það svaraði hertuginn. Jeg var úngur þegar jeg átti hana, og jeg játa yður, að jeg gjörði ekki annað enn horfa á hana, en heyrði aldrei eptir hvað hún talaði. En þegar jeg var orðinn maðurinn hennar, og alvanur að sjá hana, þá bið jeg yður að geta nærri hvað bágt jeg átti. Þegar við vorum bæði einsömul okkur, þá var hún að tala um nýtt pils, sem hún ætlaði að brúka daginn eptir, um skóna þeirrar og kvennsilfrið hinnar. Væri einhver skynsamur maður til borðs hjá mjer, og talað væri um eitthvað, sem skarpleika þurfti til, þá fór hún Fríða að geispa, og endaði með að hana dottaði og sofn-

aði nærri útaf. Þegar jeg vildi fá hana til að læra eitthvað, varð hún stygg við, og hún var svo grannvitur, að jeg skalf og roðnaði við, í hvert sinn, sem hún í samkvæmi lauk upp munninum. Þar að auk hafði hún alla bresti heimskíngjanna, þegar hún var búin að setja sjer eitthvað í huga, þá var ekki mögulegt að koma henni frá því, hversu sterkar röksemdir, sem henni vóru sagðar þar á móti, því hún skildi þær ekki. Hún var öfundsjúk, bakmálug og tortryggin. Þetta hefði þó verið sök sjer, ef jeg hefði þá mátt hafa af mjer leiðindin annarstaðar, skyldi jeg samt hafa haft þolinmæði, en það fjekk jeg ekki fyrir henni. Hún vildi að sú heimsku elska, sem jeg hafði í fyrstu á henni, skyldi vara alla mína lífstíð, og jeg vera hennar sífeldur þræll. Þjer sjáið af þessu, að jeg ljet ekki gjöra hjónaband okkar ógildt fyr enn nauðin rak mig til þess. Jeg játa, að þjer hafið átt bágt, svaraði hin ókennda, en allt hvað þjer um þetta segið, gjörir mig samt ekki óttalausa. Þjer segizt elska mig. Jeg vil sjá hvort svo er, á því, ef þjer þorið að eiga mig opinberlega, svo þegnar yðar viti það, áður enn þjer sjáið mig. Jeg er sá lukkulegasti maður, sem til er, þar þjer heimtið ei annað enn það, svaraði hertuginn, komið þjer á morgun með henni Ljótuni á slotið mitt, þar skal jeg láta allt mitt ráðaneyti vera samankomið, og eiga yður þar í þeirra viðurvist. Það, sem eptir var af nóttunni, fannst hertuganum mjög lángt, enn áður hann fór burt úr dans-samkvæminu tók hann af sjer grímuna og skipaði öllum sínum vildarmönnum, að koma daginn eptir á slotið, en láta hina vita það sama, sem ei voru við. Þegar allt ráðið var samankomið, sagði hann þeim allt hvað til hafði borið um þá ókenndu kvennsnift, og eptir að hann hafði lokið máli sínu, sór hann að eiga

aldrei aðra enn þessa, hvernig sem útlit hennar væri. Allir sem þar voru hjeldu hið sama, sem hertuginn, að þessi kvennpersóna mundi vera mesta ófreskja. En þeir fjellu í ramma stans, þegar hún tók af sjer grímuna, og þeir sáu eina hina fögrustu konu ásýndar. Það var þó undarlegast, að hvorki hertuginn nje aðrir þekktu hana aptur í fyrstu, svo höfðu rósemi og einseta gjört hana enn fríðari. Menn sögðu einasta í hljóði hver við annan: að hún væri mikið lík fyrri konu hertugans. Hertuginn varð hartnær höggdofa, að ætlan hans sveik hann svo gleðilega, svo hann gat ei komið upp neinu orði. En Ljótun varð fyrst til að hefja talið, með því að prísa hamíngju systur sinnar, er nú væri aptur búin að ná elsku manns síns. Hvað! sagði hertuginn: er þessi fagra og skynsama kona hún Fríða? hvaða kraptaverk hefur gjört hana undir eins að dáfríðum, góðum og skynsömum kvennmanni? hjer er ekkert kraptaverk, svaraði hún Fríða, jeg hafði forsómað að prýða náttúrugáfur mínar með kunnáttu, en nauðin og heilræði systur minnar opnuðu á mjer augun, svo jeg fór að útvega mjer þann fríðleik sálarinnar, sem ei hverfur burt af elli eður sóttum. Þessi fríðleikur uppvekur hjá mjer stöðuga elsku, sem af eingu verður hvikul, svaraði hertuginn, og faðmaði hana Fríðu undir eins að sjer. Það kom líka fram; hann elskaði hana síðan trúlega alla sína lífstíð, svo hún aldeilis gleymdi sínu fyrra mótlæti.

## XXXIII. FAR ÞÚ Í DANS, EN GÆTTU AÐ HVAR ÞÚ STÍGUR.

Prestur nokkur á landsbygðinni sagði við hundraðshöfðíngja, að sjer væri mikil forvitni á að vita, hvernig til geingi í stríði, því hann hefði aldrei sjeð það, og opt hugsað útí það, en þó aldrei þókzt get-

að komið því rjett fyrir sig. Hundraðshöfðínginn svaraði: ráð eru til þess, prestur góður! látið þjer leggja á yðar bezta reiðhest, útvegið þjer yður tvær góðar pístólur, og komið svo ríðandi heim til mín, þá skal jeg sýna yður grant og skilmerkilega, hvernig allt það til geingur. Presturinn lagði þetta ráð ei undir höfuð sjer, en kom ríðandi á bezta gæðíngi, sem hann hafði nýkeipt. Síðan ljet hundraðshöfðínginn leggja á þann lakasta húðarklár, sem hann átti og leiða hann fram. Sjá hjer! sagði hann við prestinn, þessi hestur hefur opt verið í stríði, og er alvanur, svo hann veit hvað hann á að gjöra, það er þess vegna bezt þjer farið mínum hesti á bak, en jeg ríði yðar hesti. Þeir gjörðu svo, riðu út á víðaváng og staðnæmdust hver andspænis mót öðrum, svo gott bil var á millum. Þar eptir rak hundraðshöfðínginn hestinn fram með sporunum rjett á prestinn, skaut þann gamla jálk, sem presturinn reið, í hausinn, svo hann datt um koll, og ofaná prestinn. Hundraðshöfðínginn stökk síðan af baki, dró út sverð sitt, og ljet eins og hann ætlaði að kljúfa prest í herðar niður, en þessi fór að hljóða og skrækja. Fyrir hamíngju skuld! herra hundraðs höfðíngi! það átti ekki að vera nema til gamans. Æ! hvað? svaraði hinn, ekki er svo vant til að gánga í stríðinu; ef þjer viljið lífi halda, og jeg eigi að taka yður til fánga, þá eigið þjer að hrópa: *vægð!* hana þá, *vægð! vægð!* hrópaði presturinn. Síðan dró hundraðs höfðínginn hann undan hestinum og sagði: nú eruð þjer minn fángi, og þar jeg má vara mig, að þjer ekki hlaupizt undan, svo ekki einasta hlýt jeg að gjöra yður vopnlausan og taka frá yður pístólurnar, heldur og til varúðar rista i sundur bugsnastreinginn yðar. Presturinn varð þá að halda upp um sig bugsunum og fótgángandi fylgja hundr-

aðshöfðíngjanum, sem reið prestsins hesti heim til garðs síns, er lá í miðri borginni. Hann bauð síðan prestinum til borðs, en eptir máltíðina beiddi presturinn um hest sinn til að ríða heim. Hann fáið þjer aldrei hjeðan af, svaraði hundraðshöfðíngínginn, því það er eingin stríðs-venja að fá stríðsfánga hestinn sinn aptur. Presturinn varð því að gánga heim, og skrifaði yfir stofudyrnar sínar:

*Nulla salus bello, pacem te poscimus omnes* [1].

Hann stefndi þar eptir hundraðshöfðíngjanum, en tapaði málinu, því dómarinn úrskurðaði, að prestur hefði undirgeingizt alla stríðs venju, og eptir stríðslögum missi sá hest sinn, sem til fánga sje tekinn. *Fáa leiðir gott af forvitninni!*

## XXXIV. GÁTUR.

24) Saumnál. 25) Píputóbak. 26) Vín [2]. 27) Peníngar.

28) Tvö höfuð og tveir handleggir, sex fætur og tíu tær, ekki meira enn fjórir fætur á gángi; hvernig á jeg að skilja það?

29) Kroppur minn er grannvaxinn fjöðurstafur; á skegginu ríður mest, og með því útrjetti jeg mikið. Með því gjöri jeg duptið eins og það sje lifandi. Þó jeg sje blindur, gipti jeg samt ljós og skugga hvert saman við annað.

30) Á björtum degi birtist jeg þjer, en þú sjer mig ekki; í næturmyrkri birtist jeg þjer, og er þjer þá ljós.

31) Mínum straumum úthelli jeg gegnum marga ósa. Kannske þú hugsir jeg gjöri það til að vökva þurt land, sem vantar vætu! ónei! jeg ætla sem fljótast að þurka þar með votlendið.

---

1) Af stríði leiðir ekkert gott, þar fyrir biðjum vjer þig allir innilega um frið. 2) Lögurinn í vínberjum soðnar af sólarhita, berin eru brotin af með hendinni, vín-pressan treðst með fótum.

## XXXV. LOPT OG VINDUR.

Sálm. 107, 23—32.

*þeir, sem á skipum fara út á hafið og gegna sinni sýslan á þeim stóru vötnum, þeir sjá drottins verk og hans dásemdir á djúpinu. Hann talaði og þar kom stormviðri, sem hóf upp hafsins bylgjur. þeir lyptust til himna og sigu niður í afgrunnið, og þeim fjellst hugur í neyðinni. þeir hröktust um kríng og römbuðu sem drukknir menn, og öll þeirra ráðdeild var þrotin. Og þeir kölluðu til drottins í sinni ángist, og hann hjálpaði þeim úr þeirra nauðum. Hann stöðvaði þann mikla storm og bylgjurnar þögnuðu. Og þeir glöddust þegar lygndi, og hann leiddi þá að landi eptir þeirra ósk. þakki þeir drottni fyrir hans miskunsemi og hans dásemdir við mannanna börn, og vegsami hann á fólks samkomunni og lofi hann á öldúnga fundinum.*

Jeg lofaði þjer í haust, Sigurður minn! að segja þjer hvort stormur væri einasta böl og mæða fyrir mennina, en þar hann er sama og harður vindur, en vindurinn er straumur í loptinu, svo verð jeg fyrst að segja þjer hvað þessi höfuðskepna *lopt* er, ef þú átt að skilja hvaða gagn að stormi kann að vera.

*Loptið* er sá þunnur, fljótandi, gagnsær og þúngur hlutur, sem vart verður við bæði með heyrn og áþreyfingu, getur samanpressazt og útvíðkazt, er utanum alla jörðina allt í kríng, og hefur enn fleiri krapta og eiginlegleika, sem vjer getum ráðið í suma, en verðum að yfirláta tíðinni smámsaman að sýna eptirkomendunum suma. Loptið hefur hjer um átta hundrað sinnum meiri launholur *(poros)* enn vatn, er *þunnt* svo það geti dreifzt kríng um alla jörð-

ina, fuglarnir flogið innanum það, skipin siglt, vatnið og aðrir hlutir blandazt saman við það, óklárindi hreinsazt úr því, og skepnurnar haft andardrátt af því. *Hæð* loptsins er yfir sex þíngmannaleiðir, hálfri annari þíngmannaleið frá jörðunni er það fjórum sinnum, en efst er það meir enn fjögur þúsundsinnum þynnra enn neðst. Væri það þykkara, þá mundi hvert orð, sem vjer töluðum, heyrast eins og reiðarþruma, og eyru vor ei þola þá sífeldu hvelli, en væri það lángtum þynnra, þá gætu ei fuglarnir flogið, eldurinn logað, sólargeislarnir sæust ekki, skýin gætu ei í loptinu sveimað, og einginn heyrt neitt, manneskjur og skepnur ei heldur náð andanum, og yrðu að deyja. Svo smáir geta loptsins partar verið, að hver sje fjörutíu þúsundsinnum minni enn eins hárs þykkt. *Fljótandi* verður það að vera, svo það renni úr einum stað í annan, inní trje, vatn, og allstaðar hvar það finnur minni fyrirstöðu, þannig hrindum vjer því hæglega frá oss þegar vjer gaungum um, og það rennur strax í farið, þar sem líkami vor var, og þá við hellum vatni í flösku eða úr, rekst loptið burt jafnótt, ellegar rennur inn í hana aptur. Menn reikna, að í einu holu sandkorni sjeu þúsund milliónir lopt-parta. *Þúngt* verður það að vera, til að taka á móti dömpum, óklárindum, reyk og öðru, því þar með viðheldst manna og skepna líf, ljós, eldur, og ótal smá dýr og fræ, sem berast í kríng í loptinu, að jeg ei tali um skýin, sem loptið verður uppi að halda. Þó loptið sje átta hundruð sinnum ljettara enn vatn, þá eru þó þess þýngsli á meðal-manns líkama fjögur hundruð og fimmtíu vættir, enn vjer finnum ei til þess þúnga, vegna þess, að innaní oss og allt í kríng er jafnþykkt og jafnþúngt lopt, sem vegur upp móti hinu, er á allar síður að oss þreingir. Ef þjer

sýnist þetta ótrúlegt, þá gættu að hvað lítið opið á lykilpípu er móti öllu mannsins hörundi; nú veit hvert barnið, að sje sogið allt lopt úr lykilpípu, þá tollir hún fast við vörina, sem er einasta af þeim loptsins þúnga, sem liggur á pípu-opsins víðáttu. Ennþá fastari er samt fingurbjörg, sem sogin er á lófa manns, því hennar op er víðara, og liggur undir stærra lopt-stöpli, þó er aðgætandi, að sjaldan er úr slíkri fíngurbjörg loptið fullsogið, hvar af til ytra loptsins þúnga þess vegna ei finnst að fullu; á svo litlu ferköntuðu plázi, sem er krosslagt og þumlúngur á hvern veg, er loptsins þýngd þrjátíu og ein mörk. Til að sýna þessi loptsins þýngsli, hafa menn gjört tvo hola hálfhnetti úr kopar, hvolft þeim saman, og sogið síðan úr þeim loptið, þá hafa ei sextíu hestar getað dregið þá hvern frá öðrum. Það er þess vegna ei af rasandi ráði sagt, sem stendur: Job. 28, 23. *Guð tilsetti hvað loptið skyldi vega.* Loptið er *gagnsært,* en sjest eigi sjálft með vorum augum, því annars sæum vjer ekkert frá oss, og allt væri eins og í þykkri þoku. Ef loptið hefði nokkurn merkilegan lit öðrum framar, t. a. m. bláan, þá mundi okkur sýnast hver einn hlutur eins, viðlíka og þeim, sem eru yfirkomnir í gulu, sýnist hvað, sem þeim fyrir augu ber, vera gul-leitt. Samt slær á loptið bláum blæ, sem að eins ber á, þegar gegnum mikið lopt er að sjá; þannig eru t. a. m. fjöllin blá að sjá lángt frá, eins himininn, þegar lítil birta er á honum. Jeg skal einhverntíma segja ykkur nokkur dæmi uppá liti, sem augað sjer, en ekki eru til fyrir utan það. Að loptið sje þreifanlegt, finnst ei einasta af vindunum, heldur þarf ei annað til að þekkja það, enn ausa loptinu með lófa sínum að andlitinu. *Stælingar-kraptur* loptsins er, að það getur samanpressazt og af sjálfu sjer útþan-

izt aptur, en til vissu vita menn ei hvað það getur mest orðið. Svo sem hiti almennt útvíðkar, en kuldi samandregur, svo á það einkum heima hjá loptinu, og hafa lærðir menn svo mikið getað reynt, að það verður af eldi þrettán þúsund sjö hundruð sextíu og níu sinnum víðara, eða hver þess partur stærri, og samanpressast þrettán hundruð og fjörutíu sinnum meir, enn það er í sínu eðlilega ástandi á jörðunni. Vildu menn því aðgæta þá stærstu útvíðkun og mestu samanpressun loptsins, sem híngað til er kunnug orðin, þá finnst, að lopt-partarnir hafa orðið átján millíónum, fjögur hundruð fimmtíu þúsund fjögur hundruð og sextíu sinnum minni, enn áður hafa þeir stærstir verið. Loptsins samanpressun má sjá á lyknarbelgs-knapp, sem börn snúa saman, þar til hann verður harður, og loksins spríngur með hvelli, þegar lyknarbelgurinn stendst ei leingur pressínguna; en þess útþenslu má sjá, þegar látin er tóm, en vel lokuð blaðra, yfir kola-eld eður á heita hellu, þá sjest hvernig hún smá-fyllist, og loksins spríngur af því, að loptið í henni útvíðkast. Væri ei þessi stælíngar-kraptur til, þá væri eingin hljóðfæra-konst möguleg; hann er brúkaður til margs, hvar af jeg einasta vil nefna vind-bissuna, sem er miklu kraptameiri af einsaman lopti enn púður-bissur eru, því með lopt- eður vind-bissu hef, jeg sjeð skotið kertis-skari gegnum borðfjöl. Um þann loptsins eiginlegleika vil jeg nú ekki tala, að menn á seinustu tímum hafa blandað salt-tegundum, lút, brennusteini, feiti og fleiru saman við það, hvar af nú er búið að uppfinna 13 tegundir, sem til ýmislegrar nytsemdar þjena; hvað smágjörð þessi samblöndun geti orðið, má ráða af því, að einn vatnsdropi, sem í lopti sundurtvístrast, getur orðið þrettán þúsund sinnum víðari um sig.

Svo jeg þá aptur komi til höfuð efnisins, sem er, að *stormur* sje ei annað enn straumur í loptinu, kemur hann af öllum þeim orsökum, sem gjöra það þynnra eður þykkara í einum stað enn öðrum, og hverjar hjer er oflángt upp að telja. Nytsemi vindanna hefur hinn lærði lögmaður herra Magnús Stephensen í stuttu máli, en snoturlega og vel, uppreiknað í íslenzka lærdóms-lista fjelagsrita 3. b. bls. 138. Jeg þarf því ei annað, enn varpa tölu á tólf sjerlegustu gagnsemdir vindanna, og eru þær þó ótal fleiri, jeg vil því einasta nefna:

1. Þeir hreinsa loptið, sem annars væri fúlt, óholt, og mundi gjöra oss líka Kretínunum, sem jeg fyrir nokkru sagði ykkur frá.
2. Flýta uppþiðnan snjóa og ísa á vordag, fiskigaungu í vötnum og vatna útrás, þegar þeir standa með henni.
3. Færa hita og kulda úr einum stað í annan, sem ekki einasta er nauðsynlegt heilsu vorri og dýranna, heldur og líka vexti grasa og urta.
4. Sjálf grösin, eikur, korn, og aðrar plöntur vaxa og meiga vel af þeirri hræríngu, sem vindarnir af stað koma.
5. Reka burt óholla dampa, þoku, mistur og muggu, sem annars skaðleg yrði bæði dýrum og jarðargróða.
6. Gjöra haganleg umskipti á allskonar veðráttu, svo í loptinu orsakast af þeim einskonar flóð og fjara, sem allt hvað líf hefur í sjer má ei án vera.
7. Hjer af flýtur, að þeir útskipta með nokkurskonar jöfnuði, regni og skýjum, þurkum og votviðri, já aldrei yrði einusinni heiðskírt ef ei væru vindar.
8. Blómsturdufti feykja þeir, svo vaxandi hlutir á jörðunni þar af frjófgist, bæði hrista þeir karl-

kyns plönturnar, og líka flytja þeirra fræ til hinna blauðu maka þeirra, er ekki búa í sama húsi.

9. Stöðuvötn, tjarnir, og mýrar þurka þeir, líka þvotta vora, og óholla vætu, sem úrkomur olla.

10. Umróta hafi og stöðuvötnum, svo þau ei fúlni, eður innbyggjarar þeirra, fiskarnir, mæti sömu óhollustu, sem land-dýrin, ef loptið ekki hefði nauðsynlega hræríngu.

11. Milnur, sem margskonar eru, hafa sinn gáng af vindi, og vinna margra þúsund manna verk, í kornmölun, trjásögun, ýmislegum smíðum, og handa yðn, vatnsaustri, og málmverknaði, og fl.

12. Siglíngar til aðdrátta, fiskis, kauphöndlunar og ferða landa á milli, hvar með svo margir afla sjer fjár, lærdóms og frægðar (hvar með líka má minnast á reka vora), eru ekki lítill ávinníngur af vindum.

Jeg vil alleina heimfæra þar uppá eitt einasta dæmi: það kaupfar, sem reiknast að taki þrjú hundruð lestir, ber fimtán þúsund vættir af vöru. Ættu þær að flytjast á hestum, og hver þessara klifjast með tólf fjórðúnga böggum, þyrftu til þess flutníngs fimm þúsund áburðar hesta, væri maður ætlaður til hverra sex af þeim, þyrfti til þeirrar lestar átta hundruð þrjátíu og þrjá menn með jafnmörgum hestum til reiðar. En hver verður þá munurinn, þegar líka reiknast allt hestanna fóður, mannanna kostur og kaup, en einkum skipsins fljótleiki fram yfir lestarinnar? ekki að tala um umbúðir, þegar vörunum ætti að skipta í svo marga bagga. Landflutníngur í klifjum er sífeldum stórum skaða og spillíngu undirorpinn þar, sem allt liggur óhaggað í skipinu, hver vanhöld eru miklu meiri enn svari sjó-

skaða hættu, og loksins er svo margt á skipum flutt, sem ómögulegt er að klifleggja. Siglíngar og vindanna náttúra er þó ekki nærri svo vel enn nú þekkt af manneskjunum, sem vera ætti; það er ekki mjög lángt síðan, að meir enn eitt heilt ár þurfti til að sigla frá Kallao til Kíli í Ameríka. Stýrimaður nokkur frá Evrópu vogaði fyrstur að fara lángt frá landi á þeim vegi, og komst hann það á nokkrum mánuðum, en nærri lá, að hann ei hefði getað sannfært *Inqvisitions* dómarana í Líma að ferðin hefði svo tekizt án galdra.

Þeir stormar, sem fara sjötíu fet á sekúndu, eður einum æðarsláttar tíma, eru hvassir, verður það frekar sex þíngmannaleiðir á eykt, en náttúru-spekíngurinn Krafft reyndi 1736 þann storm, sem fór 123 fet á sekúndu, hvað eð gjörir ellefu þíngmannaleiðir á eykt. Stormanna afl er ótrúlega mikið, þar það reynzt hefur meir enn við 5 fjórðúnga á einu krosslögðu fetmáli, yrði það þá á turni 75 álna háum og 15 álna breiðum, yfir hundrað þúsund vættir. Þegar vjer nú íhugum alla þá stóru nytsemd, sem vjer höfum af stormunum, og undir eins hvað stóran skaða þeir gætu gjört oss, ef guð, svo að segja, ekki ætíð hjeldi í taumana við þá, þar eð það er mjög sjaldan, sem þeir verða oss til stór-skaða, þá höfum vjer fulla orsök til að dást að guðs gæðsku, prísa hann fyrir þessa gáfu oss veitta, og þakka honum fyrir hans sífeldu föðurlegu vernd yfir oss.

## XXXVI. RÁÐNÍNG GÁTNANNA.

28) Maður á hesti. 29) Málara-pensill. 30) Stjarna. 31) Sandbitta.

## XXXVII. ÚTLEGÐAR SAGAN.

Góðgjörðasamur maður nokkur ásetti sjer að auðsýna velgjörðir einum þræli sínum, gaf honum

þess vegna frelsi, skip með öllum reiða, og svo mikinn forða, sem nógur væri til að leita sjer lukku og frama með, í hverju helzt landi, sem hann vildi taka sjer bólfestu. Þessi frelsíngi fór um borð, og ljet úr lagi, en skelfilegur stormur kom uppá, sem hrakti hann uppá nokkra ey, er honum sýndist vera óbygð. Nú var hann búinn að missa allt hvað hann átti, var hjálparlaus, vissi ekkert hvað af sjer mundi verða, og gat ei hugsað til seinni tímanna án skelfíngar. Hann var eins og í þoku hvað hann átti að horfa, gekk áfram í þaunkum, eða rjettara að segja þánkaleysi, þángað til fyrir honum varð sljettur og troðinn vegur. Með gleði hjelt hann áfram þann veg, og sá áleingdar stóra borg, hvað eð jók hans fögnuð, svo hann hvatti sporið til að koma þángað, sem fljótast. Hissa varð hann, þegar hann nálgaðist borgina, sá hennar innbyggjara koma í hópatali á móti sjer, segja sig velkominn með mestu blíðlátum, og að staðarins túlkur hrópaði hárri röddu: þessi er yðar konúngur! allir fylgðu honum til borgarinnar með fögnuði og gleðilátum; hann var leiddur með mestu viðhöfn og prakt í þá höll, hvar konúngarnir voru vanir að hafa sitt aðsetur, var færður í purpura-kápu og dýrmæt kóróna sett á hans höfuð. Æðstu höfðíngjar borgarinnar sóru honum hollustu eið í alls lýðsins nafni, að þeir skyldu vera honum hlýðnir, hollir og trúir, eins og þeim bæri við konúng sinn að breyta. Hinn nýi konúngur hugsaði í fyrstunni, að þetta allt væri ekki nema draumur; en af reynslunni hlaut hann að gánga úr skugga um, að þetta var raunar eins og það sýndist, svo hann í huganum varð að spyrja sjálfan sig: hvað á þetta að þýða? og hvað mun sá æðsti stjórnari allra hluta ætla sjer með mig? þessi þánki fór aldrei úr huga hans, og loksins kom hann hon-

um til að grenslast eptir, hvernig á öllu þessu stæði. Hann kallaði því þann af hirðmönnum sínum fyrir sig, sem hann hafði optast sjer við hönd, og var hans ráðaneyti, og sem af guðs forsjón sýndist hafa verið settur honum til aðstoðar í landstjórninni. Dróttseti! sagði hann: hver hefur gjört mig að ykkar konúngi? hversvegna hlýða mjer allir, og hvað á af mjer að verða? vitið herra, svaraði hirðstjórinn honum, að innbyggendur eyjar þessarar, hafa beðið guð að senda þeim á ári hverju þann konúng, sem sje af Adam kominn. Sá almáttugi hefur bænheyrt þá, svo að á ári hverju kemur híngað einn maður, allur lýðurinn tekur með mestu viðhöfn og fögnuði móti þessum manni, og setur hann til konúngs yfir sig; en hans ríkisstjórn stendur ei leingur enn eitt ár. Þegar sá tími er á enda, þá er honum velt úr hásætinu, dregin af honum tignarklæðin, og hann aptur færður í lítilfjörlega larfa. Stríðsmenn, sem ekki gefa nein grið, færa hann ofan til strandar, og kasta honum þar útí skip, er flytur hann til annarar eyjar, sem af sjálfrar sinnar kostum er hrjóstrug og gæðalaus. Sá, sem fyrir fáum dögum var ríkur konúngur, hefur þá hvorki þegna eður vini, en lifir þar í sorg og eymd. Líðurinn, sem laus er orðinn við sinn gamla konúng, flýtir sjer þá að meðtaka þann nýja, sem guðs forsjón árlega sendir híngað, og þetta, herra! er það óumbreytanlega lögmál, sem ekki stendur í yðar valdi að raska. Vissu þeir, sem fyrir mig hafa verið, spurði konúngurinn sinn hirðstjóra, þessi hörðu forlög? eingum þeirra, svaraði dróttsetinn, hefur það verið dulið, en þeir hafa ekki haft nógan dug og manns hug að athuga svo sorglegar útfarir, þar augu þeirra hafa verið blinduð af glampa konúngdæmisins. Þeir hafa lifað og látið eins og vellystíngar og ánægja hafa hvatt þá til,

og aldrei hugsað til að ná stöðugri lukku, eða gjöra sjer bærileg þau endalok, sem þeir vissu sjer var ómögulegt að umflýja; þeirra lukku-ár leið ætíð fljótara enn þá varði, svo ófara-dagurinn kom loksins yfir þá fyrr enn þeir voru búnir að búa nokkuð í haginn fyrir sig, að eymd og útlegð þeirra yrði þeim bærileg. Þegar konúngurinn heyrði þetta, varð hann mjög óttasleginn, sveið honum það mest, að mikill partur af dýrmæta tímanum var til ónýtis liðinn; hann ásetti sjer því að brúka þess betur það af honum, sem eptir var. Þú vitri dróttseti! sagði hann til hans: þú hefur sagt mjer mitt tilkomandi ófall, segðu mjer líka hvert meðal er til að komast klaklaust hjá því? minnist þjer, herra! svaraði dróttsetinn, að þjer komuð alls laus híngað til eyjarinnar, og athugið þá undir eins, að allt eins muni verða þegar þjer farið hjeðan, og að þjer aldrei munuð sjá hana aptur. Eitt einasta meðal er til, að varna því ófalli, sem fyrir yður liggur: þjer verðið að senda smiði til eyjarinnar, sem þjer egið að fara til, láta byggja þar stór vista hús, og fylla þau af öllu því, sem þarf til viðurlífis. Forsómið hjeðanaf ekkert augnablik, sem þjena kann til yðar lukku, og brúkið öll þau meðöl, sem þjer getið upphugsað, til að koma í veg fyrir þá vesæld, sem fljótt dynur yfir en leingi varir; allt þetta verður að gjörast undandráttarlaust, því tíðin flýgur, sá fastsetti tímans púnktur nálgast, og það er forgefins að ætla sjer að apturkalla þá stund, sem aflifuð er; en yfir alla hluti fram, munið til þess, að á þeim stað, sem þjer eigið til svoddan lángframa að búa, munuð þjer ekkert fyrirfinna nema það, sem þjer látið flytja þángað, á þeim stutta tíma, er þjer eigið enn nú eptir. Konúngurinn fjellst á þetta ráð dróttseta síns, og fór strax að koma því í verk; hann sendi þángað

smiði án tafar til að byggja þar vista hús og hýbýli, og ljet þángað fara svo margt fólk, sem honum sýndist þörf á til að gjöra eyjuna að yndislegum og gagnlegum bústað. Á meðan nálgaðist smámsaman sá tími, er hann skyldi missa ríkið, en svo var lángt frá að konúnginum stæði ótti eður ofboð þar af, að hann miklu heldur lángaði til að sjá sitt nýja land, og mega vera þar að staðaldri. Loksins kom sá ákvarðaði dagur, konúnginum var snarað úr hásætinu, allur konúngs-skrúði var af honum tekinn, og eins og honum hafði verið fyrirfram sagt, var hann hnepptur úti skip, sem flutti hann í hans útlegðar-stað. Þessi afsetti konúngur kom þángað lukkulega, og lifði þar bæði rólegri og ánægðari enn áður.

*Arabchah,* sem samsett hefur þessa dæmisögu, útleggur hana þannig: *góðgjörðasami maðurinn* er guð; *þrællinn* er barnið, sem getið verður; *skipið,* sem hússbóndinn gaf þrælnum og ljet hann fara á, er móðurlífið; *skipbrotið,* sem hann leið, þýðir fæðínguna, og *eyjan,* sem hann kom til, er veröldin; *innbyggjararnir,* sem komu á móti honum, eru barnsins foreldrar, sem ala önn fyrir því; *dróttsetinn,* sem sagði honum hvað fyrir honum lægi og gaf honum góð ráð, er skynsemin; *árið,* sem hann á að ríkja, þýðir manneskjunnar lífstíma; og *eyði eyjan,* sem hann á að flytjast til, er sú eptirkomandi veröld; *smiðirnir,* sem hann sendir á undan sjer, eru guðhræðsla og góðverk, sem hann á að stunda meðan hann er hjer í lífi; þeir *konúngar,* sem höfðu stjórnað fyrir hann, og ekkert höfðu hugsað fyrir tilkomandi tíðinni, samlíkjast mesta parti mannanna, er lifa eptir munni og maga, en gá ei að því, sem eptirkomandi er, mest ríður á og leingst varir.

## XXXVIII. ÖFUNDSJÚKIR ERU SÍNIR EIGIN KVALARAR.

Þrír menn vóru á ferð saman. Sá elzti sagði: hverra erinda eruð þið að fara? Jeg fór úr mínu landi, svaraði einn, af því jeg gat ekki augum litið nokkra menn, sem jeg hataði meir enn dauðann, hvað eð kom af því, að jeg öfundaði þá, hversu lukkulegir þeir voru. Sama er orsökin, hvar fyrir jeg er á ferð, sagði annar. Nú! við eigum þá allir þrír sam-merkt, sagði sá elzti. Í fyrstunni kom þeim öllum vel saman. Einusinni fundu þeir stóra penínga pýngju, sem einhver hafði týnt. Þeir fóru allir þrír af baki, og sögðu: við skulum skipta þessum peníngum, fara síðan heim aptur hver til sín, og gjöra okkur til góða með þeim; en þetta var eintómis munnvarp, því hver þeirra fyrir sig ætlaði sjer að hafa mest, en vissu ekki hvernig þeir áttu að koma því í verk, því allir höfðu sama ásetníng, og hver hugsaði um sig. Þar biðu þeir á sama stað, og fóru að hugsa um þetta heilan dag og nótt, án þess að njóta svefns eða matar, og kvöldust mjög innvortis. Síðan bar þar að konúnginn, sem var að dýraveiðum með allri hirð sinni. Hann spurði þá að, hvað þeir væru þar að gjöra við þessa penínga? af því hann kom flatt uppá, varð þeim það að segja sannleikann. Herra svöruðu þeir: við erum þrír, og höfum allir sama geðbrest, sem er öfundin; hennar vegna fórum við burt úr okkar landi, en hún fylgir okkur allstaðar; það væri guðs-þakka verk ef þjer gætuð frelsað okkur frá þeirri kvöl. Segi þá hver ykkar fyrir sig, svaraði konúngurinn, hvað sterk öfundsýkin er hjá honum, svo jeg viti hvaða meðal á við hjá hverjum ykkar. Jeg er svo öfundsjúkur, sagði einn þeirra, að jeg get eingum

manni gert gott, hver sem hann er. Heilagur ert þú hjá mjer, sagði sá annar, því jeg get ekki liðið, að neinn gjöri öðrum gott, svo lángt er frá að jeg gjöri það sjálfur. Hinn þriðji sagði: meiri er öfundsýkin hjá mjer enn hjá ykkur, því hvorki þoli jeg að neinum sje gott gjört, nje gjöri það sjálfur, en jeg get ekki heldur líðið að mjer sje gjört gott. Konúngurinn varð hissa þegar hann heyrði þetta, og vissi ekki hverju hann átti að svara; en eptir að hann hafði hugsað sig nokkuð um, tók hann svo til orda: þið eruð ekki þess verðir, að jeg láti ykkur hafa þessa peninga; hann ljet því fyrst taka peníngana frá þeim. Síðan var sá, sem eingum gat gott gjört, fluttur á eyðimörku berfættur og matarlaus. Af hinum, sem ekki gat horft á, að neinum væri gjört gott, var tekið höfuðið, þar eð hann væri óverðugur að lifa vegna þess honum þókti ekki vænt nema um íllt eitt. En sá þriðji, sem þar að auk ekki gat liðið, að sjálfum sjer væri gott gjört, var látinn lifa, því ekkert straff fannst, sem kveldi hann meira enn hans eigið geðslag; hann var fluttur á þann stað í konúngsríkinu, hvar fólk var góðgjörðasamast, af hverju hann kvaldist svo, að hann dó innan skamms.

## XXXIX. GÁTUR.

32) Jeg er nú orðin gömul, þó jeg sje svo gott sem á æsku skeiði, þar eð mjer hefur ekkert farið aptur. Allstaðar geing jeg jafnt og stilt áfram, dag og nótt, vetur og sumar, samt þykir summum jeg fari offljótt, öðrum of seint. Margur heldur það synd að drepa mig, en gjörir það samt.

33) Án handa og fóta byggi jeg mitt eigið hús, þó lofa jeg eingum þar að gista, því jeg fylli það

upp sjálfur. Á veturna gref jeg það niður, loka svo dyrunum aptur og lifi þar mötulaus, svo einginn gjöri mjer ónáðir.

34) Hver er ríkastur í allri veröldinni?

35) Minn líkami var píndur í elds-báli, síðan hjólbrotinn, á hann var helt miklu vatnsflóði, þar eptir var hann látinn með forsmán liggja, en gómur þinn hefur ánægju af seyðinu.

36) Án skips, án masturs, án segla, án brúa, ber jeg líkama þinn fljótt yfir vatn og bylgjur; ferjan mín er ekki löguð til að sitja í, en þú verður að standa, fljúga og gánga, annars er höfuðið á þjer í hættu.

## XL. SAGAN AF ALEXANDER MENZIKOF.

Þessi maður er sjerlegt eptirdæmi uppá lukkunnar hverflyndi, því hann var af lágum stigum, en með skarpleika og næmi komst í hæðstu tign. Sjálfur vissi hann ekki hver afmælisdagur sinn var, hvað hæglega gat skeð, því hann var borinn og barnfæddur í Rússlandi, laungu áður enn Pjetur keisari hinn mikli skipaði að láta skrásetja þá, sem fæddust og dóu. Faðir þessa Alexanders hafði þá iðn, að baka sæta-brauð, og hafði feingið leyfi til, að hafa búð sína hjá höll keisarans í Moskow. Strax sem þessi sonur hans var kominn nokkuð á legg, ljet faðir hans hann gánga í kríng í borginni til að selja brauðin. Hinn úngi Alexander var vel vaxinn, glaðlyndur, og bauð góðan þokka af sjer, svo honum gekk vel að selja sæta-brauðin. Þar eð hann seldi mikið af þessum brauðum á slotinu, höfðu þeir stríðsmenn, sem skiptust til að vera á verði hjá keisaranum, opt gaman af honum, hann gjörði líka allt hvað hann gat þeim til skemtunar, því þess

betur gekk honum að koma út vöru sinni hjá þeim. Pjetur hinn mikli var þá á þeim aldri, sem ekki þykist ofgóður til að taka eptir einum og öðrum smámunum. Hann sá útaf glugganum á herbergi sínu, að þessi sætabrauðs-bakara dreingur gekk á hverjum deigi fyrir gluggana. Pjetur heyrði dreingsins þægilega málróm, og fekk smámsaman góðan þokka til hans. Einusinni kleip stríðsmaður af keisarans lífverði í eyrun á dreingnum, svo hann hljóðaði, af því hann hafði ert stríðsmanninn eitthvað upp. Keisarinn skipaði strax að taka hann af stríðsmanninum, og láta hann koma til sín. Dreingurinn kom og varð ekkert hræddur, svaraði skilmerkilega til alls, sem keisarinn spurði hann að, og kriddaði stundum sitt svar með skarpleika, sem ekki átti ílla við, en sýndi að hann hafði góðar gáfur. Pjeturs þokki til hans óx svo, að hann gjörði hann einn af sínum kertasveinum. Menzikof var í æsku sinni dáfríður, hvar fyrir keisarinn líka hjelt uppá hann öðrum framar. Hann var alltíð í keisarans herbergi, fylgði honum allstaðar og jafnvel í ráðs-samkomum, svo það bar ekki sjaldan til, að hann líka sagði sína meiníngu, þegar eitthvað vandasamt kom í tal; en það gjörði hann með svo auðmjúku og þægilegu móti, að eingum þókti miður, en sjálfur hann varð herra sínum sífeldlega kærri. Það sýndist eins og lukkan hefði staðráðið að koma honum hátt, og gæfi honum þess vegna fleiri tækifæri til að koma sjer betur í mjúkinn hjá keisaranum. Þegar hann einusinni var í gestgjafara-húsi, heyrði hann að í herbergi næst við töluðu tveir menn alvarlega, og nefndu keisarann. Hann fór að hlusta til, og komst að því, að upphlaup var í brugg-gjörð móti keisaranum, sagði honum því strax, hvað hann hefði komizt á snoðir um. Keisarinn ljet þegar í

stað setja þessa tvo menn í fángelsi, pína þá til sagna, þeir játuðu allt, sögðu hverjir með væri í verkinu, og feingu sitt straff. Sá úngi Alexander vissi vel, að hann varð að læra nokkuð, til að verða fastur í því afhaldi, sem hann þángað til átti að þakka æsku sinni og fríðleika; hann lagði sig þess vegna eptir stjórnar- og stríðs-konstunum; fór honum fljótt fram í þeim, þar eð hann var mjög vel gáfaður, sýndi líka innan skamms stór merki til þess, og í stríði keisarans móti Karli tólfta Svía konúngi ljet hann í ljósi bæði hug og dug. Hann komst í þá mestu tign í ríkinu, líka í fursta stand, varð æðsti hershöfðíngi, efsti ráðgjafi og riddari af hinum æðsta flokki. En því meira ríkidæmi og tignir, sem hann hlaut, því sólgnari varð hann eptir fleirum. Menzikof safnaði saman ógrynni af peníngum, og átti svo mikið jarðagóz, að það varð að málshætti: hann gæti farið frá Ríga í Líflandi, sem er í norðurálfunni, til Dorbent í Persalandi, sem er í austurálfu heimsins, og þó alltíð ferðast á sinni eign. Á hans jarðagózi voru fimmtíu þúsund búendur, hverra húsbóndi hann var, þó var það lángt frá ekki nóg til að seðja hans girnd. Allir sem annaðhvert voru hræddir við keisarann, ellegar vildu njóta hans náðar, útveguðu sjer Menzikofs hilli. Keisarinn í Þýzkalandi hóf hann upp í ríkis-furstanna stjett, og gaf honum hertugadæmið Kossel í Slesíu. Margir konúngar gjörðu hann að riddara af þeirra eigin orðu, og bættu við ýmsum stórum árlegum peninga inntektum, og þegar þeir þurftu hans fulltýngis við hjá keisaranum, sendu þeir honum nýjar gjafir. Stundum datt konum í hug að heingja á sig öll riddaramerki, sem hann hafði feingið, og gánga í samkvæmi með þau. Þar eð þeir Þýsku furstar gáfu honum titil „Durchlauchtig“, sem geingur næst

konúnga titli, þegar þeir skrifuðu honum til, þá vildi hann að konúngurinn í Frakklandi skyldi veita sjer sömu æru; en honum var svarað, að sá konúngur skrifaði aldrei þann titil nema þeim, sem væru af furstum komnir. Þó honum kynni eitthvað á stundum móti að blása, þá ljet hann það vera sína huggun, að hann gat ráðið miklu. Veldi hans óx daglega, og seinast tók hann sjer fyrir, að ráða hver ríkið skyldi öðlast. Pjetur hinn mikli andaðist dag 8 Febrúar 1725. Ráðið kom strax saman, til að gjöra atkvæði um hver ríkið skyldi fá eptir hann. Menzikof, sem var ríkisins æðsti hershöfðíngi, ljet stríðsmenn umkríngja allt slotið, hvar ráðherrarnir voru samansafnaðir, þar með kom hann ótta að hverjum þeim, sem kynnu hafa í sinni, að setja sig á móti því, að Katrín ekkja Pjeturs feingi keisara tign og vald. Menzikof vildi helst, að hún feingi ríkið, bæði af því, að hann hafði verið elskhugi hennar, áður enn Pjetur hinn mikli hafði þekkt hana, og hann hafði ætíð borið sig að viðhalda hennar vináttu, vonaði þess vegna hann mundi fá enn meira vald undir hennar ríkisstjórnan. Nokkrir ráðherrar vildu tala þess Pjeturs máli, sem var Pjeturs mikla sonar son, og sonur þess ólukkulega Alexis, hvern faðirinn hafði látið dæma til lífláts, en þar urðu mótmæli ofaná mótmæli, og seinast ætluðu nokkrir ráðherrar, að ljúka upp glugganum á salnum, sem þeir voru komnir saman í, til að spyrja lýðinn, sem úti var í stórum flokkum, hvað honum sýndist ráðlegt, en þá ljet Menzikof nokkra vopnaða stríðsmenn koma inn, hverja hann af forsjálni hafði látið vera til taks í forstofunni, og sagði með allhvassri raust: „hjer er ekki svo heitt að upp meigi ljúka gluggunum, það óhultasta og skynsamlegasta er, að kunngjöra að Katrín sje tekin við stjórn, en senda til

hennar mann, að láta hana vita það." Allir ráðherrarnir urðu hræddir, og samsinntu því, sem Menzikof vildi. Von hans sveik hann ekki heldur; því hann rjeði allteins miklu meðan Katrín en fyrsta sat að ríkjum, eins og hann hafði áður gjört hjá Pjetri fyrsta. Þegar Katrín dó, ætlaði Menzikof að komast í bobba. Hann sá sjer var betra, að fyrrnefndur Pjetur Alexis son feingi hið rússneska ríki, heldur enn prinsessa Anna, sem þá var gipt hertuganum í Holstein, ellegar Elisabet, sem var dóttir Pjeturs hins mikla og Katrínar. Margir af ráðherrunum, töluðu sterklega máli keisarans dætra, en Menzikof var ákafur, ógnaði, og gaf í annað sinn í burtu þá rússnesku keisara-tign. Hann sá fyrirfram að sjer mundi vera hægt að halda virðíngu sinni, þar sem tólf ára gamall piltur hefði stjórnina. Til þess að koma sínu áfram, gjörði hann mikið úr, hvað þarfur hann mundi verða honum, og ljet úthrópa, að Pjetur væri keisari. Þar eptir kom hann því inn hjá honum, að ráðherrarnir væru keisaranum ekki hollir, talaði sífeldlega við hann um upphlaup, sem aðrir hefðu í brugg-gerð móti honum, lofaði að hafa kostgæfilega fyrirsjón fyrir, að hann væri óhultur, og ljet setja þá í fángelsi, sem urðu keisaranum of nærgaungulir. Hinn úngi keisari trúði öllu því, sem Menzikof sagði, varð hræddur við þá hættu, sem hinn útmálaði fyrir honum, og bað hann að hafa gát á öllu væri óhætt. Þegar Menzikof var búinn að koma þessum únga herra fyrir eins og hann vildi, sagði hann honum, að sá bezti máti til að kefja alla keisarans fjandmenn, og kúga þá óhlýðnu til að gjöra þeirra skyldu, væri: að Menzíkof hefði mesta partinn af keisarans mindugleika, svo hann yrði ríkisins fullmektugur *(Vicarius)* og hæstráðandi yfir stríðshernum *(Generalissimus)* hvað

allt keisarinn undirskrifaði og ljet eptir honum. Samt var Menzikof ekki þar með ánægður, hann hugsaði sjer líka að verða teingda-faðir þessa únga keisara, og til að koma öllum hindrunum úr vegi, rak hann í útlegð alla þá, sem hefðu kunnað að geta hindrað hans ásetníng, sendi marga af þeim til Síbería-lands, hvar þeir lifðu í stærstu vesæld, en allt þeirra góz var gjört upptækt til keisarans. Margir hinir æðstu herrar í ríkinu óttuðust sömu afdrif, skiptu sjer þess vegna af eingu, og keisarinn trúlofaðist eldri dóttur hans Menzikofs, svo eingin hindrun kom í veiginn. Menzikof ljet sjer ekki nægja með það, að setja dóttur sína i Rússlands hásæti, hann ætlaði líka að gjöra son sinn að maktarmanni; ljet þess vegna herlið fara til Kúrlands, og fá innbyggjarana þar, til að taka son hans sjer fyrir yfirherra og hertuga, en þar mætti honum nokkur fyrirstaða, sem hann gat ekki burthrundið. Þegar hann hugsaði, að nú væri hann búinn að kefja niður sína fjandmenn, og byggja sitt veldi á stöðugum grundvelli, tók hann til eingu að kvíða. Evdoxia Capúcia Pjeturs ens mikla fyrri kona, en amma þess þá ríkjandi keisara, var sú fyrsta, sem vogaði að setja sig upp móti Menzikof. Undir eins og hún heyrði að sonar-sonur sinn væri orðinn keisari, fór hún úr því klaustri, sem hún hafði verið innilokuð í, frá því sonur hennar dó. Þar eð hún var amma keisarans, hjeldu allir þeir æðstu við hirðina sig til hennar, og sjálfur hinn stórhugaði Menzikof, varð að lúta fyrir henni. Þó hugsaði hann hún mætti láta sjer vel nægja með útvortis virðíngu, og skipta sjer ekkert af ríkisstjórninni. En það varð öðruvísi, því varla var Evdoxia komin í frelsi, fyrr enn hún fekk sjálf lyst til að ríkja, og láta úthrópa sig sem keisarainnu. til að koma þessu í verk, bar hún sig,

að koma sjer inn hjá ráðherrunum og stríðsherrunum. Menzikof var búinn að ávinna sjer marga áhángendur, svo hann vantaði ekki þá, er sögðu honum frá öllu, sem viðbar. Hann sá þá hversu nauðsynlegt það var, að sporna á móti ásetníngi konu þessarar sem var því hættulegri, að aðrir, sem öfunduðu hans makt, bljesu að þeim kolunum. Hann fór þess vegna til hins únga keisara, útmálaði fyrir honum, hvað vond amma hans væri, og lagði niður fyrir honum þá hættu, sem ríkið mundi koma í, ef hann ljeti hana ná nokkrum afskiptum í ríkisstjórninni. Keisarinn varð órólegur af því, skipaði að setja Evdoxiu í klaustur, þó mátti hún velja klaustrið í Moscow, yfir það var hún sett, sem Abbadís, og fjekk meiri penínga enn hún hafði áður haft, þó samt með þeim skilmála, að hún aldrei færi burt úr klaustrinu. Þegar Menzikof var svo lukkulega búinn að frelsa sig frá ofsókn öfundar-manna sinna, og jafnvel ömmu keisarans, hjelt hann, að nú þirfti hann fyrir eingu að óttast, og hugsaði uppá ekkert annað, enn sameina sem mest sína og keisarans ættir. Uggleysi hans varð svo stórt, að þegar hann talaði við keisarann, gjörði hann það með þeirri raust, eins og hann væri að skipa, hvað smámsaman settist í keisarann, svo honum niðrí þókti alvarlega miður. Menzikof lagðist hastarlega í skæðum sjúkdómi, og á meðan átti fursti Dolgorukki að hafa umsjón með únga keisaranum. Hann bar sig af öllum kröptum að auka Pjeturs keisara misþykkju til Menzikofs, leyfði keisaranum miklu stærra frelsi enn hann áður hafði haft, og ljet föðursystur hans, keisara dótturina Elisabet koma til hans, og son sinn, þann únga Dolgorukki hjálpa henni í öllu því, sem kunni vera keisaranum til ánægju. Þau voru jafnaldra, og það varaði ekki leingi, áður enn keis-

aranum þókti vænt um þessa gamanleika, og vinsamlega umgeingni. Í einu orði að segja: furstinn Dolgorukki sparaði ekkert til þess, að koma sjer inn hjá keisaranum, og verða hans fulltrúi.

Menzikof batnaði sóttin og hann fekk alltsaman fullkomlega að vita, hver umbreytíng hafði orðið við hirðina og í keisarans uppeldi, þvert á móti því sem Menzikof hafði til ætlað. Strax og hann var orðinn albata, tók hann aptur að sjer sitt embætti hjá keisaranum, og flýtti sjer að koma öllu í samt lag, eins og áður hafði verið. Hann hafði ekki beig af neinum nema keisara-dótturinni Elisabet, og þess vegna ljet hann hana aldrei komast til keisarans, nema þegar einhver stór viðhöfn var og mannfjöldi við. Einga grunsemi hafði hann á því, þó keisari Pjetur elskaði þann únga Dolgorukki, því hann áleit hann hverki fyrir svo vitran nje djarfan, að hann gæti staðið sjer í vegi. Menzikof hjelt þar að auki keisaranum svo niðri, og þekkti hans náttúrlega hugleysi svo vel, að hann hugsaði keisarinn aldrei mundi sleppa úr þeirri kúgan. En það varaði ekki leingi áður enn hann komst að raun um það, að hann hafði ekki þekkt rjett feðgana Dolgorukki, þeir voru slúnguir í þeirri konst að dylja sig og voru vinir Ostermanns greifa, sem bar mesta hatur til Menzikofs, og einasta beið eptir tækifæri að hefna sín. Menzikof fór með keisarann til slotsins Petershof, og ætlaði að vera þar nokkra daga, að skemta honum með dýraveiðum. Ostermann greifi áleit þessa för mikið hentugt tækifæri að koma hefnd sinni fram. Hann fór til allra ráðherranna, og til hinna helztu yfirboðara þeirra stríðsmanna, sem voru keisarans lífvörður, til að komast að, hvernig þeir væru sinnaðir, og fann þá alla samhuga sjer, þeir lofuðu honum allir að gjöra allt hvað þeir gæti til

að frelsa föðurlandið frá harðstjóranum honum Menzíkof. Ostermann sagði þeim sitt áform, og lagði niður hvað hver skyldi gjöra. Þetta allt kunngjörði hann furstanum Dolgorukki, og bauð honum að eiga þátt í þessu eiðsvarna sambandi. Það varð framgeingt, sem Ostermann ásetti sjer í þessu. Furstinn Dolgorukki, hafði von um, að dóttir sín kynni að verða keisara kona, og lofaði að gjöra allt hvað stæði í sínu valdi til að koma þessu fyrirtæki fram. Það bágasta var að koma keisaranum burtu frá Menzikof, sem ljet hann aldrei við sig skilja. Hinn úngi Dolgorukki var álitinn hentugastur þar til, hann var keisarans einasti fjelagsbróðir, og svaf á hverri nóttu í sama húsi og hann. Af þessari nákvæmu umgeingni hafði hann komizt að keisarans sanna hugarfari til Menzikof. Það var undirlagt við hann hvernig hann skyldi að fara, og hann lofaði að koma keisaranum til ráðherranna. Ostermann greifi var búinn að koma öllu svo vel fyrir, að ráðið, rjett eins og af hendíngu var komið saman nálægt Petershof. Nóttin var ætluð til að koma þessu í verk, og strax, sem hinn úngi Dolgorukki vissi að allt var í kyrðum, fór hann til rúmsins keisarans, og rjeði honum að frelsa sig frá Menzíkofs þrældómi, með því að strjúka sem hraðast. Pjetur fjellst á það, klæddi sig fljótt og fór með Dolgorukki út um gluggann, sem var neðarlega á veggnum, síðan hlupu þeir í gegnum urtagarðana hjá slotinu, og þegar þeir voru komnir út á víðan völl, fundu þeir marga mikilsháttar menn, sem biðu þar eptir þeim með vagna, og færðu þá þángað, hvar ráðherrarnir voru samankomnir, fóru síðan beint til Pjetursborgar, til að láta keisarann vera því leingra burt frá Menzíkof. Þegar um morguninn var komið inn í keisarans svefn-herbergi, og hann fannst

ekki, var Menzíkof strax sagt til; honum var það rjett eins og reiðarslag, því hann sá hvaða háski sjer var búinn. Undir eins og hann sansaði sig, tók hann til sín hug og dug, og fór sem fljótast til Pjetursborgar. Hann hafði enn þá þann þánka, að hann hefði sama veldi og til forna, og hugsaði sjer að fá þá grimmustu hefnd yfir þeim, sem höfðu farið burt með keisarann. En áður var búið að reisa of ramar skorður við því að hann gæti nokkru til leiðar komið. Þegar hann ætlaði að fara inní slotið, var honum bannað það, og ógnað ef hann vildi ekki láta af því. Þá sá hann sína ólukku, sem hann var í kominn, snjeri þess vegna strax til baka í það hús sem hann var vanur að búa í, og fann þá á veginum ekki leingur þann fjölda af hirðfólki, sem sífeldlega var vant að vera í kríngum hann, því hans ólán var búið að tvístra þeim öllum á víð og dreif. Naumast var hann kominn í hús sitt, fyrr enn stríðsmanna hópur umkríngdi það. Sá, sem fyrir þeim var, lýsti yfir honum í keisarans orða stað, að hann væri fángi. Menzikof hugsaði, að feingi hann alleinasta keisarann í tal, þá mundi hann öðlast alla sína tign og vald aptur, beiddi þess vegna um leyfi að meiga koma á slotið, og tala við keisarann; en honum var skipað að fara innan 24 tíma til Rennesberg, sem var stórt jarðagóz er hann átti. Þá sleppti hann allri von og sagði: *Jeg hef drýgt stórglæpi, en á keisarinn að straffa mig fyrir þá?* þau orð juku fólki þá grunsemd, sem áður var um dauðdaga Katrínar hinnar fyrstu; samt var honum þann dag veitt mikil virðíng. Hundraðs-höfðínginn, sem tók vara á honum, sagði að keisarinn hefði leyft honum að taka með sjer það dýrmætasta, sem hann ætti, og láta svo marga þjenara fylgja sjer, sem hann vildi. Þá var hann svo óforsjáll, að láta alla

sjá stolt sitt, með að hafa mikinn undirbúníng til ferðarinnar. Honum var skipað að fara burt um miðdeigi nærsta dag eptir, til þess að allir sæu hans niðurlægíng, og láta hann sjálfan finna til hennar. Aðrir segja hann hafi sjálfur valið þá tíð, svo þeir, sem sæu uppá það, aumkuðust yfir sig og keisarinn líka. Það var líkara hefðar-ferð þegar hann fór burt, enn að þar væri nokkur í ónáð fallinn maður, sem drægi sig í hlje. Hann sat með konu sinni og börnum í praktugasta stázi og prýðis vagni, og fjöldi annara vagna fylgði á eptir. Hans flutníngs vagnar, þjenarar og hestar var mikil halaróa. Þegar hann í mannfjöldanum, sem hafði safnast saman að horfa á hann, þekkti einhvern, nefndi hann þann á nafn og kastaði á hann kveðju sinni. Fjandmenn hans nýttu sjer þetta stolt, og klöguðu hann fyrir keisaranum, að hann væri svo drambsamur, að hann gæti ekki af neinu beygzt, og hefði enn í huga að sýna keisaranum mótþróa, en komast úr öllum háska með ríkidæmi sínu. Hversu mikið, sem Pjetur hinn annar hataði hann, vildi hann þó ekki hlýðast á, eða gjöra allt hvað aðrir rjeðu honum til; samt sendi hann stríðsmanna hóp til að fylgja honum, og skipaði þeirra yfirboðara að taka af honum öll þau heiðurs- og riddara-merki, sem hann af keisurum og konúngum hafði feingið. Þessi niðurlægíng sveið Menzíkof sárt, en fyrir sjálfum sjer kveið hann ekkert, og sagði til hins yfirboðna: *takið þjer þarna við því, sem of mjög sannar, hvað heimskulega virðíngagjarn jeg hef verið. Jeg hef lagt það alltsaman í þenna stokk, mjer kom fljótt til hugar það mundi verða tekið frá mjer, það væri líka stærsta lægíng fyrir sjálfan mig að brúka það leingur.* Þess yfirboðna erindi var ekki þar með búið; hann sagði Menzíkof, að kona hans og börn

yrðu að fara út úr stáz-vagninum, og setjast á þær kerrur, sem hann til þess hafði tekið með sjer. Menzíkof hlýddi líka þessari skipun með undrunarverðri afneitun sjálfs síns. Hann var nú ekki leingur sá ærugírugi maður, sem hjelt sig of góðan til allra stærstu embætta; ekki leingur hinn stolti og drambsami, sem vildi hafa eins mikið við og konúngarnir, og hverjum allir ættu að lúta. Hann var þá rjettur spekíngur, á hvers stöðuglyndi ekkert beit, en svaraði: *Jeg er viðbúinn til hvers, sem vera skal; gjörið þjer það, sem yður er skipað. Þess meira, sem þjer takið frá mjer, þess minni órósemi held jeg eptir; jeg aumka þá, sem ætla að ábatast á þessu herfángi.* Síðan fór hann úr sínum stáz-vagni, og setti sig í litla kerru, svo rólega að allir undruðust yfir því. Kona hans og börn voru sett á aðrar viðlíka kerrur, en stáz-vagnarnir og þjenararnir var allt flutt til baka til Pjetursborgar, og Menzíkof hjelt sinni ferð áfram, en fekk ei þá huggun að tala í það sinn optar við konu sína og börn. Loksins kom Menzikof á þenna hátt til Rennesberg. Þetta var kaupstaður með prýðilegu sloti, sem hann hafði látið gjöra varnarvirki í kríngum, og sett þar kaupstefnu, svo Tartarar og Kósakkar komu þángað með allskonar vöru. Menzíkof hugsaði að þar mætti hann lifa eins og spekíngur meðan hann væri útundan hjá keisaranum, en sú lukka átti ekki að auðnast honum, því þó hann væri 250 mílur lángt frá keisarans hirð, sýndist fjandmönnum hans samt að hann væri of nærri; þeir voru hræddir við brögð hans og áhángendur, þar fyrir sýndist þeim ráðlegast, að láta hann fara í útlegð til Jakúsk, sem er leingst inní Síbería-landi meir enn 1500 mílur frá Pjetursborg. Að vörmu spori var sendur stríðsmanna hópur með þeirra yfir-

boðara til hans, og skipun frá keisaranum, að hann strax í stað skyldi í tjeðan útlegðarstað fara. Áður var hann færður úr öllum fötunum, og klæddur aptur eins og rússneskur bóndi, eins var líka farið með konu hans og börn, þau feingu klæðnað af gjalda-voð með lambskinns fóðri, og lambskinnshúfur. Furstinnan Menzikof, sem var af stærstu ættum, örkvisaleg af náttúrunni, og vanin til sællífis, en hafði aldrei þurft að taka hendinni í kalt vatn, þoldi ekki þessi bágindi og harða meðferð, dó á ferðinni skamt frá Kasan. Menzíkof fjekk naumast tíð til að grafa hana þar, en var rekinn til að flýta ferðinni til Tobolsk, sem er höfuðstaðurinn í Sibería-landi. Þángað hafði komið fregn á undan honum, að hann væri fallinn í ónáð, og væntanlegur þángað í útlegð, yfir hverju allir hlökkuðu og glöddust fyrirfram, að þeir feingi að sjá þann mann í fjötrum og hlekkjum, fyrir hvers veldi allt Rússland hafði áður mátt skjálfa. Þeir fyrstu, sem fundu hann, þegar hann kom í staðinn, voru tveir rússneskir herrar, sem þángað höfðu verið fluttir í útlegð meðan hann rjeði öllu. Þeir komu móti honum, skammyrðtu hann svo, sem þeir gátu, og eltu hann gegnum allan staðinn, allt þángað til hann komst í fángelsið. Hann ljet ekki hið minnsta bera á óþolinmæði, eður að honum þækti fyrir, heldar sagði til annars þeirra: *þjer er ekki láandi þó þú brígslir mjer; hefndu þín nú, úr því þú getur ekki skeitt skapi þínu, nema á mínu núverandi ástandi. Jeg kollkastaði þjer, af því mjer þókti þú vera mjer í vegi, og dygð þín með straungu sinnislagi stóð mjer í ljósi.* Síðan snjeri hann sjer til hins með þessum orðum: *sítz hugsaði jeg að finna þig hjerna, og ekki veit jeg hvernig þú ert híngað kominn, svo þú getur ekki kennt mjer um þína ólukku. Jeg*

*vænti þú hafir haft fjandmenn meðal þeirra, sem voru mjer við hönd, og munu þeir hafa lokkað út úr mjer skipun, að þú skyldir fara í útlegð. Jeg hef opt spurt, því jeg sæi þig ekki, en fjekk allrahanda tvírædt svar, en þar að auki hafði jeg svo mikið að gjöra, að jeg gat ekki til leingdar hugsað eptir því; ef þú samt hugsar að þjer sje nokkur ljettir í ólukku þinni að smána mig, þá haldt þú áfram.* Sá þriðji herra, sem í Menzíkofs almættis tíð hafði komið þángað sem útlagi, þreyngdi sjer í gegnum fólks þyrpínguna, sem hafði safnast saman, og kastaði skarni framaní son og dóttur hans Mensikofs; þegar faðirinn sá það, kallaði hann: *kastaðu skarninu á mig, en ekki á vesælings börnin þau arna, sem ekkert hafa gjört þjer.* Stiptamtmaðurinn í Síbería landi sendi Menzíkof eptir keisarans skipun 500 rdli., að hann gæti þar með útvegað það, sem hann nauðsynlega þurfti handa sjer og sínum. Hann fjekk leyfi til að kaupa fyrir þá peninga það, sem hann sízt mátti án vera á sínum útlegðar-stað. En í þessu öllu ljet hann sjer einasta vera umhugað um börn sín, og gaf sjálfan sig aldeilis guðs forsjón á vald, því sárast var honum að vita í hvað aumu standi hans vesælu börn mundu verða, er alleina guldu hans. Hann keypti sjer sagir, axir og allslags akur-yrkju verkfæri, net til fiskis, korn og saltað kjöt; en þegar hann var búinn að útvega það nauðsynlegasta, beiddi hann um, að það, sem eptir væri af peníngunum mætti útskiptast meðal fátækra. Eptir að hann hafði verið í Tobolsk tilsettan tíma, var honum skipað að ferðast leingra áfram. Hann og börnin voru sett á kerru, sem dregin var af einum hesti, og opt og tíðum ekki nema af hundum. Fimm mánuðir liðu áður enn hann kom til Jakúsk, og meðan hann var

á þessari laungu, mæðusömu ferð, varð hann með börnum sínum að útstanda mörg bágindi, því veðrið er svo stirt og kalt í því landi.

Þegar hann einusinni fjekk leyfi af stríðsmönnunum, sem vöktuðu hann, að gánga inn í bónda hús nokkuð, að hvíla sig þar, og borða með börnum sínum, kom stríðsmanna yfirboðari inní sama hús; þessi kom frá Kamschatka, og hafði þángað verið sendur meðan Pjetur hinn mikli sat að ríkjum, átti hann að hjálpa til að fá vitneskju um þau lönd, sem þar voru í grend. Þessi yfirboðari hafði áður verið Menzíkof undirgefinn í stríði, og þá verið hans æðsti sendisveinn, en hann þekkti nú ekki Menzíkof í bænda-búníngnum. Þessi þekkti hann samt, nefndi hann á nafn, en hinn fjell í stans, og spurði hver hann væri? Menzíkof svaraði: *fyrir skömmu síðan var jeg fursti Menzikof, nú er jeg Alexander.* Þegar þessi yfirboðni hafði farið frá Pjetursborg, var Menzíkof í svo stórum völdum og skrautlegu standi, að hinn gat ekki trúað því að þessi væri sami maður og hann hjer sá. Hann hugsaði þessi væri bóndi, sem ekki væri með öllum mjalla, og svaraði honum eptir því. Menzíkof gat sjer til hvað hinn hugsaði, tók hann afsíðis, og sagði honum hver hann væri. *Æ! minn fursti!* kallaði sá aðkomni uppyfir sig, *af hvaða ólukku er yðar hátign komin í svo aumt stand? hættum við* svaraði Menzíkof *að brúka þenna stolta titil. Jeg er búinn að segja yður, að jeg heiti Alexander; guð er búinn að gjöra mig aptur að þeim sama, sem jeg var í fyrstu.* Komumaðurinn vildi fá meiri upplýsíngu um þann, sem hann talaði við, og spurði úngan bónda, sem sat þar í horni, hvort hann þekkti þenna mann? sami úngi bóndi var sonur hans Menzíkofs, og svaraði: *það er hann faðir minn! kannske okk-*

*ar ólukka sje orsök í því að þjer þekkið okkur ekki núna? þjer eigið okkur þó margt að þakka.* Menzikof ávítaði son sinn fyrir þetta svar, og sagði við þann aðkomandi: *vorkennið þjer þessum vesæl-íng! ólukkan hefur gjört hann nokkuð stygglynd-an; það er hann, sem þjer sáuð, þegar hann var barn að leika sjer, og þarna sjáið þjer dætur mínar!* þær voru klæddar eins og bændastúlkur, sátu á gólfinu, og höfðu mjólkur-ask milli sín, sem þær voru að brjóta brauðskurn ofaní. *Sú arna,* sagði Menzikof enn framar, *var búin að fá þá æru, að vera trúlofuð keisaranum Pjetri öðrum, og var nærri komin að því augnabliki, að vera gipt hon-um.* Þegar sá aðkomandi heyrði Pjeturs hins ann-ars nafn, undraðist hann enn meír; hann hafði verið nærri fjögur ár í burtu, og vissi ekkert hvað á þeim tíma skeð hafði. Menzíkof sagði honum það í stuttu máli, hinn heyrði til með athygli og undran, og leit til stríðsmannanna, sem fylgdust með Menzikof að gæta hans, til að sjá á svip þeirra, hvort þetta mundi vera satt eða ekki. Loksins end-aði sá ólukkulegi fursti frásögu sína þannig: *hvað skal jeg þá framar segja þjer minn vin? jeg var orðinn allteins voldugur, og enn þá óttalegri enn Pjetur hinn fyrsti sjálfur, jeg hugsaði, að þá væri jeg lángt uppúr því vagsinn, að nokkur stæði mjer á móti og gladdi mig í þeirri von, að jeg nú skyldi fara að njóta rólega ávagstanna af því, er jeg var búinn að búa um mig, þegar feðgarnir Dolgo-rukki og sá útlendi Ostermann steyptu mjer í þetta ástand. Þó skyldi jeg ekki hafa gjört svo mikið, sem einusinni stunið af því að missa alla mína tign og eigur, jafnvel mitt frelsi, en* — þá flutu tárin niður af kinnunum á honum, og hann benti til barnanna sinna — *þetta er mitt einasta*

*straff, og það varir svo leingi, sem jeg lifi. þessir saklausu vesælíngar hafa fæðst og uppalizt í virðíngum og alls nægtum, nú hafa þau skort á öllu, en hafa óblíðu og ólukku af mjer, þó ekki sjeu þau sek í neinu því, sem jeg er skuldaður fyrir. þú kemur senn til hirðarinnar, að segja frá þínum erindislokum, og finnur þar báða feðgana Dolgorukki, og hann Ostermann, sem nú ráða öllu. Segðu þeim jeg óski af hjarta, að þeir hafi og brúki allslags dugnað til að gjöra Rússland lukkulegt og blómstrandi; mettaðu hefndargirni þeirra með að segja þú hafir fundið okkur á ferðinni, að öll bágjindi, frost og óveður á þessari laungu og mæðusömu leið hafi ekki skaðað heilbrigði okkar, heldur sýnist hún miklu fremur, að hafa orðið betri og fastari, og að jeg í fángelsis-standi mínu hafi nú þá hugar-rósemi og frelsi, sem jeg aldrei hafi þekkt meðan lukkan var að hossa mjer.* Gesturinn grjet hástöfum, og kvaddi Menzikof þegar hann fór af stað, og hugsaði með sjer, að þessi fursti væri lángtum meiri í niðurlægíngunni enn hann hefði verið í mestu upphefð sinni. Strax sem Menzikof var kominn þángað, sem hann átti að vera útlagi, hugsaði hann um ekkert annað enn hafa fyrir börnum sínum svo þau bristi ekkert, og láta þann viðbjóðslega stað, sem líklegt var þau ættu að lifa á það, sem eptir var æfinnar, verða þeim nokkuð þolanlegri. Hann byrjaði með því að yrkja landsvæði mikið, hvar til það vinnufólk, sem hafði fylgzt með honum, hjálpaði; þar með útvegaði hann handa sjer og sínum nóg af jarðargróða til uppeldis. Hann bar sig að auka við kofann, sem honum var feinginn til að vera í, og hjó timbur til að byggja með. Fólk hans uppörfaðist af því eptirdæmi, svo innan skamms var hann búinn að byggja bæ, sem

var nógur handa börnum hans og hjúum. Þar voru í eitt bænhús, og fjögur önnur bæarhús. Eitt þeirra hafði hann sjálfur og sonur hans, annað dæturnar, þriðja hjúin, og það fjórða var búr og eldhús. Eldri dóttirin, sem hafði verið trúlofuð keisaranum, hafði umsjón yfir eldhúsinu og búrinu, en hin að halda húsum og fatnaði hreinum, og hjúin hjálpuðu þeim í þýngstu vinnunni. Skömmu eptir að hann kom þángað, voru honum send matvæli gefins, en hann vissi ekki hvaðan þau komu. Meðan hann hafði lukkuna var hann aldrei svo forsjáll, að útvega sjer neinn sannan vin, sem í ólukku hefði viljað hjálpa honum. Á hverjum morgni fór hann í bænhús sitt, að biðjast fyrir, og sama gjörði hann hvern miðdag og aptan; ólukkan var búin að gjöra hann guðhræddan. Hann varð smámsaman rólegur í sinninu, og hefði verið í all-góðu standi, ef hann hefði ekki endrum og sinnum ángrazt bæði af samvizunögun og þúngum þaunkum af þeirri óverðskulduðu ólukku, sem hann hafði steypt börnum sínum í. Naumast var eitt missiri liðið frá því hann kom í sína útlegðar eyðimörk, fyr enn eldri dóttir hans fekk bóluna, faðirinn var bæði hennar læknir og sálusorgari, en öll hans mæða og umsorgun að viðhalda hennar lífi, var forgefins, því það var innan skams á enda. Þegar hún var önduð, las hann með börnum sínum og hjúum allar þær bænir, og brúkaði þá siði, sem hin gríska kirkja er vön að hafa yfir framliðnum, ljet grafa líkið í bænhúsinu, og skipaði börnum sínum að grafa sig þar líka við hliðina á henni þegar hann sjálfur fjelli frá. Undir eins feingu bæði hin börn hans bóluna, en hjá þeim lukkaðist hans hjálp betur, því þeim batnaði innan skamms. Þar eptir lagðist Menzikof sjálfur í sótt; sú mæða, sem hann hafði útstaðið, ángur af hans fyrra lifnaði, og

barna hans ólukka, sem sífeldlega var honum fyrir hugskots-sjónum, píndu hann og tóku smámsaman uppá krapta hans. Sjúkdómurinn var lángvarandi kramarsótt, sem varð þar af háskalegri, að hann nokkra stund vanhirti sjálfan sig til að varna börnunum að koma í þann háska, sem hann sjálfur var í; hann varð máttlaus og gat ekki úr rúminu farið. Þegar hann sá að tíminn nálgaðist, að hann yrði að skilja við börn sín, ljet hann þau koma að rúminu sínu, og sagði við þau:

*Börnin mín! jeg nálgast það seinasta augnablik míns lífs; frá því jeg kom híngað, hef jeg alljafnt verið að hugsa um dauðann, og jeg væri ekkert hræddur við hann, ef samvizka mín huggaði mig með því, að reiknings-skapur fyrir fyrri æfi mína fjelli eins vel og fyrir þá tíð, sem jeg hef verið í þessari eyðimörku. Guðs orð og skynsemin, sem aldrei stjórnuðu mjer, á meðan lukkan var sem kátust við mig, hafa hjerna kennt mjer, ad guðs miskunsemi er óendanleg eins vel, sem hans rjettlæti; jeg skyldi ekki hafa nema eintómis von, nú þegar jeg á að skilja við veröldina, ef að jeg hefði eptirlátið mjer eintómis dygðadæmi í henni. Allt til þessa eru ykkar hjörtu, börnin mín, ófordjörfuð. Ykkur verður hægra að halda ykkar sakleysi hjer í þessari eyðimörku, en við hirðina. En skylduð þið nokkurn tíma komast þángað aptur, þá munið til þeirra dæma, sem jeg hjerna hef gefið ykkur.*

Faðirinn hafði neytt allra krapta, sem hann gat til að brýna raustina meðan hann var að tala þetta, svo börn hans skyldu taka því betur eptir því. Síðan hóf hann hendurnar upp, eins og hann í seinasta sinn ætlaði að blessa þau, en lítill sinardráttur tók hann í því sama burt frá lífinu. Þessi var endalykt

þvíliks manns, sem svo sýndist eins og lukkan hefði hafið hann uppá hæðsta topp veldisins einasta til að kasta honum niður í þá djúpustu eymd. Hans lífssaga kennir stoltum og órjettlátum mönnum að óttast verðskuldaða refsíngu sinna vondu verka.

Það sýnist eins og Menzikofs seinustu orð til barna hans á banasænginni hafi verið spádómur um þá umbreytíng í þeirra standi, sem innan skamms fór að koma fram. Pjetur hinn annar dó skömmu eptir nýár 1730. Anna, sem kom til ríkis eptir hann skipaði að ljetta nokkuð kjörum þessara útlaga. Þess vegna feingu Menzikofs börn leyfi að gánga nokkuð í kríng hjá Jakúsk, og endrum og sinnum að meiga koma í kirkju, þegar embættað var. Þegar dóttirinn einusinni var á gángi, sá hún bónda utan fyrir kofa nokkrum, sem gaf henni auga, og sýndist eins og hann yrði sneiptur, og það kæmi flatt uppá hann, þegar hann var búinn að virða hana vel fyrir sjer. Hún gekk samt framhjá honum, því-að hans búníngur var ekki þess háttar, að hún hjeldi það væri nokkuð sjerlegt við hann. En þegar hún kom til baka, og aptur gekk fram hjá honum kallaði hann eptir henni: furstadóttir Menzikof! því flýið þjer mig? eigum við enn þá að sýna fjandskap hvert öðru á þessum stað, og í þessu ástandi, eins og við erum nú bæði? þetta sjerlega tiltal kom henni til að gæta að, hver svo talaði, og hún gekk að kofanum. En það var fursti Dolgorukki, sem hún fann þar svo til fara. Það má nærri geta hvað henni hafi orðið við! að finna hann þar, því margskonar þánkar hver öðrum mótstríðandi hvörfluðu í huga hennar. Hún sá hjer þann, sem var höfundur allrar hennar, og hennar ættíngja ólukku, og sá hann í allra stærstu eymd. Þegar hún hafði áttað sig, spurði hún: hvers vegna, og hvað er lángt síðan

keisarinn sendi yður híngað? keisarinn? sagði Dolgorukki. Æ! hann er dauður, og var skömmu áður trúlofaður henni Katrínu elztu dóttur minni. Komið þjer inn þá munuð þjer sjá, að hún liggur hjerna fyrir dauðanum á bekkjarfjöl — hvað? svarið þjer ekki? hafið þjer ekki vitað af því arna? — hvernig hefði jeg átt að frjetta það í þessari eyðimörk, svaraði hún? þar, sem okkur er ekki leyft að tala við nokkra manneskju — þau töluðu meira saman, og Dolgorukki sagði henni að Anna væri orðin ríkjandi keisarainna í Rússlandi, þar sem Elisabet hefði þó staðið nær. Anna hafði, sagði hann, eyðilagt allar þær stærstu ættir í Rússlandi, meðal hverra sín væri, til þess að geta sjálf ráðið öllu. Hann hefði á þessari laungu ferð með börnum sínum mætt þeirri allra svívirðilegustu meðferð, sem ekki sje brúkuð nema við verstu stórbrota menn, sjer hefði verið neitað um þá nauðsynlegustu hluti til lífsins viðurhalds, og enn væri hann að dragast upp í sömu eymd. Konan mín þoldi ekki þessa stóru ólukku, og dauðinn er búinn að frelsa hana frá þeirri sorg að sjá dóttur sína deyja í þessari vesæld. Hann endaði þetta tal með ógnarlegustu bölvunum yfir keisarainnunni og hennar ástvinum. Furstadóttirin Menzikof varð forviða af þessu hans æði og flýtti sjer heim til sín. Þegar hún kom þángað, gat hún ekki orði uppkomið fyrir undran, bræði og vorkunsemi. Bróðir hennar og sá stríðsmanna yfirboðari, sem átti að gæta þeirra, spurði hvað um væri að vera? eptir að hún hafði nokkra stund þagað, sagði hún frá öllum þeim nýúngum, sem hún hafði sjeð og heyrt. Þegar hún nefndi Dolgorukki, varð hinn úngi Menzíkof eins og óður, og hafði mestu gleði af að heyra í hvað aumu standi hann var, en lastaði systur sína fyrir þá vorkunsemi, sem hún hafði yfir hans óláni.

Jeg skal, sagði hann, líka fara að skoða hann, og útausa allri minni bræði yfir hann. Þessi hefndargirni kom þeim, sem átti að passa uppá þessa útlaga, til að neita honum Menzíkof nokkra stund um leyfi, að meiga fara út úr húsinu, þángað til hann var búinn að lofa að sýna honum Dolgorukki eingan fjandskap.

Keisara-innunnar ráðgjafar hugsuðu nú, að ekkert væri leingur að óttast af Menzíkofs börnum, báðu því að þau mættu koma til baka. Skipun um það var fljótt útgefin, sumir segja, að ábata tilgángur hafi verið einasta orsök til þessarar náðar. Það hafði komizt upp, að furstinn Menzíkof, sem í útlegð var, ætti mikla peninga í baunkunum í Venedíg og Amsterdam; þeir rússisku vildu ná þessum peníngum til sín, en gátu ekki, því í hinum stöðunum eru þau lög, að eingum slíkum peníngum er útsvarað, nema eigandinn eður hans erfíngjar sjeu bevísanlega í því standi, að þeir sjeu eigna sinna ráðandi, og þess vegna var ekkert annað ráð til að ná peníngunum, enn að kalla Menzíkofs börn til baka. Það má nærri geta hvaða gleðitíðindi þetta hafi verið fyrir þau. Það fyrsta, sem þau tóku sjer fyrir hendur, var að þakka guði þar fyrir í kirkjunni í Jakúsk; þó gátu þau ei yfirunnið hefndargirni sína við Dolgorukki svo, að hann væri ekki vitni til þeirrar gleði, sem þau höfðu, og láta hann finna þess sárara til sinnar eigin eymdar. Þegar hann heyrði þessi tíðindi af þeim sjálfum, andvarpaði hann þúnglega; en sá úngi Menzíkof ljet sjer nægja að auðmýkja hann með þessu móti, sem gat sýnzt að heldur kæmi af vorkunsemi og eðallunduðu hjartalagi, enn að hann vildi minnast gamalla mótgjörða. Jeg lofa yður ekki sagði hann, að biðja fyrir yður þar, sem jeg nú kem; þjer þekkið hirðlifnaðinn of vel

til þess, að lá mjer það, en í þeirri von, að guð muni gefa yður ljettir á yðar eymda-kjörum, viljum við systkynin hjálpa yður hjer svo mikið, sem í okkar valdi er. Þjer meigið eiga bæinn okkar, sem við skiljum hjer eptir, hann hefur feingið mikla umbót síðan við komum híngað, honum er haganlega fyrirkomið, og þar er sæmilega mikið af nauðsynlegustu vistum og öðrum hlutum. Takið þjer móti þessari gáfu með sömu ánægju, sem við bjóðum yður hana. Daginn eptir, snemma um morguninn fóru þau burt. skömmu eptir komu þau til Tobolsk, hvar þau feingu penínga, og útveguðu sjer sæmilegan klæðnað, en síðan þar frá til Moskow, því keisara-innan var þar þá tíð. Keisara-innan tók blíðlega á móti þeim, gaf þessum únga fursta Menzíkof kapitain-lieutenants embætti við hennar eigin stríðsmanna-vakt, og fjekk honum fimta part af þeim eignum, sem faðir hans hafði átt. Systur hans hjelt hún hjá sjer, og ljet hana vera sína hirðmey, gipti hana síðan skömmu eptir greifanum Bíron, bróður þess, sem lukkan síðan upphóf, svo hann varð ríkjandi hertugi í Kúrlandi. Fursta-dóttirin Menzíkof fekk í heimanmund þá penínga, sem faðir hennar hafði átt í Venedigs og Amsterdams baunkum, og sem fyrir utan renturnar voru fimmtíu hundruð þúsund ríkisdalir. Það er almennt mál, að þessi furstadóttir hafi geymt þann bóndaklæðnað afsíðis í sængurhúsi sínu, sem hún hafði brúkað í útlegð sinni í Jakúsk; hafi opt skoðað hann, og þar með minnt sig á þann óstöðugleika og þær umbreytíngar, sem manna líf er undirorpið.

## XLI. LITIR, SEM SÝNAST.

Piltar mínir minntu mig á, að þegar jeg talaði um, hvort loptið væri blátt eður ekki, hefði jeg lof-

að að segja þeim einhverntíma dæmi uppá liti, sem augað sjer, en ekki eru þeir sömu fyrir utan það; þareð jeg álít hvert eitt loforð fyrir vita-skuld, virtist mjer órjett að gjöra leingur skotaskuld úr þessari.

Fornir náttúru-spekíngar sögðu, að loptið hefði eingan lit, en blátt sýndist það af því, að svart og hvítt (nefnilega birtan í loptinu og skugginn) vel samblandað yrði blátt. Satt er, að ýmisleg skuggablöndun gjörir aðskiljanlega liti, t. a. m. kol í gisnu, hvítu ljerepti, sýnist blátt; blóðið, sem er rauðt, sýnist í gegnum hörundið í æðunum blátt, einkum undir túngurótum, hvað sumir fákunnandi hlaupalæknar vorir ei skynja, er strax segja spilt blóð sje í þeim, sem eru beræða, og undir eins hafa bláar æðar. Þegar skugga um sólar uppkomuleitið leggur á hvítt, verður hann fagurblár, en grænn, ef himininn er þá þakinn rauðum eða gulleitum skýjum. Sje ljós kveikt undir berum himni í hálfbjörtu, verður skugginn blár á hvítu, en grænn á gulu. Blár skuggi sýnist í speigli að vera grænleitur. Um sólar uppkomu og sólsetur er skugginn næst hlutnum svartur, þumlúngi þar frá blár, og leingra burtu grænn, en þá dagsljósið eykst, verður það bláa í skugganum grænleitara. Sje sá hlutur nokkuð gagnsær, sem skugginn er af, verður hann auk þess græna og bláa rauður. Skugginn af spili, sem stendur beint við túnglskini er svartur, sje aptur ljós sett þar á ská við, svo tveir verði skuggarnir, þá er sá svartur, sem verður bæði af ljósi og túngls-birtu, bleikur af túngls-birtu einnisaman, en blár af ljósinu. Að ýmislegan blæ leggi á hlutina, eptir því, sem ljósið er, og að þetta sje marglitt, eptir ýmsu ljósmeti, vita allir, varast því að dæma um lit nema við góða dagsbirtu. Þar að auk má sá, sem um liti vill dæma, vara sig á, hvort augun eru þreytt eður

ekki. Svo sýnist t. a. m. ef horft er stöðuglega nokkrar mínútur á ferkantað rauðt brjef lagt á hvítt, eða enn heldur á svart, sýnist vera blágræn rönd í kríngum það, og líti maður síðan á hvítan vegg, sýnist vera á honum blágrænn ferhirníngur. Sje ferkantaða brjefið gult, sýnist það ímyndaða blátt; sje það grænt, verður röndin purpura-rauð; á bláu saffranótt, á svörtu hvít, hvítu svört, o. s. frv. Hjer af kemur, að þeim, sem leingi horfa gegnum græn gleraugu og taka þau af sjer, sýnist allt vera rauðt, sem raunar er hvítt, en horfi þeir leingi gegnum rauðt gler, þá sýnist þeim allt eptirá grænt. Augnaþreyta ollir því, að blýni nokkur leingi í glugga í heiðskíru veðri, og loki svo aptur augunum, sjer hann nokkra stund eptir gluggans ímynd, svo hann jafnvel getur talið rúðurnar, þær sýnast þá líka dymmari en listarnir, sje þá höndin lögð á augað, verða rúðurnar bjartari, en listarnir sortna.

## XLII. FORN SPAKMÆLI.

Pytagoras. Vinur, sem þeigir yfir brestum vorum, er ekki svo hollur, sem óvinur er brigslar oss um þá. Ekkert er hræðslu-gjarnara í veröldinni enn vond samvizka.

Thales. Merki til heimsku er ofmikil lyst til að tala. Líkamans farsæld er innifalin í heilbrigði, en sálarinnar í lærdómi.

Kilon. Geðprýðin gleymir aldrei þeim velgjörðum, sem hún hefur meðtekið, en fljótt þeim, sem hún sjálf veitir. Það þrennt er torveldast: að þeigja yfir því, sem leynt á að vera, gleyma mótgjörðum, og brúka vel sína frítíma. Það er ekki svívirðilegra að ráðast á vopnlausan mann, heldur enn að tala ílla um þann, sem ekki getur afsakað sig. Forsjálni er æskunnar prýði, en glaðværð ellinnar balsam. Gullið reynir manninn. Annar spekíngur hefur sagt: eldurinn reynir gullið, gullið konuna og konan manninn.

Pittakus. Fyrirgefníng er betri enn iðran, það er: betra að fyrirgefa enn hefna sín, því iðranin fylgir hefndinni eptir. Þeigiðu yfir þínum ásetníngi, svo að einginn hlæi ef hann lukkast ekki.

Bias. Af öllu því, sem við ber í lífinu; er bágast að þola þegar lukkan snýr sjer. Betra er að vera dómari meðal óvina sinna, enn vina, því í fyrra tilfellinu fær maður vin, en í því seinna óvin. Af villudýrunum er harðstjórann, en af hinum tömu smjaðrarann helzt að óttast.

Periander. Gæðskan er konúnganna varatekt.

Kleobúlus. Tvennt þarf helzt að hræðast: vina öfund og fjandmanna hatur.

Sólon. Einginn kann kallast farsæll fyrir sitt endadægur. Það ríki er ílla statt, hvar yfirvöldin hlýða ekki lögunum, og almúginn ekki yfirvöldunum. Lögin eru eins og kóngulófar vefur, sem þeir sterku rífa í sundur, en eintómis flugur festast í honum. Spekíngur annar, er miklu seinna var á dögum, hefur sagt, að lögin nái einasta til meðalstandsins, sá ríki spotti þau, en hinn fátæki skreppi undan þeim, sá ríki rífi allan kóngulófar vefinn í sundur, en hinn fátæki smjúgi í gegnum möskvana.

Anakarsis. Eingin betri áminníng verður börnunum gefin til að forðast drykkjuskap, enn sýna þeim drukkinn mann.

Anaxagoras. Ellin og svefnin sýna oss veg til dauðans.

Sókrates heimti þrennt af sínum lærisveinum, vísdóm, forsjálni og þögn. Þegar vinir hans álösuðu honum fyrir, að hann hefði heilsað þeim, sem ekki tók undir við hann, sagði hann: því álasið þið mjer fyrir það, að hinn er ekki svo mannúðlegur, sem jeg.

Demokrítus. Skynsamra von uppfyllist stundum, en heimskíngjans aldrei, því hann óskar sjer meira enn orðið getur. Ríkidæmi er ekki að eiga mikið, heldur brúka það vel.

Heraklitus. Lögin eru frelsisins verndarmúr og líka ríkisins.

Xenófon. Það er nauðsynlegast að læra, að láta ei eptirdæmin skemma sig. Það einasta, sem ekki verður frá manni tekið, er ánægja af að hafa gjört gott.

Bíon. Vjer eigum að virða ellina, því vjer viljum allir fá hana. Ágjarn á ekki sitt góz, en gózið á hann. Forsjálnin er hugprýðinnar auga; hún er ellinni í stað hreysti, og hreystin æskunni í stað forsjálninnar. Forsjálnin heldur gömlum frá hættu, en hreystin rífur þá úngu úr henni.

Díógenes. Blygðan er dygðarinnar litur. Vonin er það seinasta, sem deyr í manneskjunni.

Zenó. Vinur er annar jeg. Þeir skynsömustu eru ekki

alltíð skynsamir, og hinir lærðustu vita opt ekki það, sem almennilegast er. Vjer höfum einn munn og tvö eyru, þar með kennir náttúran oss að vjer eigum að tala lítið, en heyra mikið.

Arístóteles. Rótin á kunnáttunni er römm, en ávögsturinn sætur. Ekkert eldist svo fljótt, sem velgjörðir. Fríðleikurinn hefur sitt vegabrjef hjá sjer. Svallarar lifa eins og þeir eigi stutt eptir, en ágjarnir eins og þeir aldrei eigi að deyja. Von er vakandi manns draumur.

Sadi. Í Persapólis var eldurinn tilbeðinn, en sá staður brann upp af eldi. Eins eru konúngarnir og þeirra uppáhald. Spekíngur nokkur bað þannig: ó! mikli guð! miskuna þig yfir þá óguðlegu, því þú ert búinn að gjöra hinum góðu allt gott, með því að láta þá vera góða. Þó gimsteinn falli í mykjuhaug, þá er hann eins dýrmætur, líka svo þó skarn hvirflist af vindi upp til himna, þá er það ekki meira vert fyrir það. Að hugsa vanmáttugur óvin geti ekki gjört skaða, er að hugsa einn einstakur neisti geti ekki orðið að báli.

## XLIII. GÁTUR.

32) Tíðin. 33) Snígill. 34) Sá, sem minnst þarfnast. 35) Kaffe. 36) Skíði.

37) Hvert er það kaldasta og undir eins heitasta fat, ógnarlega vítt; þó hefur það eingan skraddara gjört ríkan?

38) Margt mjög áríðandi rennur úr mjer út í veröldina, og valla er nokkur hlutur gjörður að ekki eigi jeg þátt í því; þó verður hún systir mín að hjálpa mjer, annars yrði margt ljótt, og margt sæist ekki. Þegar jeg er regnið, þá er hún sólskinið.

39) Stundum er jeg í einum stað, stundum öðrum og er þar þó ekki. Jeg sje það, sem jeg aldrei sá, því jeg er sjónlaus. Jeg er lítilsháttar, og þó konúngur; á alla fjársjóðu, og samt lítið.

40) Eigi jeg að nærast á annara feiti, þá verð jeg að tæra sjálfum mjer; samt er það ekki mjer í þágu; nei! fyrir þig er það, sem jeg næri mig og tæri mjer.

